# Ljóðmæli

Conferenceráðs

# Magnúsar Stephensens

**Doctoris juris**

fyrrum *Justitiarii* í Íslands konúnglega Landsyfirrétti.

---

Safnuð og útgéfin af Syni hans

O. M. Stephensen

Júſtits = Secretéra.

---

Selst innheft í Kápu 48 ß. Silfur Myntar.

---

Videyar Klaustri,

1842.

# Formáli.

Eg er sannfærdur um ad flestir Íslendíngar unna rit-gjördum Födur míns sál., Conferenceráds og Doctors M. Stephensens, og hafa þau jafnt og minníngu hans í verdskuldudum heidri. Nú á tímum eru margar af bókum þeim, er hann samdi og prenta lét, ordnar mjög svo fá-gætar, svo ad hinir mörgu er girnast ad leita þar lær-dóms, fródleiks og skémtunar, hljóta annadhvört ad verja til þess mikilli fyrirhöfn og kostnadi, edur fara varhluta af því öllu; Vinagledi, Minnisverd Tídindi, fyrri partur Gamans og Alvöru og Klaustur-Pósturinn eru ekki framar til nema á einstökum stödum, hér og þar um land-id. Í þeim bókum, er nú nefnda eg, eru eigi allfá lær-dómsrík og skémtileg ljódmæli Födur míns sál., sum frumkvedin, önnur þýdd úr útlendum málum; þó eru þad ekki þessi ein er eptir hann liggja, heldur og nokkur er mjög fáum hafa verid kunnug híngadtil og ekki fyrr prent-ud. Þad er hvörttveggja ad mér er ljúft ad halda ljód-mælum þessum á lopt, enda veit eg þad víst ad löndum mínum muni einkar kjærkomid ad eignast þau öll saman, á handhægri bók er ekki nemi miklu verdi; þau birtast ydur því á kveri þessu, gódir landar! bædi hin prentudu

ljóðmæli Föður míns sál. og hin sem ekki fyrr hafa komið fyrir almenníngs sjónir, eru þau eins og hann kvað þau, og svo úr garði gjörð frá mér sem best vóru faung á.

Eg býst við að margir muni sakna hér grafminnínga þeirra er Faðir minn sál. gjörði; en ekki er svo að eg hafi gleymt þeim, heldur hefi eg ásett mér að láta þær birtast innan skamms tíma, og þá um leið Erfiljóð þau er orkt hafa verið um fráfall beggja foreldra minna, þykir mér best henta að láta þetta hvörttveggja verða samfara og á einni bók; mun hún eigi verða all-lítil, þar sem grafminníngar þær, er Faðir minn sál. setti ödrum, eru hérumbil 50 að tölu.

Viðeyar Kl. þann 12ta Júnii 1842.

O. M. Stephensen.

Fyrsti Flokkur.

# Alvarleg Kvædi.

## Dagleg Bæn.

(Sjá Vina=Gledi bls. 322 — 324.)

Lagid er: Ris upp, min sál! og bregd nú blundi.

1. Alfadir! hvørn um aldir, allar, áttir himins og jardar her, villtir, helgir, vissir ákalla, vor Gud! Jehóva! Júppíter! alls voldug örsøk, æ lofud, ó=ransakanleg, Drottinn Gud!

2. Skynsemd einúngis unntir minni, ad sjá, hvørsu þú gódur ert, en blindur eg í sérhvørt sinni, samt í myrkrinu fékk eg bert, gott frá illu adgreint; því er, géfinn óbundinn vilji mér,

3. Náttúru þó ad vitskan vildi, veglega binda forløg vid. — Æ! géf mér vit ad varast skyldi, vondt allt framar enn Helvítid, og stunda meir enn himin hér, hvad gott samvitskan rædur mér!

4. Láttu mig ekki lítils virda, lán sem þín gjædska býdur mér, hvørt þú álítur hlýdni' ad hirda; en hugsun þeirri brjóstid ver: ad þín einúngis nái nád, nidur til orma' á þetta láð!

5. Lát mig ei halda Drottinn drottna, Drottinn einúngis manna sé, fyrst vald þitt hvørgi veit eg þrotna, en veraldar grúa mikinn sje. Sízt voga lát máttlausa mjøg, mér taka í hønd þín reidar-sløg!

6. Sízt þeim á lønd og lýdi kasta, er lítast midur unna þér! sízt brædur dæma hardt ad hasta, sem hugsa fráleitt nokkud mér! ef rétt eg breyti unn mér þá, æ svo ad breyta hédan frá!

7. Ef villist eg, æ virdstú leida, á veg réttari hjartad mitt; dárlegn einninn drambi sneyda, dýrmætt þó hreppti lánid þitt; ef vitska synjar einhvørs þín, ánægd géf þú sé lundin mín!

8. Yfir náúngans bresti breida, bródurs þurfandi líkna neyd, mér kenn og veittu miskun greida, ef miskunadi' eg þeim, er leid! Sízt er eg ekkért, en þótt mold, andi þinn mitt lífgadi hold.

9. Hvørt, sem eg fer, mig, Fadir! leiddu, fótstig lífs edur hels í dag; braud og rósemi blída greiddu, best sjerdú hvad minn lukku hag, edla framar eda' ekki má, uppfyllist vilji þinn mér á!

10. Allar verur í einum hljómi, allt náttúrunnar veldid fridt, Honum lof sýngi hvellum rómi, hvørs Musteri er rúmid vídt, en Altari haf, himin, jørd! Honum allt sýngi þakkargjørd!

---

Látínsk Disticha yfir útskýríngu heidurs-varda, Kristjáns Konúngs 7da, þann er Íslendíngar drógu upp og létu stínga í eir árid 1783; íslendsku útskýrínguna samdi J. Johnsonius.

---

In medio qvae stela patet signabit honorem
CHRISTIANI; nomen sêcla futura canent.
Qvae benefacta notent, patriae monumenta parenti
Collibus Islandos surgere digna decet.
Symbolicum, augusti regis sub imagine, verbum:
Gloria de patriae qvod sit amore; leges.
Ad dextram mare grexque triplex concernitur ultra,
Adqve pedem stelae diva Minerva sedet;
Cultura arvorum melior, grex corniger, omnis
Qvod generis vitae, pes sit habenda, monet.
Ad latus hoc stelae, supplex, septum patet intra
Gratia, Regnanti munera grata litans.
Commoda, scit, patriae qvam promovet, utile qvodvis
Instituit, renovat, protegit, auget, alit.
Ad laevam, fluctus ruit acta aqvilone carina
Respicit haec portum significatqve tibi:
Qvam bene Christianus foveat commercia, cives
Principe qvam fausti, qvi bene sceptra gerat.

Anchora spem fulcit regi pia thura litantem,
Libera, qvo tempus post breve ferre velit
Islandis nivæ damnatis, commercia; clarum
Regis ut extremo nomen in orbe sonet.

M. S.

HAVNIAE *MDCCLXXXIII.*

(Á Íslendsku.)

Heidurs = vardi Kristjáns kær kénnist midt, sem eigum vær, ad hefja láds um hædirnar, til Hans velgjørda minníngar. — Undir Brjóst-mynd Ødlíngs tjást: Æra af Føđurlandsins ást, valorđ Hans; ad varda rót Vísdóms hvílir gudleg Snót. — Hægra = megin handan sjá hjardir lítum Þrennar á; yrkju lands er boda bót, bjargar allra vega fót. — Innan Vardans múra má mjúkar fórnir Þakkar sjá, sem hún fyrir frømun lands Fylki brennir og eydslu grands. — Vinstra-megin flýgur Flaust fullan byr og snýr í naust; táknar þad, hve kaupa = kjør Kóngur eblir heilla = ør. — Er þat Von, med atkéri, Ødling' fórnir brennandi, fyrir ad veiti Fróni brátt fríann Kaup-verdslunar hátt.

J. J.

# Saungur

um

# Bardagann

## á Kaupmannahafnar skipa-legu,

þann 2ann Aprílis 1801.

---

Eptir svenska Skáldinu Wallmark í Stokkhólmi útlagdur, og med nokkrum nótum fyrir ólærda útskírdur af

## M. St.

(Sjá Tídindanna 2ad Bindi bls. 357 — 362.)

---

Hvad leng', Albion![1] harmþrúngin skal mín brá
Frá høfn til hafnar æ her-skipum þínum fylgja?
Hvad lengi ennþá á hafs vid-østrandi bylgja
Heims ríkin rænd og eydd í blód'gann fadm ad fá?
Æ! daudans ennþá kall ad eyrum þjóda rídur!
Og aptur Albion til brædra mords þeim býdur.
Frá Níl-fljóts bruna-bygd[2], þess jafn-banvæna hønd,
Strídds-nordur-bálid ber brádt á vor jøkul-lønd.

---

1) Albíon er gamla nafnid enska og skotska ríkjanna eda Britannia. 2) Níl-fljótid og løndin vid þad liggja í Afríku edur Sudur-álfu heimsins, hvar mjøg er heitt, og hvar enskir, sem Tídindin votta, hafa í undanfarin ár nokkur átt í miklu strídi vid Franska, einkum á Egyptalandi, og fluttu strídid med jafnri grimd þadan, inn á Nordur álfunnar nordlægu eda jøkul-lønd.

Vid eitt var eptir land enn þá her-vopnum beita,
Og blódi einhvør drøfn enn þarf ad litast´ raud;
Full hroka enn sú ey, vill hafsins Drottníng heita,
Ad yfir lønd og lá sín leidi brot og aud[1].
Níd-menni heppid nú þá atar bylgju blódi,
Sem fleytti fram í ró far-manna gullnum sjódi[2].
O Nelson! hegníng hørd hér sporum frekju nær,
Ef Nordrid ángrar þú ólukku stund þín slær.
Hrædst, grimmi! hrædst! sá byr, sem þín fær segl
útþanid,
Hvørs þú ei þekkir tál, þitt leidir óláns flanid.
Ei Sýrlands er þad haf[3], er þína kili ber,
Land nálgast líttu' og sjá! land fedra Júls[4] þad er!
Þar, Nelson! þekktu Prins, mjøg seinann sverdi ýta,
Óseinann sigurs til, — sem hetjur vyrdir nýtar,
Þó manninn meir — mannhlífd, heill gefur hans í
mund,
Sá strax þig sigra skal í Krídi og Ódal-lund!

---

[1]) Þad er: svo hennar ríkidæmi komi henni til ad þrjóta løg á ødrum á sjó og á landi, med árásum og undirokun, svo hún heita megi hafsins Drottníng. [2]) Hvar farmenn eda sjófarendur sigldu í ró med skip sín og dýrmæta farma. [3]) Sýrland í Asía og Egyptaland í Afrika eru áføst lønd, því gjørir Skáldid hér, ad Nelson siglt hafi á Sýrlands hafi ad Egyptalandi til ad vinna þann fræga sigur er umgetur í Tíd. *II*. B. bls. 4. og meiningin er því hér: þú þarft ekki ad búast hér, vid Júls land, sem er sigursælt til sjós, vid sømu heill og þá þú sigldir á Sýrlands hafi til Egyptalands og sigradir. [4]) Níels Júl hét danskur Admirall, frægasti sigurvegari á 17du øld, hinn hugprúdasti madur, hvar um hans mikli sigur á Svíum, árid 1677, ber vitni.

Þar, Nelson! þekktu fólk með egin heill ánægt,
Ei gaf út auð og makt sá annað niðurlægt!
Ur landi heyr þess hróp til Fridriks: „Fursti! Fadir!
„Vor hjörtu þau eru Þín; Þér offrum lífi gladir!"
Síst hugsa: Sigurs Guð frá sonum Dans[1] mun víkja,
Hann einginn hefir sjeð, þann hetju armlegg svíkja,
Sem fyrir sinn Kóng berst, heill sína' og fedra-grund,
Þá helblund sofnar hans fyrst hjörnum sleppir mund.
Horfð' á Danmerkur hug! hann Bernstorfs til-
lit hvetur
Eilífdar áttum frá[2], er hún sér mindað gétur,
Og Grykkja edla dáð og tignuð rómversk dygð
Sér óskað athvarf fann í hennar sælu bygð!
Eg fødur sje og son frá konu' og kjæru hasta,
Kóng fyrir, land og lýð í logann stríðs sér kasta.
Eg edlann einn sje þar[3] þann út að brynja hér,
Er ei af Kóngi kaup kýs, heldur vopnin, sér.
Eg flokk sje edlann með Athenes lár-ber krónu[4]!
Saung-gyðju flýta frá eg finn Minervas' sonu[5]
Bellónas búníng í[6]; brádt með Apolló sinn[7]

---

1) Dans Danmerkur Konungs Mikilláta, hans synir Danir. 2) Minning Bernstorfs føðurlands-elsku (sjá Tíð, 1 B. bls. 75, 152, 241, 425 — 26) eykur Danmørku nú hug. 3) Hér meinast Krón-prinsinn. 4) Með heidurs eda lofs-týr frá Lærdóms háskól-um. Athene nefndu Grikkir Lærdóms gyðjuna. 5) Minerva Vísdóms gyðjan, hvørrar synir þ. e. lærdir, hér tjást hrada sér frá Saunggyðjunni eda Lærdómsmentunum. 6) Til að taka upp Bell-ónu edur Strids-gyðjunnar búning, herklædast. 7) Með þeirra Mentagud og Lærdóm, hyggindi, flýta þeir sér.

Frá Mars lárvidar-lauf í leggja kransinn hinn[1].
Hvar menta son ei fást sitt gèfa líf med gledi
Þann fyrir fursta', er ydn hans vísdóms vernda rèdi?
Eg vidkvæmt uffid sje værm fella' af augum tár
Í band — sem allvíst er elskhugans djúp vid sár.
Ad deyja er þá hægt, er augad sigur lykur,
Og harm vid heimalands hværr ótti daudans víkur.
Hværr sá fjandmadur finnst, hværn farsælt land ei slær,
Sín børn í fylking fremst, hvar Fadir leidir kjær?
Rádvendnis rètta hefnd med ríki Dans skal strída;
Hrein vinníng heidri krýna hjá Fridrik valdi bída.
Hún krýnir kransi þann, sem kénnir frekju her,
Ad hugar ædid eitt hugs engin prýdin er.
Hún rètti Fridrik hann! — dýr-lært þèr[2] vildi vera
Ad varast gódum gègn grimmveldis hervopn bera,
Danmerkur sem vid sjó sár-aumann feng ávannst:
Skips- eydda - flaka' og fólk þitt fellt og lemstrad fannst.
Og ydrast eptir ferd, offeint! er vildir gleyma,
Hvørt, Nelson! hørfar þú, þig hladinn sneypu' ad geyma?

O Danmørk, frægra fold! þinn fengni heidurs-krans,
Í glansa geymist æ hjá Grikkja'- og Róma-lands!
Þín undra' eg afreks-verk, og Salamis[3] mèr sýnist.

[1]) Til ad ávinna hjá Strids-gudinum Mars ogsvo nokkur lauf af hans, edur Kappanna heidurs-kransi fyrir þeirra vaskleika, til ad bæta þeim í áðurfenginn heidurs-krans fyrir lærdóm. [2]) Hèr snýr Skáldid kvædinu á ný til Nelsons. [3]) Salamis, nú Coluri, nefndist eya hjá Grikklandi, vid hvørja Kappinn Temistokles vann frægasta sigur med fáum skipum, veraldar-árid

Vid Beltsins[1] bylgju rok, sem burt í ólgu týnist.
„Gud! og þá gódu sök!" greint her-óp
Fridriks var,
Og í hans brædra brjóst þad brádt hugstyrkinn bar.
Full ógna eldskot þau, er Dana Stríds-Gud feykti!
Abl logans ógna-fullt, sem elding Fischers[2] kveikti!
Ein átján hafdi hann herskip mót fernum tíu.
Ógn og deyd ad þeim lét af elda-keyptra-spýjum.
Sjá! hvar blóds-elfur um allt Nelsons skip út dynja!
Heyr Beltid bylkum þýngt med brúsi' um vægd
ad drynja!
Og jørdu allri á, eitt nefndu land, er vann
Nafn lídi minna med, og meiri lofstýr fann!
Danmørk krans' æru ein af enni Brittans[3] rykkti,
Sem hundrad skipa her vid hundrad slagi' áþrykkti,
Hann, sem kaus hennar í sín hefja' upp merkin Stad,
Þar Nelson frekur fljótt um frid og grafir bad[4].

---

3463, mót grúa Persa, er Xerxes Konúngur hafdi. (Nepos telur 1200 herskip þessa, mót 300 Grískra).

[1]) Belti meinast hér sundid milli Kaupmannahafnar og Skáneyar í Svíaríki, sem er eitt af þeim 3 sjóarbeltum helstu, er adskilja Danmerkur lønd. Meiningin er: hér er í þessu Belti nú svo frægur sigur unninn, ad hinn vid Salamis er þar vid þegar gleymdur. [2]) Fischer hét sá efsti danski yfirbodari í slaginum, næst Krón-prinsinum. [3]) Britti er sama sem: sá Enski, þar Engelska veldid nefnist og Britannia, Stór-Britannia; og er hér meint til Nelsons, sem tjáist hafa hád fleiri enn 100 orustur, en Skáldid segir: ad Danmørk ein hafi getad svipt hann í þessari, þeim heidurskransi, sem hann unnid hafdi í øllum hinum. [4]) Nelson beiddist eptir vopnahlé og leyfi ad grafa sína

O þér! sem létuð líf til lands og Kóngs að hefna,
Hvað vegleg umbun er sú Yðar vaskleik géfna!
Með anda látið hyst land Yðvart frelsað á!
Það frægðum Yðar er — allt Ærumínning há[1]

# Sumar-Gledin.

(Sjá Gaman og Alvøru 1ta Hefti bls. 1—4.)

Lagið er: I Krattet Lise Hvile tager.

1.

Vor-Sólin þá í áttum øllum
Hýr allt gull-málar lopt og jørð,
Í vatna' og jøkla vøn kristøllum
Sig vel að speigla, fredinn svørð
Prýðir, en yl og ljóma lætur
Af laungum dvala vekja' um síð,
Ísa-foldu fríð, Ísa-foldu fríð,
Afsøgnuður þá géfst ágjætur,
Líf, birta blíð, líf, birta blíð,
Allt bøl í gledi-drukknar-tíð.

haudu í landi, þó hann áður hefði búist við að sigra og fá þar yfirráð.

[1]) Allt landið, sem þér hafið frelsað, er yður sjálfs hin besta Ærumínníng í heiðursvarða eða bautasteina stað.

2.

Þá mjall-hvít úlpan meyrna hlýtur,
Vor módir lifnud býst í skart;
Græn-blómgadann skjótt búning lítur
Hvörr bóndi um sinn jardar-part.
Þá Sumars-liljur láta gleyma
Hvörn Landa Vetrar-þyrnis sting,
[1] :,: Þá allt umkring :,:
Í yndisfullum dansi sveyma
:,: Og um öll þing :,:
Ung folöld, kálfar, lömb í hring.

3.

Þá loptin glidna öll elfanna,
Sem áfram kveiktar velta bratt,
Og buldra nidinn bergmálanna,
Vid bragínn þann er vært og glatt,
Urrida' og laxi ofur-mörgum
Sem einatt skvetta, móka í röd
:,: Ut um öll vöd :,:
Frá ydu-fossa' og hylja körgum.
Þá ber ad hröd, bíflugan glöd,
Af blómstrum hunáng oss í mjöd.

4

Þá um jardríkid allt fer sveyma
Ný-endurlifnud sképna hjörd.

---

[1]) Hvad sem í skáldskap stendur milli þessa teikns :,: á eptir þess merkingu ætíd ad tvítakast, eins og gjört er í 1ta erindinu.

Þá hvað eitt lífs í himin-geyma
Gladt hefur kvak og þakkargjörð,
Þá milliónir [1] manna' og dýra
Gauk með og Lóu syngur hátt,
:,: Um ást og mátt :,:
Vors Alföðurs, og lof hans skíra;
:,: Svo dag sem nátt :,:
Hans dýrð framtóna' í hvörri átt.

5.

Þá skauta fagurt skip á höfum
Og skunda' í hafnir stór og smá,
Þá garpar fúsir gégna kröfum,
Þá glymur silfrið borðum á.
Þá skulu nægtir nauðsyn bæta,
Svo neyð umliðin gleymist best.
Þá þykir pest, sú þýngst og vest,
Ofþurrann háls ei grand að væta.
Með sinnið hresst þá finnum flest
Á flakki Bónda, Valdstjórn, Prest.

6.

Þá leika hvalir lands-við-steina,
Um lög þá krökkt er fiskum af;
Þá hans og sveita blessan, beina
Leið bráðt er færð um land og haf.
Kaupstaðinn í, þá kaupist sopi
Og klútur, borði' í sumar-gjöf.

---

[1]) Hvörr einn veit að 1 millíón er þúsund þúsundir.

Hött = kápu løf og kattúns = trøf
Af kirkju = víni lítill dropi;
:,: Fyrir utan-tøf :,:
Full áman sorgum verdur grøf.

7.

O! Sumar! þú skalt menn áminna
Ad meta hófsins dygd, sem ber,
Svo Sumar = yndis fegurd finna
Og føgnud hreinann mættum vér.
Vér skulum Sumar = saung út = tóna.
Og segja: Gudi mildum prís,
:,: Ver mildum prís :,:
Af munnum lífsins milliona!
Líf allt upprís! þeim inna prís,
Sem einn er gódur, máttkur, vís!

8.

Vor Sumar = gladværd svo skal hvella
Al = saung náttúran kvedur þann.
Á gledi = skálir greidt skal hella,
Heit glymji óst um sérhvørn rann!
Lystugir, brædur! súpid, sýngid,
Því Sumar = gledi fagna' er mál;
:,: Hátt hríngi skál :,:
Sæmd, heillir Island allt umkríngi!
:,: Lands = heilla skál! :,:
Svo hvør ein fagni Sumri Sál.

# Horatii Kvædi til Dellii.

## fritt útlagt[1].

(Sjá Klaustur Póst 1818 bls. 126 — 127).

---

1. Jafnlyndi ágjætt er, ordug vid lífsins kjør. Eins lán ef lætur þér, lýst því hóflegt fjør, samt í medlæti' og mædu, þess, Delli! minnst: — þér deya ber.

2. Hvørt sem vid hrigga land, harmafullt líf útrann, edur um græna grund, á grasbed fjarlægum ann, hvílast á helgum døgum, og bestu drykkjum kjætast kann.

3. Hvar greni' og hvítabjørk, hríslum blómlegum þér, dáfagra fléttar ørk, forsælu gésti lér. Lækjar buldrandi buna, hvar farveg bogian flýtir sér.

4. Bjód híngad berist vín, balsøm og yndæl rós, á medan skammvinn skín, og skortir ei dug þinn hrós, en forlaga nornir fresta, þitt út ad sløkkva lífsins ljós.

5. Húsi þú hverfa mátt, og haglendi keyptu frá, bújørd', sem bekkjar hátt, velja vøtn leirug á, þú skalt úr vegi víkja, audsdýngjur þínar arfinn fá!

6. Hvørt kafinn ertu aud, arfborinn Kóngum rétt,

---

[1] Med því ad varðveita, sem varð, adal meiníngu þessa Snilli-kvædis, en þarhjá sleppa úr bædi manna, stada og fljóta nøfnum, og mestu af heidnum Trúarbiktum, sem í því fyrirkoma, hest eg viljad færa þess innihald nær kristnum lærdómi, svo því hentugra Almennings kvædi hjá oss verda mætti.

edur ørega gaud, af auminngja konan slekt, hjarta á vídavángi, svœgum deyd munt offur sett.

7. Allir søfnumst til eins. Allra þá hlutfall snyst[1], til gledi mun eda meins, mønnum ákvardast víst, einum fyrr, ødrum seinna, hell nær enda líf vort lízt.

# Arstídirnar.

(Sjá Klaustur Póst 1819 bls. 6 — 13).

Arstídir allar
Um þá skiptast,
Ein eru þinna,
Alvaldi Fadir!
Dádsemda Gudsdóms
Dýr umskipti.
Ar hvørt sem lídur,
Er af þér fullt.
Vegsamar inndælt
Vor dýrd þína,
Og þinni lýsir
Ast nákvæmri,

Lætur þú lángt og vídt,
Løndin blómgast,
Balsami loptid
Blídu anda.
Þá fjøll umhverfis
Undirtaka;
Þá birtast skógar
Brosleitari;
Þá fyllist hjarta
Hvørt med gledi:
Þá sérhvørt skémtun
Skilníngarvit.

[1]) Med hlutkasti líkeinkast hér Forløgunum ad álykta um dauda manna, eins og fleirst annad þanninn útgjørdist hjá Róm-verjum. Fyrir sérhvørn vørpudu þeir hlut í krukku; var hún sídan vel hrist og vidsnúin; en svo hvørs eins hlutur aptur útdreginn, um hvad sem gjøra var, og kom þá sérhvørs hlut-fall í ljós.

Svo skín á Sumri
Sumars dýrdin,
Ljómanda medur
Ljósi og yl.
Svo skín med fegurd
Full þín Sunna,
Allt upplífgandi
Um árstíd þá.

I skruggu drunum
Ottalega
Þín stundum heyrist
Þruma rödd.
Heyrist hún um dögun,
Hádag, nætur,
Og rökkur í lækja
Rennandi nid,
Skógahvin' og gölu
Holrómadri.

Alvöld gjædska þín
Otakmörkud,
A hvörju ljómar
Hausti fegurst.
Hún þá samveitslu
Vegsamlega
Öllum framreidir
Alheimi lífs.

Þig gjöra stormar
Þrátt um Vetur,
Og skýa-bálkar
Ottalegann.
Æda þeir allt um kríng,
Allt þeir skekja;
Vísn í byljum ógna
A bylji ofan.

Mikilli hátign
Mirkrin lýsa,
I hæd þú á vængjum
Hvirfilvinda,
Fram þegar brunar
Og býdur jördu:
Þig einann óttast,
Þig tilbidja;
Og þá náttúruna
Med nordanstormi
Þínum þökknast má
Þér audmýkja.

Allt mjög dásamlegt
Er umhverfis!
Allt guddóms speki,
Og ædstum krapti
I öllu sénum
Öllum lýsir.

Einfaldir skarar,
En yndislega
Eru samblandnir
Astúd medur.
Sameinud er gædska,
Sannri fegurd;

Sjálfur er eins skugginn,
Svo vart þess gjætir,
Sem dofnandi ljós
Deyi' ad skugga.
Svo vel samstemma
Sjest allt myndad,
Ad med umskiptum
Allt inntekur.
En þó madurinn
Opt um ráfar
Sálítill, skynlaust
Slápir á allt.
Verdur hann þín ekki
Var, né þekkir
Hønd sí-starfandi,
Sí-alvalda,
Í hríng sem hvirflar
Hljódum knøttum,
Verkar í adskildu
Undirdjúpi,
Og upp þadan frjófgum
Andar dømpum,
Blómgri sem um vor allt
Blessun dreifa.
Ráda dags hita,
Rødals geislar,
Uppheldis abla
Øllum skepnum
Og hradt framhrynda
Hvirfilvindum.
Þegar á vixl þessi
Þæg umskipti,
Færast áfram um
Fold gjørvalla,
Lífsins hvør ein hræríst
Lind af gledi!
Á bid eg hlusti
Øll náttúran:
Himins und' musteris
Háu rjáfri,
Sál hvør lifandi
Samtaka verdi!
Samtaka prís og
Saung upphefji,
Alhljóma røddum
Andheitann saung!
Galid þeim blídt lóf
Þér golu-rómar!
Andi hvørs í ydar
Andar gusti;
Skírt hann vegsamid
Í skyggdri audn,
Eikur hvar á fjøllum,
Fám bifandi,
Skélfíng' helgri fylla
Skyggda lundi.
Stormar! þér, sem látid
Sterkari róma

Felmtradri verøld,
Fjærri bløskra;
Þér, sem hana skékid,
Hátt upplyptid,
Hvínandi saungum
Ad himna bygd!
Lýsid snjallt hvørr ydur
Lét svo æda!
Undirtakid lof hans
Lindir allar!
Ydándi lækir!
Unnid þér mér,
Medan eg ígrunda
Mátt hans framar
Ydar lofgjørdar
Ad læra saungva.
Flugstraung, djúpu
Fljótin, vøtnin!
Og lygnari ár! sem
Um endilánga,
Velli dala leidid
Vætusøfnin;
Eins þú undrafull,
Adgreind verøld,
Hátignarlega
Haf veraldar!
Hljómid øllum dýrd hans
Dásamlega,
Hvørs alvøld røddin
Ydur øskra baud;
Bodum hásum hætta
Brimhljóds drunum!
Blómstur, grøs, aldin!
Balsam ydar
Dampskýum blandad
Blídt uppstígi
Honum til heidurs,
Hvørs sól skreytir
Ydur, en ylmun
Andi fyllir,
Fingur voldugur
Fagur=pentar!
Lútid houum skógar!
Látid, akrar!
Gullintoppa veifa,
Og graslendur!
Hvískrandi lofgjørd
Hýrt innblásid
Haustyrkjara hvørs
Hjarta' og eyrum,
Heim þegar heldur
Und' heidum mána.
Þér, sem vørd haldid
A himnum uppi,
Svæfdri jørd' yfir
Sín óvita,
Ljómandi klasar!
Ljóss mildustu

Glampid út geislum,
Guddóms Englar,
Á medan ydar
Und' stjarn-himni
Syngja fagurt lof
Á silfurhørpur.
  Dýrdleg, þú mikla
Dags uppspretta,
Ímind Skaparans
Ædst hér nedra!
Á hnøtt af hnetti,
Hafi lífsins,
Og allstadar gledi
Utstreymandi!
Hans láttu vegsemd,
Hvørn þinn geisla
Ná um aldir rita
Á náttúruna.
  Heyrast þrumur druna!
Hljód sért verøld!
Og af lotníng full
Lútandi fram.
Ský hvørt medan skýi
Skírt vidkvedur
Himna lofsaung þann
Hátídlega.

Undir hann takid
Og endurjarmid[1]
Hálsar! og mosum
Huld bjørg fjalla!
Bauli ans undir
Bergmáls rómi
Dynmrøddudum med
Dalir allir!
Hann því, sá mikli
Hirdirinn rædur;
Hans skal milda ríki
Hradt til koma!
  Upp bid eg vakni
Øll skóglendi!
Upp þau kyrji saung
Endalausann!
Dagur þá hvíldarlaus
Deyr og svæfir
Kvakandi verøld',
Kom þá fugla
Inndælastur allra
Og sættdillandi,
Næturgali kjær!
Nótt ad skémta;
Hún þá hlustar til
Henni kénndu

[1]) Hér meinast: ad ásamt hálsum og fjøllum, saudfénadur á þeim, og nautpeníngur í dølunum, skuli, hvørt med edlilegum rómi þess, lofa Skaparann.

Um náð Guðs sýngja
Í nætur dymmu!
Og þér Fóríngjar!
Fyrir hvörjum
Vyrðist allt svo broslleitt
Verk sköpunar.
Þér, hvörjir höfuð
Og hjarta eruð,
Og þó undir eins
Allra túnga!
Komið þér, þann mikla
Kórónið saung!
Byrji hann í borgum
Byrgður miklum
Grúi manna stór!
Og gjörist lægri
Samtóma röddum
Og raustu lángt=
Undirkveðandi
Al=sköpunar!
Skérið hvellt við
þagnir
Hátíðlegar
Úr hreymi saungva
Hás=rómuðum!
Eldur samblandinn,
Eins og sérhvörs
Upp má hvörn glæða,
Upp þar blossi
Sameginlegur
Saungva logi
Og hátignarlegur
Til himna Guðs!
Eður ef þér kjósið
Öllu heldur,
Landbúa skuggann
Og í lundi hvörjum,
Musteri heilagt
Haldið vera;
Látið þá hljóðpípur
Hyrðaranna
Og mjög frábærra
Meya saungva,
Hvíslandi Seraph
Og hörpur Skálda,
Sífeldt lof þar sýngja,
Sífeldt prísa
Árstíðanna Guð
Við Áraskipti!

---

Mig hvað áhrærir
Mér ef gleymist
Elskað efni það,
Út hvört springa
Blómstur um vorið
Eða bleikir lönd
Sumars geislinn glær,

Edur glóir haust,
Andagift skáldum
Innbláſandi,
Edur upprís Vetur
Í austri bløkku.
Mín skal þá túnga,
Málllaus verda;
Imindan framar
Ekkért mála;
Frá gledi daudu hjarta,
Gleymast ad slá.
Forløg mér ef vísa
Til fjærstu randar
Af jørdu grænni,
Hvar føtna sidir
Villtir æ drottna;
Eda vatna til,
Adur sem aldrei
Um var súngid.
Gulli fyrst hvar roda
Geislar sólar
Vid uppruna fjærstu
India fjøll;
Ellegar þeir loga
Vid undirgaungu
Atlants eyar um,
Er mér sama!
Fyrst Gud allstadar
Er mér nærri,
Allstadar fundinn,
Eydimørku
Allt eins um vída,
Og í stór = borga
Mannþraung mikilli,
Má þar vera
Gledi næg, hvar hann
Gledur lífi.
Þegar loks þeirri fram
Þokar stundu
Hátídlegu, sem
Mitt hulda flug
Vængjar komandi
Til veralda
Þá fús eg gégni;
Þar skal eg sýngja
Um nýa dásemd,
Med nýum krapti!
Hvørgi fæ eg farid
Ad finni' eg ei
Ast allt umhverfis
Allsherjar Guds,
Allt upplífgandi,
Øllum þessum,
Hnøttum sem vidheldur
Og hnatta sonum.
Hann leidir ætíd
Af øllu því,
Sem oss sýnist íllt

Sannarlegt gott;
Af því betra aptur,
Og æ betra,
Dendanlegri
Í framgaungu.
Af honum verd eg
Allur numinn
Sem frá sjálfum mér;
Af sjálfu ljósi
Dútmálandi
Ofkygn nærsta.

Þøgnin best afmálar!
Því skal eg þagna,
En hljódur hans ígrunda
Hátign og lof!

(Athugaſ: Fyrsta kvædid og þetta eru útløgd).

# Saungur,

Frumkvedinn af Hra. Doctore og Professore Juris

## M. H. Bornemann.

Undir sama lagi útlagdur af M. St.

(Sjá Klaustur Póst 1819 bls. 38 — 39.)

1.

Heill krýni þann hýrlyndi', er ann,
Hýreygt bros hvørs þokka má boda.
Sá gledi nærri og fjærri fann,
Fram tøfra hjá øllum þá kann,
Honum sjálf mót' um heiminn hún rann,
Hvar hann dvelur, þar má hana skoda.
Alla náttúrun' elskar því hann
Eins og fuglinn þá morguninn rodar.

2.

Heill fylgja þeim mannvini má,
  Manna hlut í kjørum sem tekur;
Heill, brædur alla hvørr elskar, á,
Því unnt honum fúsir þeir fá,
Vinur Himins og haudurs er sá,
  Honum medaumkan inndæli vekur;
Eins føgnud á ný finnur, þá
  Fyrir veg hans, er sorgina rekur.

3.

En sælastur allra sá er,
  Sanna dygd er í hjartanu rætir,
Hún honum orku almátts lér;
Hún andstreymis ánaud hann ver,
Því hann himin í brjósti þá ber,
  Býr í hjartanu sakleysis kjæti.
Med fridi og frelsi hann sjer
  Frór í von til ens eilífa sætis.

4.

Vertu gladlyndur, gódsinna, frí!
Gjøri þrennt þad í einíng þig hressa!
Algjædskan þig adstodar því
Ef gladur ert, godsinna, frí
Hjarta samtaki' og anda þíns í
  Alheims sála þín líkist vid þessa.
Annars heims þú ert algjørr og frí,
  En í daudanum lífid munt blessa!

# Sumarid 1819[1].

(Sjá Klausturpóst 1819 bls. 65 — 68.)

---

1.

Bjart ljós og blída, burt úr landi hratt
Nótt, kulda, kvída; kápan hvíta datt
Meyr af fold og fjøllum; féll í gufu þýd;
Leyst af lá og vøllum, leid í himin-víd.
Þángad hæda frjófgun flaut
Flódid gæda' í módur-skaut.
Skiptin klæda skreyta laut,
Skóg og fjalla hlíd.

2.

Líf grær med grænni, grund og bótin kífs.
Vaknadir vænni, vyrdast skarar lífs.
Um jørd alla sveyma, ædsta prísa þann
Hárra himin geyma, og heima Stjórnarann,
Lífs sem gledi unna øld
Og ótal rédi sképna fjøld.
Hans um kvedi háleit vøld
Hug og dug fá fann!

3.

Ný-sumars sunna, sjest upprunnin blíd.

---

[1]) Fyrir frekum 20 árum síðan, fagnadi eg Sumarkomu, 1798, med Kvædinu: Vor-Sólin þá í áttum øllum, etc. er stendur fyrst í Gamans og Alvøru fyrra Hefti; en nú aptur undir enn algengaru lagi, sem máské gjøra megi þetta Kvædi jafnmedtækilegt.
M. St.

Bjargræda brunna, býdur opna lýd'
Fagurbúin blóma, birtist jørdin frid,
Rødnls litum ljóma, loga' um grund og hlid
Gullin-høklar glóa' um fjøll,
Glitra jøklar. Hverfa trøll.
Mæda hrøklast undan øll.
Er hér gledi tid!

4.

Sæt-róma syngja, Svanir vøtnum á.
Otal umkríngja, er vort land ad sjá
Fugla, oss ad færa, fidur, egg og dún;
Hreidrum veru væra, velja um bæ og tún;
Kríu, Spóva, Edur, Ønd,
Ut um mó; vid flædarstrønd.
Bjargfugl, Lóa løgin vønd
Leika' um keika brún.

5.

Lømb, Kálfar leika, lífleg grundum á.
Hross, Foløld feykja, foldar ryki hjá.
Ær og Baulur bera, brunn í mjólkur-sekk'.
Hún mun hollust vera, og heima blessan þekk.
Jórar frenda, fljótt, sem reid
Fljúga heidar yfir á skeid.
J búa hreidur bót vid neyd
Og bjørgin mørg þvi gékk.

6.

Hás blástur Svala, hvirflast vødum í.
Vel vitum ala, Vatna-sikúng mý.

Fiska flædar=brúna, fjøld um midin vód;
Kneri byrdum búna, báta Selur hlód.
Hvín í orfum lipur ljár.
Laxa=torfur skvetta' upp ár.
Hvørt sem horfum inndælt ár
Audnan baud øss gód.

7.

Ur Vetrar inni, allt á kreik sér brá,
Svo Sumars kynni, sedjast gædum fá.
Svo med Sumar=størfum, safnist fórda gnótt:
Í Vetrar þúngum þørfum, þjód ad verdi tótt.
Hátt upp stelast Skaut um ský
Skipa; félast mørg þeim í.
Kaup ei véli farma frí,
Svo felli hrelling drótt.

8.

Allt gledur annad; en þá sturla nær,
Hvad bygdum bannad, bjargar heillir fær,
Drekkjum, Brædur! øli, brádt svo hugg=
umst vær,
Allir í tæru Øli, Ánægd viss þar grær.
Sumars fengin sending ný,
Svanna' og Drengi kjæti því!
Sér uppþreyngi þøkk um ský
Med þjódar ódi skjær!

# Nyárs = Kvedja 1820.

(Sjá Klaustur Póst sama ár bls. 1—2.)

---

1.

I midnættis myrkvum geymi,
Margt eitt Arid Sunna fól;
Blisid sögu birtir heimi,
Böl og heill, sem lidid ól.
Fari þad vel! þess söknum síst,
Sorg því gledi meingud víst,
Sérhvört Ár mun sannást lýdum;
Sæld armædu vafin tídum.

2.

Ur fadmi Tídar fögur Sunna,
Fljótt uppreis med Ar á ný,
Ljóssins blída, ils ad unna,
Allt uppljómar haudrid því;
lángri dymmu léttir frá;
Líf og frjófgun kveikja má;
Heim um vídann blessun breidir,
Bitrum kvída ver og eydir.

3.

Til heimkynna vorra vísi,
Velferd, gledi Arid nýtt!
Hvört ad sinna hagsæld prísi,
Haudur med sé gróda skrýdt;
Leidi ad strendum Unnar aud;

Ur graslendum Sunna braud;
Lífsins grúa lífs ágæti,
Lands innbúa heill svo kjæti.

4.

Frjófgun Vetur foldu búi,
Fríðki Vorid blóminn skjótt;
Yndi Sumars ad oss snúi;
Auki Haustid forda gnótt;
Gjørvallt Arid fjør og frid
Frami, heillir ánægd vid,
Lønd og Borg vors Kóngs umkríngi,
Kénning, Vøld og Dóma hríngi!

5.

Gódra Menta ljósid leidi,
Lukku veg svo røtum á;
Dygd best hentar gáng þar greidi,
Gæfu þegar stundum ná!
Lidid, þøkkum! Arid er;
Annars smøkkym gengid vér;
Yndis heppnum allra Fadir,
Ann mannsképnum — Verum gladir!

---

## Fyrsti Sumardagur 1820.

(Sjá Klaustur Póst sama ár bls. 75.)

---

Veik burt effsti Vetrardagur
Vor svo kjæti Menn og Víf.
Kunninn Sumars fyrsti fagur,

Fjøll gull=rodar kveikir líf,
Farðu, mildi Vetur! vel!
Von af þér eg glædast tel:
Að fáir snúið foldar-boda
Frjóst í Sumar, gróða bodað.

---

Æsku=Vor oss undirbúi
Ungdóms gjæfu Sumar blítt.
Manndóms Haust að mønnum snúi
Mæti lífs, af dáðum prýdt.
Veki Elli=Vetur frið,
Von, minníngu hinna við:
Æfi=Vetur eptir skoda
Eilíft Vor í Morgun=roda!
(eda svona, ef helldur þóknast).
Eptir hríðir Æfi skoda
Eilífs blíðu Morgun=roda!

---

# Þjóð=Saungur
## Hjálmars á Bjargi.

(Sjá Hjálmar á Bjargi bls. 147 — 8.)

---

Lagið: Eldgamla Ísa=fold.

1.

Heill græer á hvørri jørd,
Hvar grædum lód og hjørd,
Kál, Alnir, Kýr!
Hvar eining blessar bú,

Hvar Børn, Vøld, Fedur, Hjú
Gud dýrka dygdum trú,
Drótt forsjál býr!

2.

Heill og jafn hródur Stétt
Hvørri, sem skyldu rétt
Gaum fúsann gaf!
Hvar Kénning holl er þjód;
Hvar Løgsøgn rædur góð;
Hvar Lækning léttir frød
Lífs meinum af!

3.

Heill græ vid hvør ein størf,
Húss-idn og abla, þørf
Løndum og lýd!
Hvar Verdslan vidrétt fær
Velgengni, Ment er kjær,
Ást, heidur, orku ljær
Eindrægnin blíd!

4.

Kóng, Valdstjórn, Kénnistétt,
Kristinndóm, Løg og Rétt,
Hollt Lækna lid,
Kaupverdslun, Bændur, Bú,
Børn, Mentir, Dygda-hjú,
Gud bidjum blessa nú!
Bygd heill og frid!

---

## Grasa-Sorg Muna èptir Lychnis[1] árid 1805.

(Sjá Klaustur Póst 1820 bls. 125—6.)

---

1.

Glóir sunna, glampa speiglar vatna,
Glitra jøklar, ljómar foldar kinn;
Angurs-mein samt ei vill Muna batna,
Allt um bústad dapurt lítur sinn.
Ei þar skémtir ótal fugla kvakid,
Arga hrafnar sorgar org um þakid;
Raunir optar reisug fylla slot,
Reynist gledin vissar byggja kot.

2.

Breidir Flora[2] blómleg tjøld um velli,
Býdur veitslu mønnum jafnt og fé;
Ei sú kjætir, en þad tídum hrellir,
Ad Kjærminna[3] horfid blómid sé.
Ofan hlídar Muni vill sér velta,
Veróníku[4] leita — mæddur elta
Ununar-pløntu[5] — er hún hér? ónei!
Engin þvílík finnst hér: Gleym mér ei.

---

[1]) *Lychnis* heitir føgur jurt, sem grær hér i landi. *Lychnis alpina* fær nøfnin: Augnfró, Kveisugras, Ununarjurt, og er med rósraudu blómstri, nokkud svipudu Géldíngahnappa eda Gullin-toppu. [2]) Blómusturgydjan, nefnd *Flora*. [3]) Nefnist og: Gleymdu mér ekki, sjá Klpóst 1820, bls. 59. [4]) Veróníka, falleg jurt, á Íslendsku: Æruprís, sjá samastadar bls. 57. [5]) Ununar-planta (*Lychnis*).

3.

Syngur fugla sveit um mar og bakka,
Sérhvør skepna rómar gledi prís.
Einn þó Muni ángurs bikar smakkar,
Unan hvarf úr Gardars Paradís[6]
Lychnis hjá hans lífsins yndi dvelur;
Lychnis frá — sig gjørvallt Muna felur;
Lychnis blómstra lengst mun heita val,
Lychnis søknud ávallt Muna skal.

4.

Merkis-jurta minníng jørdu ofar
Muna þegar engin gledja má,
En hans moldir undir grøsum sofa,
Ástkjær Lychnis! blómstra þú þeim hjá!
Þar Kjærminni láttu hjá þér lifa,
Legstad hans þín úda tár á skrifa:
„Veróníka vefja Muna bed,
„Vicia cracca[7], gódri Lychnis med."

Í eptirlátnum skjølum, sál. Conf: M. St., er uppkast til þessa kvædis med hans handarriti og þetta ritad á bladid: *NB.* Þetta kvædi er til villu inscriberad „Innsendt" undirritad *H.*, en orkt af M. St.

---

[6]) Gardar fann einna fyrstur Ísland, og lofadi mjøg landid.
[7]) Umfedmíngsgras, Flækja, (sjá Klpóst 1820, bls. 38), prýdileg jurt, med blálifraudum og raudum blómstrum.

# Vetur og Vor.

(Sjá Klaustur Póst 1821 bls. 61—2.)

---

Lagið: Nyh Livets korte Morgenrøde.

1.

Følnar á Haustum foldar blómi;
Fellur á Vetrum skógar lauf;
Svørtum hylst kløkkum sunnu ljómi;
Samt fyrir geislum jelin rauf;
:,: Sig orma, dýra, fugla fjøld
Felur, en jørdin blundar køld. :,:

2.

Sét velur skjól og Vetrar inni,
Værdar þurfandi lífsins sveit.
Náttúran þøgul njóta minnir,
nætur láng=dægra vorn um reit,
:,: Hvíld eptir Sumars þyggja þraut,
Þrótt lénar daudans bródurs skaut. :,:

3.

Þá Vorid birtu foldu færir,
Frjófgun, il, skrúda, nýa dád,
Uppýngdu lífi allt sig hrærir
Um lopt og vøtn, en fyllir lád.
:,: Ur dupti risinn ormur þá
Upp sér til skýa lypta má. :,:

4.

Þá moldin lífgud býst í blóma,

Byggir lifs fjörið jarðar hring,
Vaknaðra skara raddir róma
Ráðanda lofgjörð allt um kring.
:,: Náttúran kveður undir öll;
Ansa bergmálum hamrar, fjöll. :,:

5.

Svo Sumar=blómið lífs hjá líða,
Svo lífs á Hausti fölna má.
Svo visnan þess á Vetri blíða
Verð géfa; birtast fegra, þá
:,: Vor eilíft hvílðann vekur lýð.
Vort þegar launast sigri stríð. :,:

6.

Þá, Faðir! skyn rétt þyggjum dæma,
Það nú í dymmu grillum vér,
Því bikar sorga=blands að tæma
Vaudst oss og æfast raunum hér.
:,: Þá, fyrir lífið lént á jörð,
Lofar þig hennar sælli hjörð. :,:

---

## Veturinn 1821—2 og Vor=batinn 1822.

(Sjá Klaustur Póst 1822 bls. 57—9.)

---

Lag: Guð, sem er yfir Guðum neðri.

1. „Skal Sumar lengi happi hrósa, sér „hroka frekt og drembið glósa, útlægur Norð=„ri úr eg sé?" Svo Vetur mælti þykkju=þúng=

ur, þegat af hitum Jøklar sprúngu, skrælduſt nýlega fold og fé.

2. Hánn gramur Nordra fór ad finna, „minn „Fadir! blídur Sumars vinna, Son stoda „þinn!" hann sárann bad. „Vøld þess álík ef „vara lengi, Veturinn hót ei aktar mengi, „gis okkar nøfnum gjørir ad."

3. Upp Nordri reis med bistu bragdi, „ber þig vel, Sonur!" grettinn sagdi, „þig skal ei Sum„ar gabba grand!" — Síns hjólgadds Jøklum hálfum velti, haf sitt ofaní — køldu belti, umspenntu þeir hálft Island.

4. Þeir brádt af Sumars skykkju skéldu, skósída rønd, en blóm gjør-felldu, svo lángt, sem Nordra nádu vøld; þad fólu dýngjum feykna snjóa, sem frørna læstu sképnum móa, bønnudu flestar bjargir øld.

5. Þeir bundu Jøkul hørdum hlekkjum, hardt nær fimmtíu' af veida-snekkjum, Kaupførum vørdu veg ad grund. Þá knerir skéllum þeirra sprúngu, þjakadir Farmenn lofgjørd súngu, lífgjøf á víxl og lausnar-stund[1].

6. Þeim vannst bú-smala fjøld ad fella, þá frerin leyndi bygdum hella, sligadi nokkur bændaból; kvikſetti fólk í kofum inni, med kvøl hvar andrúm glugga finni, þó skíma nædi seint af sól.

---

[1]) Bædi þeir, sem lífs komuſt af til lands og hinir, sem leystust frá lífsins mædum.

7. Þá Vetur leit að þetta grandið, aðþrengði Norður-Ástur-landi, en Sumar hinu blíðu bjó; sókt' hann úr Eóls sydra veldi[1], sjálfann Vúlkan að kinda eldi, og Eólum að eyða ró.

8. Ey-fjalla-Jøklum í hinn kveikti, eldglær-íngnm og sindri feykti; Eólus fast úr belgjum blés. Rót gjørdi hafs, ís-rendi jarðir, Rán svalg, en kjæfðu byljir harðir, fólk og fénað við ná-gjørn nes.

9. Um hældist Vetur: „á! mun strokin, í „hretum mínum burt øll fokin, blómgan „Sumars og blessan hér!“. — Ansaði Vorið: „eg skal taka, óðara fyrir gort þitt staka, því „Mundilfari[2] með oss fer.“

10. Hann fylgdi því, sá fagur-eygði, sér felur í hraðt Vetur smeygði, því fékk ei staðist fegurð hans; klakaðri skykkju fold af fleygði, fénaður vonar hálsinn teygði, bjørg að gésinni lífgaðs lands.

11. Græn lønd í Haustsins búin blóma, birtust upprisin dýrð þess róma, þeim hollt sem valdi Vetrar skjól. Ný-þegnu frelsi land skal lýsa, og lífs innbúar stjórn hans prísa, sem bauð þeim skína blíða sól.

12. Hann lauk upp haffins byrgða brunni, gaf

---

[1]) Frá Eólisku eður Lípara-Eyunum við Valland, hvar mjøg-svo stormasamt er, og nokkrar þeirra gjósa eldi. Því søgðu þeir Gømlu *Vulcanum* eður Eldanna — og *Æolum* eður Vindanna — Guði hafa þar aðsetur. (Sjá Klaustur póst 1821, bls. 34). [2]) Svo nefnist hér Sólin, eptir Føður hennar í Eddu.

blessun ríka lands ad grunni, dýrmætann sendi arð og auð. Hann ótal Skarar haudri ofar, Hann djúps og Jardar búar tófa, fyrir líf, frelsi, bjørg og brauð.

---

## Sumar-koma 1823.

(Sjá Klaustur Póst 1823. bls. 75—6.)

---

Lag: Var du vort Selskabs Skyts Gudinde.

1.

Velkominn sért oss vænn og fagur,
Velkominn Ísa-bygdir í,
Sæll, nýr upprunninn Sumar-dagur!
Svørt vetrar burt ad leida ský.
:,: Hvørr þinni komu fagna fer,
Fjørs væntir, yndis, lids af þér! :,:

2.

Kom, rósa-fíngrum fjøll ad gylla
Og frjófgun sá um jardar skaut.
Blóm-skrauti nýu Flóru fylla.
Fjall-lendi, dali, háls og laut.
:,: Vek fjør úr doda, ylm' med il
Svo endurlífgist gledi til :,:

3.

Kom, til hlýinda kjælu' ad snúa,
Kol-døkkri árs í ljósa-tíd,
Lífs skørum yndi undirbúa,

En starfa prek og gjæfu lýd.
:,: Svo blessi nægta blómlegt horn,
Hvørn bygda landsins kimann vorn. :,:

4.

Kom, fredins svardar klaka bræda
Og kveikja flug um vatna belg.
Lát Jøkla fram um ýdur æda
I unnar grøf og hylja svelg,
:,: Fjøld laxa svæfast fossa nid,
Svo fángist silfrud gildrur vid. :,:

5.

Kom, fold í grænann klæda skrúda
Og kot gull-ofin breytt med glitz
Sól-geislum mála' um grátinn úda
Regns glæstu boga fagrann lit.
:,: Menn, fénad, orma, fugla, dýr,
Lát finna sæld í landi býr. :,:

6.

Kom, heims frá skauti híngad leida
Ur hafs afgrunni daglegt braud.
Um flædar strønd og bygdir breida
Bjargræda forda, lán og aud.
:,: Hvørr vøgu-þúngur verdi knør,
Vel þó reid-fara' í gjæfu før. :,:

7.

Kom, vetrar þøgn í vorsins kvaka
Vel hljóm ad hefja fugla klid.
Oll kletta hvolf lát endurtaka

Om gauls og jarma bergmál vid.
:,: En fjadra-skara', um land og lá,
Løg fagur-rómum kénndu slá. :,:

8.

Velkomid Sumar! eldum eyda
I Austur-Jøkla voda stó;
Og balsam værdar best ad leida
I brjóst, hvørs týndu sorgir ró!
:,: Velkomid, vorn ad hressa hug,
Heill þín oss auki fjør og dug! :,:

## Ára-skiptin 1824.

(Sjá Klaustur Póst 1824 bls. 1 — 2.)

Lag: Skils fra dig ved Bjerge, Bølge, Dale.

1.

Allt umveltist, ár og dagar hverfa,
Elding líkt, í Tídar Módur-skaut.
Hvad mun stadfast hnatta milli kérfa?
:,: Hvad á jørd, um vøtnin, hædir, laut? :,:

2.

Hnettir myndast, hjadna, døkkna Sólir,
Høf og Jøklar eyda, stipta bygd,
Lengi sól upp ljómar Nordurs bólin,
:,: Lengi nótt þar eykur búum hrygd. :,:

3.

Sól um rása sýnist hvelfdann boga,
Sín ad lækka, sídan hækka stig.
Eptir þessum allt á jørdu toga,
:,: Elta býdur dái' og fjøri sig. :,:

4.

Sjá! hún lækkar, sig ad mestu felur,
Sérhvad dodnar, følnar, deyr eda flýr.
Ad hún stígur aptur, von þá elur,
:,: Allt úr dái veki, lífgi hýr. :,:

5.

Allt hér líkist einum Sólar = degi,
Aldur jardar, gródi, líf og tíd:
Upphaf Morgun, æsku, Vor, eg segi,
:,: En Hádegid, manndóm, Sumar, blíd. :,:

6.

Elli Kvøld, en endir Nótt og Vetur,
Ara = skipti Sólhvarfs dymma skeid,
Værda stund allt undir búi betur,
:,: Blídann morgunroda, líf frá deyd. :,:

7.

Eldast sólir, alda slitna radir,
Allt til betri skipta hradar før.
Þú, einn samur, gódi Gud, Alfadir!
:,: Géfur heillir, skamtar Ar og fjør. :,:

---

# Ný-árið 1825.

(Sjá Klaustur Póst 1825 bls. 1 — 2.)

---

1.

Enn, ó Fadir! eitt til margra hinna
Ar hagsælda lagt, oss gafstú finna
Um vorn Hólma gnóttin gæda slaut.
Lof þér hrærdir lífs herskarar inna,
Lán fyrir allt og gætslu sképna þinna,
Undirtaka hædir, lá og laut.

2.

Þeim þú beiskann bikar af ad súpa
Býdur, þínu tignar veldi krjúpa
Ver og una þinn vid skenktann skamt;
Huggunar lát dropa nokkra drjúpa,
Drykk í þann, svo hjartad styrkist gljúpa,
Sætt ad verdi hvad þeim reynist rammt.

3.

Lífs hvar stundum eigum fleirum eyda,
Adstod þína vyrdst oss senda greida
Gott ad stunda, gagnast brædrum vel;
Þjódar heill og þinn út prísinn breida.
Þín oss máttug Födur-hönd mun leida
Ohult gégnum hættu, líf og hel.

4.

Best þú manna breiskleik vægd munt sýna;
Bernsku vora lát ei þinni týna

Nád, en vitkast, svo hún þóknist þér!
Blessa Kónginn, bygdir, fólk! lát þína
Blída mildi land vort yfir skína
Sérhvørt ár á medan líf þú lér!

(Kvædi þetta er hér prentad eptir Klausturpóstinum, þó var þad eigi upphaflega kvedid svo, heldur þannig:)

1.

Enn, ó Fadir! eitt til daga minna
Arid sorga lagt mér baudstu finna,
Fyrr enn módur falla má í skaut;
Nær skal hérvist hladin raunum linna?
Himins géfast frid og umbun vinna?
Nær øll mæda grafar løgd í laut?

2.

Þú mér bikar beiskann af ad súpa
Baudst, eg þínu tignar-veldi krjúpa
Vil og una þinn vid skenktann skamt;
Huggunar lát dropa nokkra drjúpa
Drykk í þann, svo hjartad styrkist gljúpa,
Sætt ad verdi hvad nú reynist rammt!

3.

Lífs hvar stundum á eg fleirum eyda
Adstød þína lát mig finna greida,
Gott ad stunda, gagnast brædrum vel,
Þarmed gæfu þér til lofs útbreida,

Þín mig vyrdist fødur-hønd ad leida,
 Mæddann styrkja heim þá kallar hel.

4.

Best þú manna breiskleik vægd kannt sýna;
Bernsku vora lát ei þinni týna
 Nád, en vitkast svo ad þóknist þér.
Blessa landid, børn, ætt, vini mína,
Blídt þitt auglit lát oss yfirskína
 Sérhvørt ár, á medan líf þú ljer.

---

# Lofsaungur

vid lok

fyrsta Fjórdúngs 19du Krists-aldar,

þann 1ta Janúar 1826.

(Sjá Klaustur Póst sama ár bls. 1—3.)

---

Lag: Norrig vor, Moder behaget af Elde.

1.

Lof sýngid Drottni, þér lífsins herskarar!
 Lofi þann Jardbúar fagnandi raust,
Tilfellum ára og aldanna fara
 Øllum, sem stýrir! — hans miskun er traust.
Vorum med hnetti þó velti fram aldir,
 Vodalegt, ólgandi tímans um haf,
Nordbúar leidsøgu Forsjónar faldir,
 Farsælir komast þeim hættunum af.

2.

Ofþjøkud lengi þó andvarpi løndin,
Alda-laung þeirra þó seint heyrist kvein,
Líknar þeim réttist í hæfa tíd høndin,
Hún grædir þjódanna lángvinnu mein.
Herji þau sóttir, stríds bál eda blossi,
Í blódi þó drekkist, en bygd gjørist aud,
Bætir þad fridarins brádlega hnossid
Bøndum úr leystum af þúngbærri naud.

3.

Birtist jørd aptur í blómfegra standi,
Blessud af Forsjón, sem gjædskurík, vís,
Ljós gaf í mirkrid, en leysti frá grandi,
Leidum úr fallinna býr Paradís.
Heims nýum álfum og ókunnum løndum
Í þoku skýldum bjørt rennur upp sól,
Frjáls þegar upplypta fagnandi høndum,
Frelsinu grundvalla ríkjandi stól.

4.

Gud! þínu lýtur allt veglega veldi,
Vid þína bendíngu slokknar hvør sól,
Nýar eins tendrast af almættis eldi,
Um hvørjar veraldir snúast, sem hjól.
Fjøllin þú skékur og fellir ad velli,
Framlyptir nýum med eldum úr sjó;
Í ryk þau falla loks rambandi' af elli.
Regindjúp hylja má bygdanna stó.

5.

Skélfur jørd sárssjúk, úr eldheitum idrum

Uppkøst af brádnudum hraunsteyppum fær,
Sem grafa bygdir; af geysi stórvidrum
Snýr þegar lifendum skélfingar fær,
Þú ert vor Fadir og þanninn burtleidir
Þýngri mannraunir frá Jardbúa lód,
Farsæld enn meiri svo foldu tilreidir,
Fullkomnun ædri. — Þín stjórn er oss góð!

6.

Dramblátum hrindir þú drottnum úr stólum,
Í dupt þeirra kórónum feykir og prakt.
Ný skapar veldin í nýum heimsbólum,
Nýtt lénar þjøkudum frelsid og makt.
Ljós þitt um dymmuna skjært tekur skína,
Skodast þú náttúru dásemdum í;
Fridur og heill prísa fødur-stjórn þína,
Fagnadar losgjørd því nemi vid ský:

7.

Lof sýngid Drottni, þér lífsins herskarar!
Lofi þann Jardbúar hvellandi raust,
Tilfellum ára og aldanna fara,
Øllum, sem stýrir, hans forsjón er traust!
Hann vorum nordlæga Hólma ei gleymir;
Hann næga forsorgun lénar og frid.
Hann vor frá sóttum og hardrétti geymir;
Hann gamla Snjálandi veita mun lid.

# Smá-kvædi og Vísur[1]

---

## Yfir Prentstofu dyrum (1795).

(Sjá Tídindin 1795 bls. 173—4.)

1.

Jómfrú er hér inni
Ein af Menta-Gydju
Dætrum dæileg.
Sú er ópt ad sinni
Sí-glediandi ydju
Ljóss ad leida' á veg.
Hennar geisla hafa mirkrin flúid,
Hún á rétta leid fær villtum snúid,
Hún hefir mørgum heillir andar búid,
Hennar rádum, virdta Brædur! trúid.

2.

Mann-vits meistara-stykki,
Af mønnum fúsa skilid
Æru' og gódvild á.
Er því ei í-skikki,
Inn ad strax í bili
Vadir, Víf ad sjá;
Vin framandi! Leyfis-gjald fyrst láttu
Lystugt klingja, maunlyndis ad háttnm!

---

[1]) Ennþótt aldurs-rød kvædanna sé fylgt í bók þessari, þótti samt henta ad knýta smá-kvædum og vísum aptanvid hin meiri kvædin í hvørjum flokki, en svo er aptur hinum minni radad eptir aldri.

Húsráðendum sóma sýna áttu,
Svo allt skoða, á engu taka máttu.

## Tileinkun framanvid Vinagledi 1797.

(Sjá Vinagledi sama ár bls. 3 — 4.)

Veri Vinagledi vænum Bændamønnum
Eignud Íslands,
Sem med glødu gédi géfa fródleik sønnum
Heidur, hylli, ans!
Hún Ljóss-vinum holla skémtun ljái,
Hygginda þeir tign og notin sjái,
Heilrædanna í Vinagledi gái,
Gjæfu, þakkir, sæmd ad launum fái!

## Aumingjans Tár.

(Athl. sjá Vinagledi bls. 245.)

Lagid: Gud, sem er yfir Gudum œdri.

Tár, sem þeigjandi fram hér fljóta,
Finn eg verdugri heidurs njóta,
Enn hins adkeyptu hefd og stand; :,:
Miskunarlaus þá lík hér liggur,
En líkn vid dóm ei finnur hriggur, :,:
Hvad stodar gull, ætt, hefd? ei grand!

# Kvædis-brot.

(Utl. úr Klaustur Póst 1818 bls. 30 — 31.)

---

Heppinn er sá, hvørs óst og ønn,
Odals-sneidar af merkjum bindst,
Á egin lód, ánægja sønn,
Uppheldis lopt ad draga finnst.
Málnyta hvørjum mjólk, en lønd
Midla forsorgun, skrúda hjørd;
Skógur á sumrum skýlir, hønd
Skér vetrar eldum brand úr jørd.
Sæll! hvørr í hægri reyndi ró,
Renna fram daga, stundir, ár,
Heilsugódur og hugrór bjó,
Harmur um dag ei vætti brár.
Holl værd um nætur, hvíld og størf
Og hressíng blønduð veittist þæg,
Vid flekklaust líf, hvørs þekk var þørf
Þar med ígrundan jøfn og næg.
Svo dulinn lifa, ósk mín er,
Ósyrgdur verøld' hverfa þygg,
Bautasteinn enginn birti hér,
Byrgdur í fold, hvar nær eg ligg.

* * * *

---

## Vísur yfir kyrkjugardshlidi í Longtown.

(Útl. sjá Klaustur Póst 1819 bls. 31.

1.

Vort líf er dagur veitsluferdar,
Vart ná í skáttinn sumir menn;
Adrir, sem middags vænta verdar,
Vom fylla gráð'gann margir senn;
Eptir kvøldverd' ef einhvørr beid,
Offaddur strax í bólid skreid.

2.

Þess verdur skuldin þýngst ad gjalda,
Þeim til midnættis drolla gafst,
Og reikníng tímans réttann halda,
Rædu og gagns, sem ad var hafst;
Í herbergi skémmst sá heimsíns finnst,
Hefir sem skuld ad gjalda minnst.

## S t a k a.

(Útl. Klaustur Póst 1819 bls. 86.)

Sá árla fer hátta, en árla upprís,
Audmadur verdur og hraustur og vís.

## G á t u r.

(Sjá Klaustur Póst 1820 bls. 46 — 7.)

1. Hrapadi' eg þó úr himni nidur, af haudri rifinn

sanst eg er. Lífs enginn hrumd mína hørunds vidur, hreinleika fá mun jafnad sér. Eg líkum Engla ljóma næ, med léttleik fjadra skundad fæ.

2. Púngur eg verd, ef þjappast saman, þoku-leitt set upp ysirbragd; þó sýnist heill og hreinn í framan, hef' eg — sem margt eitt límsku flagd — fáráda opt í flár innleidt, farendur svjka gildru veidt.

3. Mitt útlit þó í mørgu sannar, minn upp-runi frá himnum er; en veiti saurugt samlag grann-ar, sódalegt þess eg markid ber. Sóstur á víxl For-eldri kann, forma, sem þetta jód sitt vann.

---

1. Horsi' eg í bjart eda húmid, hálfblindann mig kalla; undan birtu best, sje í sérhvørt rúmid, svo eg heppnast alla, fljótast mála' og mest. Þess opt beidist mikill geüi manna, mér þad tídum vitrir, gódir banna; málverk trúast mitt þeim vyrdist sanna, mold þeir séu' og skuggi — lítid annad.

2. Ad mér hrundir hænast, held eg mín sé lukka, þad eg smjadra þeim. Tel hvørt vísid vænast, vid-bjódslegri skrukka, þó sé hvørgi' um heim. Afgud narra er eg og þótta-gikkja, af þeim hópar mig á góna flykkjast; bretta, teygja brýr og munn eda rykkja, búkinn sveigja, stundum reygja' og lykkja.

3. Fyrir mér fól ef stendur, fáum hyggnu ansi, gégna finnst hann fær, fettir høfud og hendur, heyrnar numinn sansi, sem hálf ordinn ær. Í augsýn manna kolla-kinks og hnikki, kurteys hót vid mál-

verk sitt og stykki, temur hann sér, þau sáum gjøra gikki, geymir stundum mig hans spari sikki.

4. Held eg drambi hafir, hvørjum þeim ad drótta, sem líkt sannar þér. Ytra — eins og grafir — álit kýs — af þótta, ófrínn innra er. Hégómleik þann vyrdar sjá og víta, vilji blakkir telja sig mjall-hvíta, og mis-sýnum málverk á svo líta, mjøg því tregir fundi mína slíta.

(Fyrri gátan: Snjór; hin sídari Speigill.)

## Segurd manna fánýt.

(Utl. sjá Hjálmar á Bjargi bls. 93.)

Hvad er blómi hørunds litar, manns
Hugar rósemd vid og eníng blída?
Hvad er geisli hvarma-ljóssins fríða
Hógværd mót, er sidugt býdur áns?
Vaxtar, álits, vidmóts yndi má
Ekkért jafnt vid orda' og sida finna;
Svart hin í fyrstu hjartad vinna,
En samt þessi ein því haldid fá.

## Framan vid 3ja Argáng Klaustur Pósts.

Hér med Póstgángan þridja þraut,
Þøkk hafi hvørr, sem før mér greiddi!
Ei nirfils-dyrum aptur skaut,
Innkoma mig og gista beiddi;

Í fjórda sinn' eg sá mun rølta
Med fródleg Søfn vid kjør álík,
Og hradur fleirstra til þá tølta,
Sem tigna letrin hyggju = rík.

---

## Almúgastéttin.

(Utl. frá Klaustur Póst 1821 bls. 155.)

Þó blómgist Drottnar, biltist vøldum fjær,
Skær þessa sköp og reist upp nýa fær.
En eydist landsins sæmd, Almúga = stétt,
Þann ei fá missir Aldir bætt né rétt.

---

## Staka.

(Utl. frá Klaustur Póst 1821 bls. 166.)

Á Arnar = vængjum hátt øll hrøsun fer;
Hvør manndád deyr, og dygd þá unnin er.

---

## Framtídin.

(Utl. frá Klaustur Póst 1825 bls. 2.)

Undarleg tøfran! enginn kýs,
Aptur renna lífs farid skeid;
Anægja hvørr, ad verdi vís,
Vonar á því, sem eptir beid.

---

Annar Flokkur.

# Vina-kvædi og Lukku-óskir.

---

## Velkoman 1797,

### til Geirs Biskups Vídalíns.

(Sjá Gaman og Alvoru I. H. bls. 10 — 12.)

---

Lagid er: Fryd dig ved Livet.

Saung-kór:

Blíd gjæfan beri
Biskupinn hvar sem fer!
Velkominn veri
Vídalín hér!

*** *** ***

1.

Lands missir Fadir mildur sá
Þá mætann Doctor syrgdi ná;
Hann baud: nú sútin sefist þín
Þér sendi' eg Vídalín!
Kór: Blíd gjæfan beri etc.

2.

Hvað! mun uppstíginn moldu úr
Jón Meistari, Lands Hyrðir trúr?
Nei, andleg hyrði' um efnin þín
Geir, annar Vídalín.
Rór: Blíð gjæfan beri etc.

3

Hann gladir þøkkum géfið hnoss,
Hann gleðja skal og fræða oss.
Sá ljós í dimmu leiða inn
Skal lærði Biskupinn.
Rór: Blíð gjæfan beri etc.

4.

Hann Klerka vernda og Kirkjur skal
Og Kristinndóm og Hospítal.
Hann kénnslu skóla, er komst á hlið,
Skal téppa' að rétta við.
Rór: Blíð gjæfan beri etc.

5.

Hann fróma styða fátækt skal,
Dygð frama, stunda Gáfna=val;
Í heiðri Løgin halda sett
Og hvørjum skipa Rétt.
Rór: Blíð gjæfan beri etc.

6.

Farsældin búi hans við hlið,
Og heillum krýni Valmennið,
Uns mettur daga, heiðri hár

Hann heim fer silfur=grár!
Kór: Blíd gjæfan beri etc.

# Kvædi

## Eptir útkomu Póstskips 1820.

(Sjá Klaustur póst 1820. bls. 30—31.)

Lag: Hver Glædens-Ven.

1.

Nid=myrkurs nótt, nýkominn hrekur dagur,
Lángnætti ljótt, ljómandi himin fagur!
Skruggótt og byljótt ef garra=jel gein,
Gremjan ef ángradi svarta,
Blídur en rødullinn brádlega skein,
Byggja tók glédin vort hjarta.

2.

Sem vid gott Vor, má vetrar harkan rýma,
Svo frekju spor, vid sælli hversa tíma;
Bjørg enda skorti; en bæta úr styg̃d
Bodskapur gladværdar meiri;
Póstskipid þenna nú baud vorri bygd,
Brædur! þann fagnandi heyrid!

3.

Ædst Íslands, er valdid Moltke fengid,
Eins hugvit Hans, og hjarta gledur meingid.

Réttsýni, góðsemd þeim Ljúflíngi lér
Lofstýr, sem veglegur dafni!
Vyrðtustu ættar svo heiðri þeim hér,
Hátt meðal Jøklanna Nafnið.

4

Fold Fósturs kjær! Foríngja gleðstu nýum;
Hann feykt burt fær, fláræðis myrkvu skýum.
Þørf þína Landsføður mildum Hann má
Málsnjallur leggja til fóta;
Unn þeim Landsverði! Hans óska þér fá,
Umsjónar lengi að njóta!

---

Til Faktors og Bókþrykkjara G. Schagfjords
á hans 65ta Burðardegi, þann 28da Október 1822,
og hans 50 ára Prent- Stipts- og Amts-Skrif-
stofu-ydna Júbíl-ári.
(Sjá Klaustur Póst 1822 bls. 175—6.)

---

1.

Apolló[1] blíður ofan leit
Um austur-himins skýa glugga;
Minn, kvað hann, Þjón eg valinn veit,
Verkfærið best að enda skugga.
Hálfa mér unnið hefir Old;

[1]) Apolló nefndu Grikkjar og Rómverjar Sólina, og hann hennar og Vísindanna Guð, sem frama ætti il og blóma, og með Vísindum einkum upplýsíngu á Jarðriki.

Hyggindum Norðurs skaut um feykti,
Hans handar verka føgur fjøld
Fróðleik og ljós um bygðir kveikti.

2.

Lifi Gáfaður lengi' og vel!
Lýsi' Honum sérhvørr kjær og fagur,
Sem Þessi lifs, hvørs lof eg gel,
Hans Letra-starfa Júbil-dagur!
Ørlaga Dýsir! óst vor duld
Ydur ei skal: Hans førlun draga
Byrdist! — Geymdu þér Schagfjord, Skuld!
Skérðu' ei Hans þráð til Aldar daga!

---

## Til Landfógéta Ulstrups
### 26ta Marts 1830.

Melod: Vær du vort Selskabs Skytsgudinde,
eller: Nyd Livets korte Morgenrøde.

---

1.

Tidt Livets Soel mørk Skye omhylled'
Og Glæden svandt bag Sorgens Nat.
Men snart igien hins Glands fortrylled',
Og Trøst tog bange Hierter fat.
:,: Vi sørged' nys med æret Ven;
Hans Fødselsdag vi feire igien. :,:

2.

Hans Datter spæd blev nu indviet

Til Kristen-Troe paa Himlens Gud.
Gid Hun, fra Svagheds Prøver friet,
Maa blomstre, hylde Dydens Bud!
Op, Venner! klinker! Ønsket staaer:
Held Dem! til sølvgraae Alders Aar!
Op, klinker, drikker! randfuldt Maal,
Vor Ulstrups og Hans Døttres Skaal.

(Menn vita til þess ad Conf. sál. M. St. kvad brúdkaups-vísur á látinu til Bps. sál. *Dr.* Hannesar, á giptíngardegi Biskupsins og Frú Þórunnar systur M. St.; eins orkti hann opt svo nefndar „Síffrur" og adrar vísur á látinu til Skólapilta í Skálholti, en nú finnst ekkért af þessu framar og þad fátt sem stöku madur kann, er bædi svo litid og óáreidanlegt, ad ekki tekur ad prenta þad.)

---

## Þridji Flokkur.

# Adeilu-kvædi.

---

## Ljósins Ovinir.

(Utl. sjá Vinagledi bls. 18—24.)

---

Lagid er: Hafur þurft' ekki' ad hugsa' um meir.

1. Eitt kvøld í fyrra — ef ei mér ofmjøg skeykar — í December, þann tuttugasta víst þad var, því varla sást af skímu þar eptir nónid, þá ordinn er,

ørstuttur gángur sólar hér, litla stund hún oss horfir á, hverfa ódara sídan má.

2. Nýa Lúcidór[1] sýsli þá fékk, á fund ølbrædra' í nordri gékk; verdslegann másske? — vott um þann, víst eg engann á blødum fann; sama þad gylda sýnast má, sagan hermir, þar kom hann á, gékk inn, settist og horfdi' í hríng, hulinn myrkrinu allt umkríng.

3. Ljóss-skar ekkert logadi þar, laungu fyrri háttadur var, himins geislandi høfdíngenn, hafdi þá ekki glad-kveikt enn systir hans — ad eg sýngi nett — sitt upplogandi blisid sett[2]. Í þessum mikla myrkra rann', marga þrasandi heyrir hann.

4. Med ákéfd, eins og alltídt er, um þad, sem enginn veit né sjer, svo sem løgun ølstofu á, ellegar lit, og fleira þá; sídast í hug rann seggjum tveim, sérleg ósinna væri' á þeim, í blindni' ad þrasa' um þetta hér, þar blindu líkast myrkrid er.

5. Kølludu ýmsir kaudar þá: komid med ljós! þad kom, en sjá! hvørsu kjært vera hvørjum má, er hvítt vill svørtu greina frá, myrkra þó reis upp margur vin, mjøg sem ósskadi' ad ljóssins skin, í Heklu' eda Kǫtlu hvirfi inn, heyrid nú um þá lyssaung minn!

6. Sá eg þar fyrst súreygdann mann, samt honum ei álasa kann; hann því aumka af hjarta á, því hvørnin ljós þeim gedjast má auméngja', er kveisu í

---

1) Mannsnafn. 2) Þad er: Sólin var fyrir laungu geingin undir en túnglid ei komid upp. Gømul skáld kølludu sólina Phoebus, en systir hans Phoebe var túnglid.

augu fær, ef blíd dags-skíma til hans nær? kall annar veiktann medur mátt, mótlættist eins og stundi hátt:

7. „Æ! sløkkvid, sløkkvid, eg ei þá óhræsis birtu „þola má." Undur þad nefnast ekki kann, æfi gjørvalla' í myrkri hann, fótstígi lífs fálmadi á, fullvel gánga og kunna' ad sjá, hvørttveggja læra verdum vér, vani hvørttveggja' ad mestu er.

8. Ormboginn skoti inní sat, upp því ad kalla nennt ei gat, Pétur Nikur, þar útleid allt, og eilíft mók var hans líf gjørvallt. Dæmid nú sjálfir þar um þid, þrot myrkurs hvørt hann gladdist vid, hvarí makrádur sífeldt sat, Svefn-Gudinn latur dýrkad gat.

9. Flagari skvaldra fór þá mest: fellur mér røkkrid allrabest. O! røkkur! gledin ertú mín, ó! missýníng! hvad vegleg sýn, prýdi þegar umvefur allt, en þó þú gabbir mig ávallt, mín samt íminðan er þér í, æ frá skynsemdar taumum frí.

10. Í sælann blandar øllu graut, úr skugga gjørir kropp, sem naut; eg hef' þig jørdu einatt sjed, anda fylla og vofur med. Nýlega skuggi um mig einn, andheimum frá sveymadi beinn, en ljósid kom, mig aumkid, æ! eg hann ei framar litid fæ.

11. Í skoti bak vid skýlu stód, skvaldrari einn og rak upp hljód, fjølkunnugur sá fyrrum var: „fordæmda „ljósid kémur þar! nú mín kunnátta úti er, enginn „ad henni dáist hér; um sjónir villa' og vasa sjest, „víst til í myrkrum allra best."

12. „Fari töfran ei framár nýt! fari seid-listin „dymm og hvít! fyrst Satans ljósid fram hér brautst!" skjótt hann svo út um dyrnar skautst; strax veg út-hradar sama sér, Seignør annar af þeim, sem vér, nefnum allstadar módsins menn, medur hans listum tel eg enn:

13. Vill-hættu þessa merkis-manns, í myrkri' um vasa náúngans; — fródleik stundandi enn þá einn, eyrna-slapandi vard ei seinn, út ad laumast, í háum hann hélt eg víst metum, njósnarann þó skrill hann nefndi, þad ei ber þykkja, opt skríllinn grófur er.

14. Vid ljós ad hlera fánýtt-sann, fyrir því birtan glepja kann; en þegar hørfa í hasti á, hætt er fótum og limum þá. — Krýplingur enn, í bak og brjóst bæklabur hnúd, grobbadi ljóst: ad medal snóta eldur sé, um yndishót sín logandi.

15. Í myrkrinu víst enginn þar, efa um kaudans raufid bar; en þegar ljósid á hans skein ófrýnilega kropp og bein; hann húd-skammraudur þá sat þar, því grobbíáns ad finna var, náttúrunnar um veldid vídt, vart eitt ígyldi jafn-ófrídt.

16. „Aula-bárdur sá er ei smár" ansadi einn og vard mjøg sár, „sem — og þad vorri øldu á, — „engin not ljóssins finna má; en þad geislum al-„múgans til, ekki má skjóta, því eg vil: med ljós ad „verdsla leyfi hér, léuist upp hédan einum mér."

17. „Dá-vel sagt!" annar ansar skjótt, „eg „stjórnar-sid býd góda nótt, hof-sid, dygd, ættum,

„Herra-tign, hjá múga' ef vegur gjörist skygn.
„Dæma það Yfirvaldsins er, undirsátar hvað leyfi
„sér, að heyra, eta, súpa, sjá, svofelldann dóm því
„legg eg á:

18. „Kóngs-gérsemi ljós kalla ber" — kjall-
aramanni' og dreingjum ver þókti, að géstir þess við
skin þekktu hvørt væru ølfaungin ómeingud, sem hann
seldi þar, samt á ljóss ama neitt ei bar, vantrúud
næsta vor er øld, vekst upp grunsemin þúsundføld:

19. Ment sú að gjøra' úr vatni vín, varla heitir
nú dásemd fín[1], heldur, því midur! margt sem er,
meingun og prettir, algádir allir sem dæmdu ofurkjótt,
ef að það ekki hendti' um nótt. „O! ógn! ó! hneysa!"
hrópa vann, Herra Trax Prestur, bistist hann:

20. „Mun elding, himin mildi! nú mega þín dvel-
„ja! sjer ei þú, duptsins sonur að dirfir sig, dárlega
„að smána' og gabba þig; í midnættinu myrkvu því,
„meina' eg að sjá, hann vogi frí? sólin forgéfins sína
„leid, segi' eg skundi um loptin breid.

21. „Birtu hún sendir oss og yl, en því madurinn
„bætir til: hita med ofnum hann tilbýr, heimskuleg
„frekja til hann knýr, eptir dags ljósi' að apa djarft,
„í tólg hann kveikir skin óþarft; í dýpstu jardar idur
„inn, einatt vill hnýsast forvitnin.

22. „Honum sjór, vindur hlýda má[2], hann dirfdist
„loks að finna' uppá, hindrunar-medøl heimskulig,

---

1) Því vínseljarar blanda opt vatni í vínið, og selja svo allt, sem vín. 2) Er hann í siglingnm verst hvørstveggja eydileggingu, og siglir jafnvel áfram mót vindi og sjóar-øldum.

„hvörgi ad lopt-eldar dræpu sig." — Öll í hlátur öl-stofan brast, en Trax upp mýtrid þreif med hast', og yfir allt, sem inni var, andríku banni lýsti þar.

23. Rétt í þessu menn heyrdu hátt, hríngíng, køll, blástra[1], trumbuslátt: ad í sudrinu eldur sé uppi, hvar, og hans tilefni sé ljós. — „Æ! lát vid þetta þér, þú „blind-forherdta nordur hér! segjast um ljós og líttu „þá ljósfs vodann sudurs háska á!"

24. Svo kvad Prestur og sagdi enn: „sömu og „verda forløgin þín, ó! nordur! og þjáníng megn, þú „ef ad vitrum rádum gégn, ekki hlýdnast øldrudum „Trax, né úrrædin þau velur strax: allt hvad ljósfs „borid birtu fær, bráðlega' ad sløkkva nær og fjær."

25. — Svo er sérvitríngs mælgi megn! — marga flaug leyndur ótti gégn Ljósfs-vini, en reyndur upp þá reis-ærumadur, med valinn keis, rabb-bordid vid, menn hlusta hér: hann Lúcídór þad sjálfur er; „menn og „brædur!" svo mælir hann, „máta himininn bjóda vann.

26. „Jardnesku gjædin øll vid eins og brúkun þeirra „án skada' og meins; ef vitska' og hóf ei vel medfer, „verdur sjálf dygd ad broti mér; gledin eitur, en gagn-„legt þrátt, gétur ordid til skada brátt; svefn styrkir, „eins fær ollad manns, andar-daufleik og líkamans.

27. „Fædan nærir en margopt má, magann stífla „og verkjum þjá; øl hressir — líka' af øli' ég finn „orsakast kunni steinsóttin, hlátur lífgar — úr hófi ef „var, hlátur má gjøra rykkíngar; enn framar, þad sem „øllu er ædra á jørd, er nefnum vér,

[1]) Þá eldur kémur upp utanlands er, ásamt hinu, blásid i hljódpípur.

28. „Gudhrædslan, sem grundvalla má gjæfuna hér „og himnum á, úr hófi ydkud hefir þrátt, í heilanum „gjørt á mørgum dátt. Hvørt ætti vegna þessa þá, „þreyngja mønnum náttúru frá? skal eg ei hlæa, sofa' „um sinn, súpa, nærast, Gud lofa minn?

29. „Hvørr þad bannadi efa' eg ei, afskúm væri eda „þussa-grey; en hvad voda áhrærir þann, á stundum, „sem ad henda kann, af mjøg dárlegri medferd ljóss, „má þad góð stjórnan ega hróss: ad allvídast hún hef„ir hrís, hirtíngar-medøl gøpum vís.

30. „Hjálpar í stødum múgur manns, med vatni' og „sprøitum[1] utanlands; optast fær þeirra orka' og dád, „eldvodans stødvad grimdar-rád." — Nú þagdi hann, en hvørr einn brátt, hrópadi: bravó[2]! snjallt og hátt; allir kløppudu' í lófa lof, líkst mér þad ekki væri' um of.

31. Undan — med vínum — tøkum Trax, trúi' eg þeir héldu hóp einn strax, bølvandi drykkju-brædrum hljódt, budu svo andríkt: góda nótt! en — sudurs bruna sídar má, segja skírlegar nokkud frá, og føgru sloti upp sem var, úr øsku ens fyrra risid þar!

---

[1]) Sprøitur nefnast dýrmæt verkfæri í útløndum til ad sløkkva eld, med vatni er leidist í gégnum lángar ledur-slaungur ad honum. [2]) Bravó! er fagnadar og hrósunar upphróp, og segir svo mikid sem: hafdú sæll gjørt og sóma fyrir!

# Staka.

(Sjá Formálann fyrir Vinagledi bls. 7.)

Dárlega hata dirfsku þá,
Dramblátra sérvitringa má,
Sem ekkért leyfir oss ad hugsa,
Annad enn jórtra þessir Uxar.

# Um Dagdóma.

(Utl. sjá Vinagledi bls. 301—2.)

Æ! haldtú ei þá alla dagsins dóma,
Er múgur manns vegsamar, refsar med,
Rádsvinnu af og reyndum þánka koma,
Né rødd einskjæra vid réttlætis þig þar gled!
Einn sína líka mentad gikkur gétur,
Gauli þeir svo hans kvædin betur;
Sú ledja yfir allt útbreifist margføldud,
Hún fólks þá heitir raust, í henn' ad tali Gud.
Æ! margur dygd og brestir um oss medur
Oftreystist réttann gánga dóm,
Er þó, sem hvelfing sinnulaus og tóm,
Sem ekkért þenkir heldur undirkvedur.

# Forløg Sannleikans.

(útl. sjá Eptirmæli 18dn aldar í 16mo bls. 536—7.)

Sannleikans þau eg forløg finn
    Forn, ad nýkénndann lýdur lastar,
Lengi í sorpi kjæfdum kastar,
    Hyggindum fyrrtur heimskínginn,
Drambsemi trúfast lid sitt ljær,
    Lokkins sannleiki vidrétt gétur,
Løgbrøndum svipad ljóma nær
    Því lengur sveiflast, æ þess betur.

# Nótur,

til Tída-vísna árid 1806.

1.

Lista-Skáldin lærdum heim'
    Lidug kvædin bjóda,
Þó aldrei teljist þú med þeim
    Þolirdu' enn ad hljóda.

2.

Rímna góli rifinn hvert
    Rámur gaular óda;
Þeir eru hæfir, þad er bert,
    Þrykkjast milli glóda.

3.

Plumpur sneidir dólgur djarft
Dýrkada mentun þjóda,
Kjaptshøgg greida kann óþarft
Kryddudum smekki ljóda.

4

Hirting gauri velja' er verdt
Sem vill í loflegt hnjóda,
Og hefir laungum heidri skért
Holl umskipti móda.

5.

Hvørt mun verdugt heiti þeim
Hæfa betur enn Sóda,
Er spottar, nídir, hvar um heim
Heyrir sidsemd góda?

6.

Þeim, sem gédjast girnir mest,
Søpum villi-stóda,
En saurnum atad fá sem flest,
Frægdar kéfja gróda?

7.

Heyrid bolann bølva því
(Brag vid Tída móda)
Løgum, færst sem ylfrast í
Innstu sætum hlóda!

8.

Veltist hans á vora øld
Vesæl kvæda-skjóda,

Bart svo, hin þó væri gølð,
Verði' hún øldin fróða.

9.

Hans við sofnar heimsku-bull
Halur og seyma-tróða,
Skynsemd dofnar, skénkt er full
Skálin arnar-flóða.

10.

Lengi bulla látum rekk,
Leirugann vellíng sjóða;
Opt hann vánga farfað fékk
Fræðadísum rjóða!

---

# Staka.

(Sjá Klaustur Póst 1819 bls. 31.)

Þá øfund þusar afnar greiða spott,
Um verk það lærdóms vitrir segja gott.

---

Fjórdi Flokkur.

# Kvædi í gamni og alvöru.

## Islands Gladværd.
(Ølvisa.)

Lagid: Hver Mand i Byen om Indtoget taler.

1.

Vúdrandi Kóngar þá lerkadir dratta,
Læra hjá Frønskunum manneskju-rétt,
Heima í borgum sjá hentara ad snatta,
Enn hlutast um annara stjórnar løg sett[1];
:,: Ad eins vér stríðum,
Í fridi blídum,
Um koss hjá drósunum þýdum. :,:

2.

Enskir þá reina af åløgum þúngum,
Orga sig ráma: ad Pitt léni frid!
Forsvar af elskandi Føðurland túngum,

Þeim einfølduslu og ófródustu um nýustu merkis-tilburdi, vísast til útskýringar þessa annars full-ljósa kvædis undir samsvarandi tølustøfum, þannig:

[1]) Þetta votta Tidindin ljóslega.

Fánýtt ef reynist leigd atkvædi vid[1],
Fridheillir sýngjum,
Fløskunum hríngjum,
Fyllum uns lækkar á pýngjum.

3.

Holland þá verdur af vina-flárædi
Velmegun sína ad leggja í skaut
Ødrum, svo frelsi og fridi þad nædi
Finnur vid Gulldala missirinn[2] þraut.
Ur Íslands høfnum,
Aud, gulli søfnum
Í spá-nýum Specíum køfnum.

4.

Lúbarinn Spanskur þá hrakinn og hrelldur
Hátt kyrjar saunginn Te Deum! eg slapp,[3]!
Góts og lønd missir, en gler-augum[4] heldur,
Og gøtóttri Þrenníngu[5] var þad ei happ?
Heilir vér støndum
Heilum á løndum,
Heilli lof Þrenníngu vøndum.

5.

Tónandi Páfi þá Franskana fæla
Framar ei nennir med klukknanna hljóm',

---

1) Sjá Tídindanna I. Bindi bls. 120 — 123, 124 — 126, 209 — 211. 2) Sjá Tídind. I. B. bls. 105, 133 — 134 og 215. 3) Sjá samast. bls. 109 — 110, 147. 4) Flestir Spansk-ir brúka alltaf Gler-augu frá únga aldri. 5) Sjá Tídind. I. B. bls. 212 og 232 um stóra her-skipid Spanskra, er hét: helgasta Þrenníngin, gégnum skotid.

Kirkna med gulli ró kaupir yndæla
Kúgar út skatta, því pýngjan er tóm[1];
Um fullar pýngjur
Af gulli sýngjum,
Einatt med staupunum hríngjum.

6.

Þýskra ef Keisarinn þúsunda blódi
Þrálega litar og missir sín lønd,
Enskar Gineur í offur svo bjódi
Upp vid hann Franskir þá reida sinn vønd[2].
Um Isa-ranna
Ódt lifnar manna
Ótal, er Vísin um spanna.

7.

Um Póla-veldi þá illfúsir keppa,
Ágengir nábúar ræna þess lønd,
Og Stanislaus má ángradur sleppa
Aptur kórónu vid rádríka hønd[3],
Um kolla krýna
Konurnar fínar
Mæta-vel menning sína[4].

---

1) Sjá samast. bls. 79 — 80, 182, 187 — 190 og 233. 2) Sjá samast. bls. 107, 124, 135, 137, 220, 236 — 238. Þaraf finnst bls. 124, ad England keypti af Keisaranum fyrir Gull-Gineur, er hvør gyldir 5 rd 24 ß ad halda fram stridinu. 3) Sjá samast. bls. 139 — 140. 4) Ad ekki erfda-synbarleg ó-strída rángfæri jafnvel þenna skýlausa og litt-tviræda lofsaung, frída kyninu til ama, minni eg á, ad Salómon nefnir Konur, kórónur bænda. Ordskv. 12. Kap. 4. v.

8.

Preussar þá mettir af mædu styrjaldar
Máttvana státa med bol-fastann haus,
Uppsnída Pólen en Öndunum valda
Otta, svo skynsemin géfist ei laus[1],
Island þá prentar,
Ad ekki hentar
Aldrei ad vakna til menta.

9.

Pestin og ófridur Tyrkjann þá tæra[2]
Trúlega blindum hann forløgum sig
Felur, og spekina fordast ad læra[3]
Fásinna ekki sú villa skal mig.
Forløgin Landa
Finn eg ad vanda
I fløskum' og púlverum[4] standa.

10.

Rússar þá púkka med ríkdóm og veldi,
Ræna frá nábúum eignir og fé,
Kónga-ást tendra til kvenna med eldi,
Kaupa sér mægdir og alþýdu spé[5].
Fróm fátækt vída

---

[1]) Sjá Tídind. I. B. blf. 107, 137 — 138. [2]) Sjá samast. blf. 142 — 144 og 227. [3]) Tyrkjar trúa ofmikid á blind forløg, stunda litid upplýsingu, ellegar ad verja sig háska og sjúkdómum í strids- og pestar-tídum. [4]) Mér virdist, sem forløg landsbúa, og landsmanna hér, edur heilsa. líf, lukka, fari opt eptir brúkun Fløskunnar og Púlveranna. [5]) Sjá Tídindanna I. B. blf. 141 — 142.

Finnur hér blída
Farsæld vid Snótir ad strída.

11.

Svenskir ef Tyrkjanum selja vináttu,
Senda til heljar sinn vitra Gustaf;
Kápunni venda ad vindarins áttum,
Veikjast í trygdum vid Katrínar skraf[1]
Islands Innbúa
Engum má núa
Eid frá og trygdum ad snúa.

12.

Réttsýni, vitska, nú frjófga og fridur,
Farsæla Danmark! þitt veldi og lønd[2],
Er sá vor óvinur ekki sem bidur:
Isalands hrøkkvi øll haturleg bønd.
Farsæld og heidur
Frelsi med greidu,
Flýti ad høfnum og heidum!

13.

Módurland kjæra, þig Noreg! skal nefna,
Neitun þíns Háskóla syrgjum med þér[3]
En, þegar kémur til annara efna,
Óskum ad frelsi þitt krýni nú hér
Isaland bundid

---

1) Sjá Tídindanna I. B. blf. 57 um mord Gústafs 3ja ára id 1792, og auk þessa blf. 151, 224 og 238 — 239. 2) Sjá samast. blf. 151 — 152, 156, 240 — 241. 3) Sjá samast. blf. 155 — 156.

Þúngt okid undir[1]
Ó! ad því brádt sé afhrundid!

14.

Ísland! á medan þín ánaud ei dvínar,
Og þinnar høndlunar losna ei bønd,
Bíd gledi-tída! fyrst barstu óst þína
Borginn' ad vonar[2] nú hressist þín ønd!
Þinn hefjist hagur,
Hlýr þér og fagur
Upprenni ánægju-dagur!

15.

Vér skulum kvída í víntári drekkja,
Vér skulum gladværir kveda vid dans,
Full skulum staupin nú bera til bekkja
Binda svo landsvinum ærunnar krans,
Samtaki þekkum
Svannarnir[3] Rekkum:
Sýngjum hátt, klýngjum og drekkum!

16.

Lifi hvørr Hølda, sem landinu unni!
Lifi hvør dygdarík kona og mey!
Hljómi þær óskir frá huga og munni:
Høndlanin blómgi en sálgi oss ei!

---

[1]) Þó þetta sé augljósara og tilfinnanlegra enn dæmi þurfi til ad leida, bendi eg samt til blf. 224 í Tíd. I. B. [2]) Lítur til Íslands almennilegu Supplícatsíu um betra høndlunar-frelsi. [3]) Í þessari kvenn-kénningu úr Eddu, bendist til: ad konur skuli verda kørlum samtaka, í óskum eptirfylgjanda erindis:

Megn myrkur eydist,
Mentir útbreidist,
Farsæld og frelsid handleidist.

---

# Rausnar-konan.

(Utl. frá Vinagledi bls. 249 — 50.)

---

Lagid er: Snú þú nú aptur enn til hvíldar etc.

1. Hvad ypparlegt er øreiganum adstod tjá
Hvad voludum ad veita' ásjá.
2. Hvad veglegt heldur vid sig spara vellystir
En fyrirlítist fátækir.
3. Í dag Sínettu er tilfallin erfdin gód,
Gull-tunnur hennar gjørdu lód.
4. Af ríkdóm þessum rædi' hún gét eg ríflega,
Fætur sett undir fátæka.
5. Kall einn, til lukku, kom þar strax af krøm boginn,
Stumrandi fram á stafinn sinn.
6. Fljódid bad eitthvad fjáda þessi fátæki,
Géfa sér eptir gédþekkni.
7. Mund' hún nú géta mestu bundist miskunar,
Og kénnt þess ei, sem kallinn bar?
8. O nei! hún tárast eins og barn og aumkar hann,
Frá honum inn med flýti rann.
9. Sækir og géfur sídan kalli' af søgdum aud,
Mola útvalinn myglad braud.

---

# Sá Ánægdi.

(Sjá Vinagledi bls. 294 — 6.)

Lagid er, sem vid lystugann engelskann dans.

1.

Ánægjan í øllu fær lund mína lagad,
Í lukku' og baráttu hún veit sér ad haga,
Eins regn-skúrar frjófga og sólskin eg sá,
Svo daglega kved eg og hýrna vid brá.
Nær heimskir til einkis huglausir æ sýta,
Og himininn styggja, ólaninu flýta,
Skírt hugsar þá vitur og hefur upp tal:
Eg held lífid reynslu, ei kjæra mig skal.

2.

Eg mína síst hata medbrædur, en unni
Þeim mann-vin', er dygdina heidra vel kunni,
En Drussann æ aumka, þó seli mig sá,
Svo skulud, þid vondu! og sættunum ná.
Í Stórra eg ekki for-stofur vil smjúga,
Né stunda med sleikjandi smjødrurum ljúga.
Frítt hugsa stór æra, allt ósatt er grey,
Því inni' eg hid sanna og kjæri mig ei.

3.

Þó adra gull-búnkanna glansinn farsæli,
Eg girnist hann ekki, því óttast mig tæli.
Oprýddann smá-kofa eg adsetur finn,
Trúr, ástríkur hundur er þénari minn.
Forvitnum þar dulinn eg lastara lifi,

En lysti opt forganna þoku mig yfir,
Gladt kvæði vid dyrnar eg kyrja upp þar,
Kát-broslegur verd og ei kjæri mig par.

4.

Siglíngar og kaupfør ad sunnan og vestan[1],
Sælkéranna fylla lát grædgina mesta;
I veitslanna gledi eg ei þurfa skal,
Auds dýngjur, vax-kérti, né marmara sal.
En føburlands gjædi: smjør, fiskur, skyr, rjómi,
Og full-hánginn Adam mér borinn ad gómi,
Mig víst betur gledja, en vanti eitthvad,
Svo vanti þad lengi! eg kjæri' ei um þad.

5.

Fyrst upp í há-vegu mig sje eg ei settann,
Síst mun þá øfundin offækja um þetta.
Af titlum og heidri eg dramba ei dátt,
En dánumanns æran ei hverfur mér brátt.
Eg þarf ei dúkáta þúsundir ad telja,
Né þessum laun-pukursins felur útvelja,
Og heiti mér enginn ad hækka mitt stand,
Eg hef' ei ad þakka né kjæri mig grand.

6.

Ad jardar svo margføld ei mædan adherdi,
Manneskjur uppgéfist, mann-hatarar verdi,
Því, kjærlegu Snótir! því gaf ykkur Gud,
Ad gjætud þid forgunum breytt í føgnud.

---

1) Þau sem flytja ýmisleg dýrindi sunnan úr heimi og vestan frá Ameríka.

Vid ykkur eg gjarnan vil lystugur leika,
Strax lídur burt hrigdin, ef til ykkar kreika.
Ef fælist mitt grettu-trýn fúl-leitt og bist,
Eg flý þá eins ykkar og kjæri mig sist.

7.

Svo géng eg ánægdur ad grøfinn' ótregur,
Í geigvænu røkkri, um þyrn-gróna vegu,
Þó gledst eg þakklátur af gjøfinni lífs,
Ég gétinn var ekki til eymda né kífs.
Vid hnjótanda fót mega enn þá uppspretta
Astundum mjúk blómstur og þyrnanna slétta;
Guds forsjón mig leidir þó lífid sé þreytt
Og láns-prikid[1] brotni, því kjæri' ei um neitt.

---

# Síni Módurinn.

(Utl. frá Vinagledi bls. 302—4.)

---

Lagid er: Til jardar lukku skapt víntréd var, skenkt' í.

1.

Heims ást, minn vinur! ef hugsar ná, þig hneig.
Og minnstu vammina ekkert á, en hneig;
Þú ert fátækur og því ber hnegja
Þó leynt andvarpir, en ord ei segja,

---

[1]) Sá 'gaungu-stafur, er eg hefi ad láni og styddst vid á minni vegferd í lífinu.

Já, þeig, hneig' aptur, haldt' munni, hneigd' aptur
og þeig!

2.

Ef høfdings-madur þér mæta kann, djúpt hneig;
Þó aldrei gjøri þér úrlausn hann, djúpt hneig,
Þó hann sé varla med heilum blakka,
Horfd' á! þú gengur í rifdar frakka,
Og þeig, hneigd' aptur, haldt' munni, hneigd' aptur
og þeig!

3.

Ef sérvitringur þig fræda fer, fljótt hneig;
Margtuggna heimsku á bord ef ber, brádt hneig;
Þó sértú lærdur og mælsku madur,
Hann metur øll ord þín vitlaust fladur;
Því þeig, hneigd' aptur, haldt' munni, hneigd' aptur
og þeig!

4.

Ef fiblum vit segist einum lént, þig hneig;
Og ein þau speki fá alla kennt, þig hneig;
Ef nýja ment og upplýsing' alla,
Ovitid sendir á myrkra palla,
Svo þeig, hneigd' aptur, haldt' munni, hneigd' aptur
og þeig!

5.

Þá afnar dæma um visdóms verk, djúpt hneig;
Ef heimskann ragna þeim heyrir Klerk, djúpt hneig;
En óski' hann vitis á báli brenda,
Bók hvørja', er skynsemi fær ný-kenda,

Strax þeig, hneigð' aptur, haldt' munni, hneigð' aptur
og þeig!

6.

Ef gómar skrumara gella hátt, þig hneig;
Á svørum liggur þér ekki brádt, en hneig;
Ef hrunda túngur úr hófi æda,
Heyrdú hvørt von sé ei lengri fræda,
Og þeig, hneigð' aptur, haldt munni, hneigð' aptur
og þeig.

7.

Ef allt, sem nidur á, upp ad snýr, þig hneig;
Og heimskan snidug umhverfis býr, þig hneig;
Lands heill þig hrærir ei heldur enn adra,
Vert hiskinn, rússa, vid snótir badra,
En þeig, hneigð' aptur, haldt' munni, hneigð' aptur
og þeig!

8.

Ad trúarbrøgdum ef gjørt er gis, þig hneig;
Og reiknist Kóngurinn rírri' enn fis, þig hneig;
Ef dygd og heidri øfundin kjæna,
Og lýgimunnar þig stunda' ad ræna,
Æ þeig, hneigð' aptur, haldt' munni, hneigð' aptur
og þeig!

9.

Ef dyggur vinnur hálf-daudann þig, djúpt hneig.
Og launin hefir þó hræmuglig, djúpt hneig;
Ef sær þú Yfirmann fíbl, sem raupar
Og fýrugt svolgrar úr elfum staupa,

Svo þeig, hneigð' aptur, haldt' munni, hneigð' aptur
og þeig!

10.

Ein grøfin ansat, minn alda = vin! ei hneig;
Og dóms uppkvedur ályktanin, ei hneig;
En uns ná = følur og lík þú liggur
Og líf í Engla ná = vistum þiggur,
Æ þeig, hneigð' ætíð, haldt' munni, hneigð' ætíð
og þeig!

---

## Tímon og Voltaire[1].

(Sjá Klaustur Póst 1822 bls. 37—41.)

---

1. Lof sé Drottni! sagdi, logann af øllum mínum, bókum bjart í gjær! — trúbladur Tímon sagdi — (Volt.) Trúi' eg ei ordum þínum: þú værir annars ær! Þó logi bull eda lygasøgur einar, og ljóda þvadur, tek eg síst til greinar, en Cíceró's, Pópa' og samlík verk eg meina, synd og skømm á báli drepa reyna.

---

[1]) Efni til þessa Frumkvædis er valid til eptir Voltaire's „Reflexions sur le Paradoxe, qve les Sciences ont nui „aux meurs" sem eru í sundurláusu máli. Voltaire var sá ordlagdasti Gáfumadur medal Franskra á 18du øld, en nafnid Tímon í Samtalinu er alment valid mønnum, sem agnhúa hafa á mannlegu samkvæmi eda manna fullkomnun vid mentanir. Er þad eptir þeim athenienska — annars nafnfræga — Tímoni fordum, sem sagdur var mannhatari, hvørn Lúcían og svo nefnir.

2. (Tímón.) Allar eg hefi brenndar, allar sīdum spilla; mentir allar eins. Reglur reiknings kénndar, reynast einber villa, nýtat vart til neins; hefdu þær ei heill og sæmd oss rúid, hjá oss enn þá Gull-öld mundi búid; frá hvörju landi hef' eg þaunkum snúid, hvadan lærdóms skin ei burt var flúid.

3. Kápur úr Kína dúni; klukkur, gullinnmælir, tímans býdur Borg. Hljóms eru brellunt búnir, bragnar, glaumar fælir; eyrun rífur org; en á víxl þar inndælt samhljód svæsir, samt alls þessa vodinn ysirgnæsir. Irokkanna[1] tel eg einar æsir, aru-manna vid sem búa hæsir.

4. (Volt.) Hvad fékk, Tímon! huga, heipt innblásid þínum, mentum gódum gégn? (Tímon) Vöksela mig hafa hugad, brøgd og álnum sínum, sóad mér um megn. (Volt.) Ef slæg bykkjan ein-hvør sinnst um slódir, eru fyrir þad jórar bræpir gódir? (Tímon.) Ydjusemi allar reyna þjódir, ótal verda nýrra þarfa Módir.

5. Þarfir ad æsi þessar, þel til margs óháda, sannar Sagan oss; óvit eldri blessar, ysirmanna ráda, en kallar vitru kross. Hávís Stýrir færri manna kolla, koki mun enn Gudvís tídum olla[2]; þessi medfram gékk í Skóla Skolla, skálkaþørin baud í kénnslu-tolla.

6. Kóngur Karl Níundi, kénníng' menta þádi,

---

[1]) Svo nefnast 5 Villiþjódir óupplýstar í Sudurparti Nordur-Ameríku. [2]) Dæmi þess vottar Kathólskra Kansóknar-réttur Trúarbragda og mordbrennur þeirra vegna.

þó varð þegna hrís. Eins Hinrik áttundi, ætíð og skyldur smáði. Um trú rétta rís, stríð lærdóma, morð og brenna manna, mátti forðum Irland dæmið finna[1]. Því er sæmra þekking' menta vanna, þreyja fávís, sæll og rór um annað.

7. (Volt.) Um Attila[2] verður vast, og villt garpa líka, fleiri öldum á, hvørt við mentir hafi, hlotið spilling' ríka, sem inna Sögur frá. (Timon) Onei! — kénnskan ein þeim varð að granda — Evu líkt — sem hana þág af Fjanda, fiblin manna framferðið bést vanda, í flokki þeirra tel eg heill að standa.

8. (Volt) Hann røksemdum reirði, ræðu vissu stimar, uns af birtu brá. Hvørr, sem þessar heyrði, héldi' honum bæri vinna, lærdóms launin há. Lét eg hann skjala — leið en vikar förum, landið á það kvøld hvørt boðnir vórum. Hann bókment-

[1] Karl IX Fránkaríkis Konúngur gipti Systur sína Konúnginum af Navarra, þann 17da Aug. 1572, en nóttina milli þess 23ja og 24da s. m. edur aðfara nótt Bartholomæusar messu, lét hann í Parísar Borg, með ómanneskjulegri grimd, drepa 60, og nokkrir segja allt að 100,000 Prótestanta af þegnum sínum, vegna þess þeir vildu ekki taka kaþólska trú. Er þetta manndráp síðan nefnt Parísar Blóðbrúðkaup. Hinrik VIII. Konúngur í Englandi, skildi sig við Drottníngar sínar, átti alls 6, en lét 2 þeirra drepa, og hafði fyrirhugað þeirri 3ju sama. Vóru þeir báðir vel mentaðir. Á Irlandi drápu Kaþólskir 40,000 Prótestanta, árið 1641, í upphlaupi vegna trúarbragða.
[2] Attila, Húnna Konúngur á 5tu Kristni Öld, var einhverr sá grimmasti Drottnari, sem lagði undir sig með stór-eydileggíngum mörg veraldar lønd milli India og Eystra Gallíu.

um hábølvadi stórum; í Hóratz las eg brot af Saungvum fjórum.

9. Vid midjann skóg oss mættu, misskunarlausir þjófar, allt sér krøfdu' afhendt. Frétti' eg horfinn hættu, hvern vid Skóla bófar, lært hafi list og ment? En þeir kvádust engir læsir vera, undan strípla tind-il-fætur bera. Hjarta Timons helst tók undran skéra, hreint ólærdir nídíngsverk ad gjera.

10. Hraktir, naktir hfundum, hurdum upp á ranni, vor hvar veitslan beid; Vertinn fræga fundum, felmti brá þeim manni, þá port lik inn leid. Hann var lærdóms haldinn mikill sómi; hann gódmenni var ad allra dómi; ad hjarta' og sidum Høfdíngjanna blómi, honum ófall kløkkvum þuldum rómi.

11. Mín er, innti' hann, æra, ykkur í neydar standi, sem heill mér heila gaf, nægann fatnad færa, fantar upphengjandi, þó rændu ykkar af; hvern í gódann klædnad baud hann búa, beggja vasa dala fylltí grúa, lét svo verma, hressa' og vel ad hlúa, høfdíngs veitslu gédugri ad oss snúa.

12. Budu gjøf og glaumur, gleyma þúngum mæd-um, hans vid hyggna tal. Hressti horna straumur, hýrt lék blód í ædum, undir saung í sal; tókum krásir, tæmdum brúsa stóra, Timon eird uns þraut vid bordid slóra, reis upp, bad um blek og penna, stóra, bók med níd um lærdóm saman klóra.

---

13. Flý, Ment-Gydja! flýdu, fibla dimmleit inni, aula bulldurs ból! Vættu betri blídu, bóknáms

ydju þinni, hvar skín þér skjærri sól! Þínir vinir þá und' leidum sofa, þeirra týr skal blómgast Jöklum ofar, þá góð-mentir lýdir fúsar lofa, ljós ei skyggir Timons blekkin vofa.

---

# Smala-drengurinn.

## (Smaladrengur og Öldúngur).

(Sjá Klaustur Póst 1822 bls. 158—9.)

---

Lagið: Jeg synger ikke om Kamp og Krig.

1.

Smaladr. Eg hamíngju prísa, nú heppnast mér
Við hirdis gaungu-vos skilið segja.
Lof sýng og fagna, það liðið er!
Mér lærdum audnast um síðir deya.
Í Skóla settur, eg lærdar glettur,
Og ótal síðan nem' höfdíngja settur.
Öldúngur. :,: Er það nóg þá? :,:

2.

Smaladr. Eg hoppa vil upp úr bekkjum brádt
Og búast hradur til utanfara,
Svo fagni Lærdir og lýsi hátt:
Mér lofstýr mentadra beri skara.
Um kropp, þá dansa, fín klædin glansa,
Kann eg fljótt minda í loptinu skansa.
Öldúngur. :,: Er það nóg þá? :,:

3.

Smaladr. Eg hefst til valda, Hreppstjóri verð,

Holl er það framq von. — En talsmaður
Flest vinn eg mál, því mælska og gérð
Mér teljast lánuð. — Svo Sýslumaður —
Eins má svo fara, þú egir mér svara,
Sem Amtmanni, Biskupi, Justitiara.
Oldúngur. :,: Er það nóg þá? :,:

4.

Smalaðr. Gullbaldýraður eg gleyma skal
Þeim görmum, er Smalann fyrr-
um skreyttu.
uppháfinn lágt yfir almúga hjal,
Ansa várt þeim, er sleikju mér veittu.
En auðlegð safna, við uppgáng dafna,
Enga í landinu telja mér jafna.
Oldúngur. :,: Er það nóg þá? :,:

5.

Smalaðr. Þá elli sedjast og auð' eg fer,
Og fullur ótta mér skrillinn lýtur,
Enn skrumið málvina skenkt er mér
Og skreytir leiðið, er æfin þrýtur:
Mitt nafn, að vanda, sem Merkis-
landa,
Í Marmara, viti menn, högg-
við standa.
Oldúngur. :,: Er það nóg þá? :,:

6.

Ungann svein hrigði', að enn þá frá'g
Oldúngur — hins við skeið svo runnið,
Sem frægt hann hugði — Er það nóg þá?

Og þóttist hér hafa fullvel unnið —
Hans áform bæði, orð, verk og æði,
Æ síðan smýrðist af Siðafræði.
Það varð nóg þá.

---

# Stökur.

(Sjá Klausturpóst 1820 bls. 67, 149, 194, og Hjálmar á Bjargi bls. 90. Utl.)

---

## Skáldafjöldin.

Hverja helst átt vér horfum í —
O það mæti, oss sem kæti!
Skálda lítum mergð sem ný.

## Þorkéll þánkalaus.

Eitthvað þúngt umþenkja, Þorkéll! lítst þú mér.
Hrigð má hug þinn kreinkja, háfaunglandi' er fer,
Reykandi um velli vídt.
Í báðum vösum heldur hönd.
Horfir' í loptið blídt.
Yrt hann ansa gérði: ekki þenki' eg þar,
En yrki óð af verði. Aptur greiddi' eg svar:
Þú ef yrkir þánkalaus,
Meiníng, penna, blek og bréf,
Við brag' þú sparar og haus.

## Tómás heilatæpur.

Tómás. Minn heili, Jón kjæri! það þakka má þér,

Af hvættingi tómum sí-ruglaður er.
Því, annað ef innfer hann eyrað um mitt
Eg óðara rek hann á dyrnar um hitt.

Jón. Um það, vinur Tómás! mér alkunnugt er
Að eirir ei vitið í kolli á þér;
Þar heimskan best unir, sé hún ei það eitt
Í honum, sem loðir, þá veit eg ei neitt.

## Um búskap.

Naung er trú, að sé nú sæll, sá með bú kann vera,
Sveita' og hjúa finna þræll, Sauða, Kúa' og Mera.

---

Fimti Flokkur.

# Gaman-kvæði og Vísur.

---

## A. Kvæði.

## Kvenna Skál.

(Útl. frá Vinagleði bls. 171—3.

---

1.

Skaparinn leit þá ný-sköpuðu jörðu,
Ofkaptra manna hann forløgin sá,
Og, svo hann gæfi þeim sætt meður hørðu,
Sagði hann: vínberin væri þar á!
:,: Hann enn nokkra dymmu í hlutunum fann,

Hann baud: Stúlkur verdi! og hymman
burtrann. :,:

2.

Hinna gódgjørdir med gledi vér blessum,
Gjørdum þeim nýlega kvædi til hróss;
Brædur! á Guda þó hýrgun oss hressum,
Hvad skal þad yndi vid þessara koss?
:,: Mót skjærustu sólum eg lampanna ljós
Legg, sem vín-perlur vid Stúlknanna bros. :,:

3.

Benda staup øllum, á barma þau fylla
Ber oss og Systurnar heidra í stad!
Elska lært gétur, sá enn kann þad illa,
Ogiptur bónda skjótt verda má ad.
:,: Sífeldt munu rætast þau sannyrdin kjær:
Sér ætti hvørr hýru, á, ellegar fær. :,:

4.

Þú, sem í ekta-bands farsælu sestum,
Fulltrúa vinkonu límdyr í skaut,
Forsmekk med himinsins fagnadar bestum,
Fadmast og gleymir þar sérhvørri þraut,
:,: Þekkt' hýr þína lukku, þríf staupid, géf prís
Þeim Engli, er þessa skóp þér Paradís! :,:

5.

Þú, hvørs von-glada, sér hradar ad fynda,
Heilla takmarki, ást-brennandi sál,
Kjæran þá brostir, kannt hindrunum hrinda,
Hvørri fær drekkt í koss armædu skál,

:,: Þú farsæli bródir! þinn-saungur, æ sé:
Sér Hýru hvørr bródir, sem mína fáe! :,:

6.

Þú, sem af hriggvum andvørpum ei lætur,
Enga fær líkn af hýrt-brosandi von,
Vesæll, af sorlegum gabbadur grætur,
Þó gilti vid hædid strekar þinn són,
:,: Vænt gledinnar feinum! og sé nú þitt ged
Samfagnandi allra og brodur þíns med! :,:

7.

„Hátt hljómi', í staupanna hvellandi tónum!
„Hátt hljómi brædra samstemmandi raust:
„Brosleitar Stúlkur med kjærlegum Konum,
„Kýs eg oss lífi til heilla og traustis!
„Elskunni til heidurs allt hljómi lífs mál:
„Hér fríðra Góð-kvenna og Stúlkna sé skál!
„Elskunni til heidurs allt hljómi lífs mál:
„Ó Konur! ó Stúlkur! æ fögru! ydar skál!"

---

# Astridur.

(útl. Vinagledi bls. 176—7.)

---

1.

Astridur var fögur, óspjölluð og góð,
Audveldt hennar hjarta ad beigja,
Kinnarnar þær vóru sem mjólk og sem blód,
Lík sólu sú hórengda meyja,
:,: Vid hálsinn útflögrudu hvítann sem mjöll,
Hárlokkar og dásfrída skreyttu menþöll, :,:

2.

Hún fødur sinn elskad' og elskud var, ein
    Hans elli føgnudur, úr máta.
Hans gledi var hennar, dygd vinkona hrein,
    Hún ei mátti vita hann gráta.
:,: Hún fær þó lyst - - stúlkunum heldur tama - -
    Af hvørju, veit Drottinn, - - ad heita mamma. :,:

3.

Tár-fullum med augum og følnandi kinn,
    Framskjálfandi bænum í snørum,
Meyjunnar órólegt útmálandi sinn'
    Med titrand' hún stamar út vørum:
:,: Minn Fadir! minn Fadir! æ mína bæn heyr,
    Eg megn til andvarpa í leynd hef' ei meir! :,:

4.

Herjólfur sá kviki og sí-gladi sveinn,
    Mitt særir þel innsta og partar,
Mig kreisti' hann í laumi og kysti aleinn,
    Pad kom svo hann stal - - mínu hjarta;
:,: Eg finn og í huga hann føgnudinn ljóst,
    Ad fengi eg þrýst honum upp vid mitt brjóst. :,:

5.

Æ! leyfdu, ó Fadir! æ! leyf mér augljóst,
    Pá lífsins ómetandi gledi:
Ad þrýsta Herjólfi þjett upp vid mitt brjóst,
    Pad leyf mér, hýr Fadir, í gedi!
:,: Ef ei - - skoda daudans hér skelfing, er þá
    Skal slengja mér følum í fadminn þinn ná! :,:

6.

O stúlka! með akéfð hann ansar, ó barn!
Ei trúir þú lengur þeim sanni,
Sem opt þér eg sagði: að íllt einatt skarn,
Og narri vors hnattar og glanni,
:,: Ut-marga-hló bygða við missir jómfrú,
Minnst' ekki þíns Herjólfs, haldt' bygðinni trú! :,:

7.

Eg ætíð hef' elskað þig, sem mína sál',
Sárt lástú mér ætíð á hjarta,
Eg óska þú varist hér eptir allt tál,
En skjálf, þurf' eg yfir þér kvarta!
:,: O stúlkur! vor-blóminn ber of-lítið af,
Opt gleymast heilræðin, er faðirinn gaf. :,:

8.

Astríðar hér sefast óþoluga önd,
Andvörpin í tárum burt-líða,
Hún þekkir sitt afbrot og hans kyssir hönd,
Og honum æ lofar að hlýða.
:,: O stúlkur! þær grillur svo skjótt líða frá,
Sem föðmun af einni um gipting þær fá! :,:

---

## Yngis-stúlkan.

(Utl. frá Dina Gledi bls. 178—9.)

---

Lagið er, sem við Odds-brag.

1.

Góður vinur ríða réð,

Til ríkis = stúlku bidil med,
Þó svo snemma fadirinn skjód,
Fús ei gipti, hótin góð
Gésti sýndi, gladur nærsta géds um slód.

2.

Hann til bords, med hesdar sid
Hinum baud og staldra vid;
En, þó fadirinn innti' ei þar,
Erindi hvørt géstsins var,
Visi úngu vannst ad géta' í vonirnar.

3.

Hún ágiskar: eitthvad má,
Í efni vera géstur sá,
Strax til bords var bodinn hér,
Buktar hann ædi djúpt fyrir mér;
Hvørt erindi hans og því mér hulid er?

4.

Hvørt ei snerta mun þad mig?
Madurinn aptur herdir sig,
Vid øl = staup von = gódur hann,
Vinar fylgja málum ann.
Æ! minn Herra! aldradur fadir ansa vann:

5.

Vid eg haldid ad sé ei
Óbilgjarn þó svari, nei!
Of úng dóttir ekta = frú
Ófær er ad verda sú;
Hún er fyrsta fjórtán vetra fullra nú!

6.

Í því stúlkan aðkom þar,
Einn á borðið rétt innbar;
Faðir! með hvað fóruð þér?
Fjórtán vetra naumt ef er,
Ofur-mikið Yður skjátla, inniti' hún, sér.

7.

Síðan þetta sögð eg var,
Sjö eru liðnar vikurnar.
Hvört lét faðirinn hana þá
Haptlausa? þarum ei tjá
Søgurnar; nei, satt mun best að segja frá:

8.

Máské fjölda miklum í
Meyjar úngar spyrji' að því;
Til huggunar þessum þá,
Þetta skýlaust vitna má:
Faðirinn sneiptur fljóðið strax lét festum ná!

---

# Einsetu-drengurinn.

(Sjá Vina Gleði bls. 182—3.)

---

1. Faðir! þarna sjá um sinn (og sýnir hattí meður)! engann líka eg þess finn, innið nafnið Faðir minn!

2. Sleppið mér, svo megi' eg sjá! meyjunnar til

hann ædir, hana ákafur horfir á, hana ígrundar best sem má.

3. Nidur lúta ýmist ann, umgjørd hennar skoda, eda' á tær sér tyllir hann, teygir úr hálsi lengst sem kann.

4. Hørund lítur, háls og kinn hennar, brádt svo skundar hann í kofann aptur inn, ad einu spyr eg, Fadir minn:

5. Kjært hvørt pad ei Ydur er? ad elska gódann fødur, pó enn framar petta her, pví svo frábært virdist mér.

6. Regns eg boga fagrann finn, frídara víst er petta, upp hoppadi aldrad skinn, ef pad sæud, Fadir minn!

7. Komid Fadir! mein ei má, mind sú fagra gjøra, og hennar heiti innid frá, ansadi kallinn bistur pá:

8. „Pad fugl, ljótur, illur er, ónýtt gjæsar-tetur;" hvad sem kallinn hrópa fer, hinn til gjæsar flýtir sér.

9. Betur vildi' eg pekkja pig, pýdust Gjæs! æ sýngdu! til fødur skunda sætur stig, Fadir! sagdi' hann, bænheyr mig:

10. Eg stund glada aldrei sæ, ef pá gjæs skal missa, pess mér, Fadir! unnid æ, eg hana ladi heim ad bæ!

11. Kall affegir: of-dýrt er, adkeypt Gjæsar-yndi; pó hann sveyi og hrópi hér, hinns pad eigi ferdum ver.

---

# Bjørgólfs Afdrif.

(Utl. sjá Vina Gledi bls. 185—7.)

Lagid er: Hjølndir tveir í húsi fordum.

1.

Aldrei gleymi eg úr þessu
Ofallinu, á Þorláks-messu
Hann Bjørgólf, sem henda réd;
Sú ógn bending er fyrir adra
Upp frá þessu vid ad dadra
Og kjassa minna kvennfólkid.

2.

Heitt Bjørgólfur unnti Ástu,
Enda var hún med þeim skástu
Vísum, síst þó vildi hann;
Vonarlaus hann vakir nætur,
Volar, stynur, emjar, grætur,
Heims úr naud sér hrada vann.

3.

Æ! þú tígris's sálin svarta!
Svo kvad hann, þitt finnur hjarta,
Litla ró uns lík eg er!
Vel! þér gédjast skal! hann skundar,
Skjótt uppá fjall-snøs, til grundar
Framm-af þadan feigur ::: sjer!

4.

Vatnid trúi' eg vissar meiga,
Vægri dauda kjæsa feiga,

Í hvar = kek því rekkur rann;
Fyrr' enn hann á vömb sér vedur,
Vappar hann upp á land og kvedur;
Skrattans skolla' eg þoli' ei hann!

5.

Lunda = bagga einn sem áttu,
Enskagjum ei kleyssa máttu,
Inni hann og eta ser;
Áðu sjer, med hnífnum hvassa,
Hann strax barkann sundur = krassar,
En = = = Lunda = bagginn barki er.

6.

Vakir þú eytur trúl' eg valla,
Vörsótt veiti nær ad falla,
Þarmed öll þín þjáning dvín!
Strax hann nauda stórra kennir,
Staup því laudinn fimm útrennir,
Barma = full med = = = brennu = vín.

7.

Ad hengja sig er haldin æra
Hjá þeim ensku skal þad læra,
Um bita snøru binda vann,
Henni svo um hálsinn smegir,
Háska = lítid þad eg segi,
Bitinn var = = = jafn = hár og hann.

8.

Minnst ber á og miøg hægt veitir
Menn í rekkju' ad kafni feitir,

Ad hátta' og kvedja heim hann fer,
Grúfir, svitnar, geispár, hrýtur,
Gódraværda' og drauma nýtur,
framm til þess ad full=ljóst er.

# Ungi Slagarinn.

Eptir Kriger.

(Sjá Vínagledi bls. 191—2).

Lagid er: Hjer hefir margur svo hættulegt prjál.

Skynsemis birtu þeim Skaparinn ann, skilst mér hann elski og drekki, þá kann; úr því hjá Charon *) ad fest hefir fót, fá góda ástir og vín nótt.

2. Hjá víni' og ástum eg lærdóminn leit, ei lærdi eg á stjørnur, en tíd mína veit, úr því ei vísum og vín=tári ann, veit eg mér allnærri daudann.

3. Farsæld, er ydjumenn fýsir ad ná, þú fær ei med speki, tíd sóast þar á, vinur! ad eins hana veita má hér, vínid og drósanna koss þér.

4. Ekki súr andlit mér aptra geistleg, ad slarka virdtur þann lystuga veg, þeim mun eg ekki útskúfadur af, úngar sem drósir og vín gaf.

5. Gódur og nádugur Alfadir er, oss því til

*) Charon diktudu Grisk og Rómversk skáld, væri ferjumadur allra daudra yfirum fljótid Styx á nedri bygdum; ófrýnilegur og illur kall med lélega kjænu.

líknar hans vitska leysir, forsmekk ad himins, þá huggar vín harm, høfum vér drósanna vid barm.

6. Sædanna skársstu bid gódum vín nú, greidt súpir, elskir, sért elskadur þú! lokid í dauda er lystíngum, þó lifdi hvørr ádur enn burt = dó.

7. Lát vín og ástir þig lífga upp þá, lystíngum daudinn senn kippir þér frá, því, veitist þér elli þú verda mátt enn, hvad verr enn allt annad, hyggenn.

* * * * * *
* * *

8. Svo hjalar úngur, hvørs óvita mód, æsir vínþrúgunnar tælandi blód. Vís í Guds ótta sig gledur og dygd, gladur í von kvedur heims = bygd.

---

## Besti Heimurinn.

(Útl. Gaman og Alvøru 1 B. bls. 47.)

O Brædur! umfram allt þér egid
Heims yndisfullu ment
Ad læra, heidra hana megid,
Því hún best verdur hent
:,: Til gledi, þjód hún þókknast má,
Eg þar skal vedja' uppá. :,:

Hvørr hellst sig eptir henni' ad laga
Rétt hefir numid, kann
Ad kyssa, súpa, kjæti haga,
Því kémst af dável hann,
:,: Sú øll gladværd mun audnast þeim;
Sú á vid bestann Heim. :,:

# B. Vísur.

## Distichon

yfir sál. Gudmundar Gíslasonar þá er hann fraddi Skálholts Skóla.

**I, bene mansisti, redeas mercator ab Indis,**
**qua bene sedisti, sede recede bene.**

(A íslendsku, lauslega snúid.)

Fardu, þú hefir verid vel,
Verdsladu' í Austurheimi;
Þadan svo, hvar settir stél
Í sóma, heill þig teymi.

## Kraga-Visur.

1. Nú er Kragi lagdur lík, Leirár þjóninn trúi; hans eg sakna, hans var rík, heill á mínu búi.

2. Margopt bera mikid vann, møgli kunni ei sletta, bjørg dró hér í margan mann, mig ei kunni ad pretta.

3. Elsta byggan þar eg þjón, þrátt um landid vída; sem mig bar þad sødla ljón, síst vann nøldra og strída.

4. Virding Kraga veitist stór; vakt hann fleyg umkríngi, hempudøkkur himinkór, hræ upp næmi og sýngi.

5. Hann er ikki hafinn frá, hann lífrisu bídur, honum landi lífsins á, lífudum skáldid rídur.

6. Ad óskira dýrid þó, dyggt sinn herra vidur, hend-ing, madur, þad er þó, þér ei fari midur.

## Stjørnu-Vísur

til Síra Sigurdar Arnasonar á Hálsi.

1. „Þá upphædir bádadýr Doctor Kraga ridur," á Stjørnu klerkur stada skír, stíginn nedar bídur.

2. Lét henni varla lausra' um grund, létta ferdir manna, hvtkjan kynsjud fáka fund, fær ei upp-hædanna.

3. Fyrst sléttgóma mjúkt ei má, mod í sundur núa, japls til Snjóska' úr járni þá, jarla þarf henni búa.

## Þeir Benidikt Grøndal kvádust á Beinakéllingarvísur.

Eg vil leikum eins og fyr, ádur enn førum héd-an; Benidikt verdur ad bída fyr, blessunarlaus á medan.

## Grøndal hafdi ádur sagt:

Stillilegur Stúdentinn, stundum hjá mér ridur; gjarnan úngum géfur inn, gømlum ekki sídur.

## Þá er M. St. var búinn ad skila Sinne Landsfógéta-reikníngunum.

Hér mun eg hægan finna frid, og fjárins næga safnid, Leirá þægu lafa vid, og Lǫgmanns fræga nafnid.

## Þá hann flutti frá Leirá ad Innrahólmi.

Hér þó hægan findi' eg frid, og fjárins næga

safnið, Leirá þægu laus er við, og Lögmanns fræga nafnið.

### Um veðráttufar.

Ut að bræða' hann eg nú fer, inn að snæða þar eptir, veður gjæða - gott nú er; Guð á hæðum lof sé þér!

---

Um lopt víða æða ský, sem auka kvíða mönnum, aðkast hríða er á ný, eingin blíða fylgir því.

---

Um lopt víða eingin ský, auka kvíða mönnum, upp-rof hríða er á ný, yndi' og blíða fylgir því.

---

Olafur Smiður ösku-bil, áðan tvíl-laust gjörði spá; kölgu, sem að kældi yk, kváðu margir undir þá.

### Um Almanak.

Almanakið gjörist grett, — gaman er á að líta — framaní þakið furðu nett, farfanum gráa og hvíta.

### Hann fór eittsinn að berja á túni.

Held eg valla hæfi mér, hlass á velli merja, aðallinn kvasast, ef hann fer, út á tún að berja.

### Til Schagfjörðs er Gunnar póstur var orðinn óþolinmóður að bíða eptir bréfum.

Búinn er Gunnar að bölva mig ærann,
búinn að hóta að gánga af stað;
en hann að klára eg finn mig ófærann,

nema fái eg ydar góda lidsinni ad:
Nægilegt kaffe og vistir eg vil
vintári medur nú bjóda' ydur til.

## Stúlkur fóru í Laugar.

Sókti laugar svanna fögur øsin,
saman haugast vandrædanna køsin;
rigndi, hvesti, rumdu brèstir, ruku af hesti
glera lesta gløsin.

## Vid dóttur sína:

Bordadu med mér blautan fisk, broslеit hrínga reinin,
tærilátust tins af disk, takt' út úr þér beinin.

## Kvedid vid dætur sínar þá þær sátu á knè hans.

Hvar er stúlkan rjód, rjód,
rjód einsog heitt blód?
hún er barna þýd, þýd,
Þýd einsog sól blíd;
hvar mun fegri frú, frú?
frú er eingin til sú;
hvørr mun hana fá, fá!
fá skal eg hana, já, já.

## Um stofu smídid á Innrahólmi.

Høndum smida heslan fín, hródurs skal hér leita:
løgd med prýdi lóptin mín, laglega smídud heita.
(Bødvar Sigurdsson hafdi lagt, Páll Sigurdsson piljad.)

## Stúlku-vísur.

Þegar missi' eg meyina, mun eg hissa verda, einatt kyssa' í áttina, auds hvar slisar gérda.

---

Vessja' upp strompa vísin kná, ef vilja trompa' um stræti, mørg er glompa mýrum á, sem mey í pompad gæti.

---

Á mædda meyar brún
middegis blundur rann,
Med andfælum uppstøkk hún
Og tjádi draum þúngann:
Øll er ánægjan svipt
Utséd um lukkudag,
Vart mun eg verda gipt
Vinnist þad ekki' í dag!

(Þetta er líkost til kvedid eptir upphafinu á Vessels Opera „Kjærlighed uden Strømper" sem er þetta:

„Du aldrig bliver givt hvis det idag ei skeer" o alt for fæle Drøm &.)

---

## Til Síra Þorst. Sál. Sveinbs. á Hesti.

Gellert! þín eru þýdsku kvædi lúin,
þøkk skal mín ad séu þér íslendsk búin;
fram ad Hesti
færdu Presti

þitt færna vesti
hann fær því best vid snúid.

---

## Skrifad utaná bréf til nafna hans.

Bréf þetta ef berast kann
í Bæar-sorp vitt menn
ad snudra upp eigandann
úti vid polla og fen,
einhvør midan afhendi
Magnúsi úngum Stephensen.

---

## Útlagt úr dønskum Sálmi gømlum.

(Sjá Klaustur Póst 1821 bls. 45.)

---

Litt líknar þá, þó Lucía lærum ypti,
Hradt heimi frá, med hópnum stóra, svipti
Hef þér til Heklu, Heklu, Heklu,
Í hennar dymmu gjá.

---

## Nóta vid kvædi.

(Sjá Klaustur Póst 1823 bls. 126, 4da erindi.

---

Hvar er gras? og hvad er ad slá? hvørt um gródurlausa, í nordan-bálum bjarga má, berja móa-hausa.

## Utlagt úr Peder Paars 2. Bók. 3ja Saung niðurl.

(Sjá Klaustur Póst 1824 bls. 191).

Eg bið Oðin æfi-lok við mín:
I Mann framar mína sál' ei senda,
Sú í Kú að heldur megi lenda,
Ofnu byggja, yrmling, maðk eða svín.

## Ritað á Kl. pósts Korrektúru No. 1. 1823. til Schagfjørds.

Aptast og fremst er ógna gisið,
Arkið þar tómlegt, magurt, visið,
Sólar, þó lítil sjáist mót
Sólar-óðurinn sig útglennir.
Sortaleg grøf hvar Arngrím spennir,
Wyrðist hún opin, víð og ljót.



# Grafminningar og Erfiljóð

eptir ýmislegt merkisfólk

samin

af

Konferentsráði Dr. M. Stephensen,

og

# Grafskriftir, Erfiljóð og Líkræður

eptir

Konferentsráð Dr. M. Stephensen

og

Hans Hásælu Frú

Guðrúnu Vigfúsdóttur Scheving.

Søfnuð og útgéfin af Syni þeirra

O. M. Stephensen

Júſtits = Secretera.

Videyar Klaustri,

1842.

# Grafminningar og Erfiljóð

eptir ýmislegt merkisfólk

samin

af

Konferentsráði Dr. M. Stephensen.

## 1.

# Grafskriftir og Erfiljóð
samin af Conferenceráði Dr. M. Stephensen.

---

### Grafskrift á Látínu yfir Conf. Jón Eyriksson.
Samin 1786.

---

H. S. E.
Vir illustrissimus
JOHANNES ERICI
Islandus.
Musarum, dum vixit, decus.
Bonorum omnium delicium.
Illi subditorum amor.
Hunc sibi natum
Patria, multos per annos,
gratulabatur.
Denatum jam
Insolabilis luget, complorat, lacrymatur.
Viri tamen non morietur,
qvae semper vivet et amabitur virtus

Nec doctrina, quae venerabitur
Neque probitas, neque diligentia
Nec denique ter singularis
Patriae amor.
Quae licet incomparabilia fere,
Superstitibus pro exemplare
Sunto

*Tale benefactori nunquam obliviscendo in signum grati animi monimentum ponit ipsius conterraneus.*

M. Stephensen.

Hin sama á Íslendsku.

Felst hér í moldu
hinn frægasti madur
Jón Eyríksson
Íslendíngur.
Mentagydjum prýdi medan lifdi,
Unan öllum gódum,
Unnu honum hugástum undirhodnir.
Þvílíks sér bórins
Sóma og stodar
Taldist sælt Fødur-land
um lángann aldur,
syrgir ítt nú lagdann,
harmar, grætur, huggast eigi.
Hans þó deyr eigi dygd
— mun hún æ lifa í ást hjá mønnum —
deyr ei lærdómur hans er lengi tignast
né ráddvendni né heldur árvekni;

mun hans síst deya en makalausa
ást á fedra foldu.
Mannkostir slíkir, þó vart megi vidjafnast,
skulu fyrirmind allra er eptir lifa.

Þvílíka minníngu setur óglėymanda velgjørara sínum, sem merki þakkláts huga, samlandi hans.

M. Stephensen.

---

Utlegging Suhms lat. Grafskriftar yfir Stiftamtmann Þorkél Fjeldsted., (sjá Minnisv. Tíd. 1. B. bls. 244.)

---

Þar er leiddur
**Þorkéll Fieldsted**
Madur
Ad hugviti mikill,
Fjøl - vitríngur
Frábær ad minni,
Olastandi ydjumadur,
Fátækra audgari,
Forsvar bænda.

---

Grafskrift á látínu yfir Biskup Dr. Hannes Finnsson. (Sjá Minn. Tíd. 1. B. bls. 270—2).

---

H. S. E.
Laudatissimus. Islandus.

**JOHANNES. FINNAEUS.**
**S. S. Theologiæ. Doctor.**
**Episcopus. Dioeceseos. Skalholtensis.**
**Natus. die. VIII. Maji. Anno. MDCCXXXIX.**
**Denatus. die. IV. Augusti. Anno. MDCCXCVI.**
**Summus. Theologus.**
**Polyhistor. Celeberrimus.**
**Scientiarum.**
**In. Patria. Instaurator.**
**Ecclesiæ. Columen.**
**Præceptor. Dexterrimus,**
**Vir.**
**Probatæ. Pietatis.**
**Spectatissimæ. Fidei.**
**Mansvetudinis. Singularis.**
**Industriœ. Admirabilis.**
**Patriæ. Ornamentum.**
**Lugens. Islandia.**
**Parem.**
**Tanto. Nomini.**
**Diu. Qværet.**
**Eheu!**
**Diutius. Desiderabit.**
**Tale**

*Præceptori, Affini et Amico nunqvam obliviscendo monimentum moestissimus posuit.*

**MAGNUS STEPHANIUS.**

Útlegging gjörd af Sigurdi Sýslumanni Péturssyni.

---

Hér er lagdur
Ordstíri bestum Íslendíngur
**Hannes Finnsson,**
Lærifadir í heilagri Gudfrædi
og Biskup Skálholts = Stiptis.
Fæddur dag 8da Maí Annó 1739.
Andadur dag 4a Augústí Annó 1796.
Hann var best mentur í helgri speki,
Frægastur medal Fjölvitrínga,
Lærdóms Bætir
í Landi voru,
Mikill Kristninnar Máttar=stólpi,
Laginn best ad læra adra.
Bestur ad raun
Bædi og trygdum,
Ljúfmenni fram lángt of adra,
Ydinn svo ad undrum gégndi,
Sinnar ættjardar Sómi.
Ad Líka þess Merkis = manns
Lengi spyrja man,
Ísaland ekka þrúngid,
En, því midur!
Þreyja lengur.

Þvílíkt minnisteikn setti ógleimanlegum Kénnifødur, Mági og Vini sínum, harmþrúnginn

Magnús Stephensen.

---

Utlegging Grafskr. Suhms yfir Dr. Hannes, (sjá Minnisv. Tíd. 1. B. bls. 270.) gjørd af M. St.

---

Hér er leiddur
**Hannes Finnsson,**
Biskup Skálholts
Best verdugur,
Mikill Sonur
Mikils Fødurs,
Madur,
Ad skylduraekt, menta-fraedi,
Trygd, réttlaeti og árvekni,
Engra talinn
Eptirbátur.
Sá var ei Islands
Sómi eins,
Heldur nýtur Nordurlanda.

Hreinskilnasta vin hriggur setti,
P. F. Suhm.

---

Tvø kvaedi, annad fyrir. hitt eptir raedu þá, er M. St. flutti í Reykjavík á Heidursminníngar hátíd eptir Biskup Hannes árid 1796, 7da Október. (sjá Minn. Tíd. 1. B. bls. 296. og 320.)

---

## Á undan Raedunni.

Lagid er: Pér, Drottinn! þakka eg.

**Saung-kór.**

1. Dygdanna vinir! vel

Vandid minningu Hans,
Hvørs missir hefir þel
Harmi fyllt Íslands!
Hans Nafni heidurs=varda
Reisid, mætari marmarans:

## Fjórir:

2. Sonunum segid: Hann
Svo gódur, mikill var!
Æ! setid feril hann,
Fagurt er munstur þar!
En landid Ydar unni
Moldum þakklætis minningar.
3. Lærdóms á medan ment
Mønnum fær heidurs=safn,
Og manndygd lof er lént
Leita má: hvar er jafn?
Á medan aldir lifa
Doctors Hannesar deyr ei Nafn!
Allur Saung=kórinn aptur:
Á medan aldir lifa
Doctors Hannesar deyr ei Nafn!

Ad endadri Rædunni var súngid:
Lagid er: Herra! hér skal heidur og lotning greida.

## Saung=kór.

1. Allt hvad dregur anda' er grafar fengur,
Ei skal trega hvílda vini lengur,
Fold þó undir
Festi blundinn,

Fljótt sú stundin,
Að gledi = fundum gengur.

Fjórir.

2. Hér er kvíldi, hættu líf umvafið.
Hér er vídast ró í kíffi grafin.
Frí við mæðu,
Fær þreyð gjædi,
Fögnuð, nædi,
Und í hædir hafin.

3. Mun ánauðin meður dögum linna!
Mun á dauða lífið sigur vinna!
Von sú standi:
Vor skal andi
Vini lifandi
Á fegins = landi finna!

Allur Saung = kórinn aptur:
Von sú standi:
Vor skal andi
Vini lifandi
Á fegins = landi finna!

---

# Sorgar-Pánkar

vid Gröf
þess sæla Höfdingja
Biskupsins yfir Skálholts-Stipti
**Dr. Hannesar Finnssonar,**
eins
hans harmandi vinar,
þann 23ja Augústi 1796.
(Sjá æfisøgu hans bls. 37 — 39).

---

Lagid er: Pér, Drottinn! þakka eg.

1.

Hvad veldur: Island ad
  Ásýnd mjøg dapra ber?
Því ángurs óp um þad
  Allstadar heyrast fer?
    Því hylst þad hrygdar-skýjum?
  Ljós fagurt slokknad Landsins er!

2.

Því Gydju Menta mæ
  Margt falla tár á kinn?
Hví grátna hefja brá
  Hennar børn? efni' eg finn:
    Pau mildann mistu Fødur,
  En hún elskara fyrgir sinn!

3.

En — Pokka-Gydjur því

Þurrlegar virdast mér?
Þær, sem um bygd og bý
Budu inndæli' af sér!
Eg heyri allar svara:
Handgenginn Vinur horfinn er!

4.

Ødlínga ángurs-mein
Og Kénnivald hvørt sker?
Hví úngra vol og vein?
Veitstu: því Skálholt sjer
Hulid allt harma-blæum?
Hannes Biskup andadur er!

5.

Þángad nú þyrpist enn
Þreyenda skarinn fár,
Sorgbitnir merkis-menn,
Mannvinur lágur, hár;
Vid Lands- og virdta-Vinar
Framlidins Grøf ad fella tár.

6.

Grátum! því ærid er
Efni til gráts um sinn!
Grátid, sem medur mér
Mistud hér Ástvininn!
Trygd-reyndann besta bródur,
Biskup og Lærifødurinn!

7.

Þér, sem hans þekktud bygd,

Þér, sem hann fræða vann!
Þér, sem hann tók við trygð,
Tjáið: var betri' enn hann?
Sjáið hans grøf og segið:
Syrgja hvørt ber ei þvílíkann?

8.

Sjáið hans sæti audt!
Sýnið hvørr fylla má!
Gét eg, að grátin traudt
Gyðjanna þerrist brá.
Hvørs mætti høfði fara
Hatturinn Doctors eins vel á?

9.

Kom eg á fund þinn fús,
Fullsæli bróðir! æ;
Þá nálgast þitt jarð-hús,
Þér tárum offrað fæ;
Mér er þinn missir bættur,
Í dýrð þá þinni nálægð næ!

10.

Lærdóms á meðan ment
Mønnum fær heidurs safn,
Og manndygð lof er lént,
Leita má: hvar er jafn?
Á meðan aldir lifa,
Doctors Hannesar deyr ei Nafn!

M. Stephensen.

Grafletur á steini við Skálholts kyrkju yfir grøf Hannesar Biskups Finnssonar og Frúar hans Þórunnar Olafsdóttur.

---

Hér hvíla mikil merkis-hjón

**Dr. Hannes Finnsson**

Biskup Skálholts - Stiptis

og

**Þórun Olafsdóttir,** fædd Stephensen

Ásamt

Ungum øðrum Syni þeirra

**Olafi.**

Hannes fæddist 8da Maji 1739

dó 4da Augústi 1796

Þórun fæddist 6ta Júlii 1764

Dó 7da Februar 1786.

Hann var

Lærdra ljós, Islands unan, allra góðra Sómi.

Því mun og ángrádt Island

Lengi spyrja að líka hans, en lengur þreyja.

Hún var

Honum samvalin að hvørri dygd,

og atgjørfi øllu, jøfn að ástsæld og eptirsýnd.

Báðum lík Ekkju-frú

Biskups Hannesar

Valgerdur Jónsdóttir

Vísa Prýdi,

Vonar að hvíla hér, við Hans síðu.

undir þessum úthøggna steini,
sem Hún þeirra setti Molbum.
Svolátandi grafletur setti 1799
Magnús Stephensen.

---

Grafskrift yfir Jón Prest Arngrímsson, (sjá Minn. Tíd. 1. B. bls. 443.)

---

Hér hvílir
Elskadur Æskumadur,
Blídur hyrdir Borgar-Þinga
Jón Arngrímsson.
Á níunda
Yfir tuttugu ári hnígínn.
Gódur Prestur, gáfur-madur
Menta- og mann-vinur,
Presta prýdi stands,
Sóknum sorg-daudur
Hugljúfi hvørs manns.

---

Sjádu, madur, sem hér stadar nemur,
Svo manndómur, æskan, ellin fer!
Daudans opt óvørum kall adkémur.
Kannast vid, ad hey allt fólkid er!
Blómstrid féll, en blómstrum grøf hans prýdid
Blómstur Mýra, sem réttnefndur var,
Hans vid legstad, Sókna-búar! bídid,
Blundar, segid, ástkjær vinur þar!

Hann á dygða stig oss ljúfur leiddi,
Laungum fræða, hugga, gledja vann,
Hann oss veg til himin = sælda greiddi,
Himin = sældum Guð því blessi Hann!
Til minníngar setti
M. Stephensen.

---

Grafskrift á látínu yfir Sigurð Biskup Stephánsson, (sjá Minn. Tíð. 1. B. bls. 445.)

---

H. S. E.
SIGURDUS STEPHANIUS.
Episcopus Diœceseos Holanæ
Mortuus die *XXIV* Maii Anno *MDCCXCVIII.*
Anno Ætatis *LIV*
Doctrina
Clarus.
Disciplinâ & Eloqventiâ imprimis sacrâ
Clarior.
Pietate & Comitate
Clarissimus.
Vir
Integer, fidus,
Subjectis acceptus,
Holanis utiqve Musis desiderabilis.
*Patruo posuit*
MAGNUS STEPHANIUS.

Snúin á íslendsku af Jóni Sýslumanni Espólín.

Hér er settur
## Sigurdur Stephánsson
Biskup Hóla=Stiptis
Andadur dag 24da Maji 1798
Á 64da aldurs ári.
Frægur
Af lærdómi,
Enn frægri
Ad kénníngu óg andlegri mælsku.
Frægastur
Ad skyldu=rækt og skapi ljúfu.
Madur
Hreinskilinn, trúr
Og hugþekkur
Þeim, sem Hann átti yfir ad segja.
Mega víst Hóla
Menta=Gydjur,
Sakna manns
Úr sínum rönnum.
Svo setti Födurbródur sínum
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Frú Margretu Jónsdóttur Stephensen. (Minn. Tíd. 2 B. bls. 444.)

---

Hér geymist
Fögur Rós fölnud,

## Frú Margrét Jónsdóttir Stephensen,
Fædd dag 13da Janúari 1773.
Dreyd dag 22ann Októbr. 1800.

---

Kona
Gudrækin, gód, þolinmód,
Reynd ad og rík af dygdum.
Væn, vitur og greind.
Manns = ljúf og menta = fród.
Kona
Ástrík vid Ektamann.
Raunbest og ræktarfull Módir.
Síns húss, síns kyns og sinnar ættar
Sómi.

---

Lán, heilsa, fegurd, fjør,
Fremd og atgjørfid ríkt,
Daudans þá adslaug ør,
Allt vard hér skugga líkt.

En Dygdar ímind blíd
Æ lifir mønnum hjá;
Hún skein, en ljómar lýd
Legstad Gód = kvendis á.

Til minningar ástkjærri Mágkonu setti

M. Stephensen.

---

## Grafskrift yfir Chirurg Jón Pétursson, (sjá Minn. Tíd. 3. B. bls. 122.)

---

Hér er leiddur
Handlæknir frægur
**J ó n P é t u r s s o n,**

Madur
Skarpvitur, mælskur, lærdur.
Handgenginn í náttúrunnar
Helgidómi.
Hans kallan og hans vidleitni var:
Ad lengja manna líf,
Ad leggja þeim líkn í þjáníngum.
Ad breyta kránkdæmi í heilsu.
Ad vinna frá daudanum menn fyrir
Födurlandid
ellegar
Ad mýkja þeim adkomu hans.
Midt í þessari loflegu ydju sofnadi hann loks
Sjálfur daudans lánga dúr
Nálægt sjøtugs aldri
Þann 9da Október 1801
Ad Reykholti.
En — Island mun lengi hans mentir trega.
Til miníngar setti
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Madame Þorbjørgu Jónsdóttur.
(sjá Minn. Tíd. 3. B. bls. 253.)

---

Hér hvílir
Hid daudlega
Þeirrar
Ad Gudrækni, Dygdum og Kvennlistum

Nafnfrægu Prófasts-innu,

# Þorbjargar Jónsdóttur,

sem

Eptir frekra 46 ára dygdugt líf,
rúmra 13 ára lukkulegt hjónaband,
Deydi á Stadastad,
þann 10da Októbr. 1803.

---

Hún var
Mikil Merkis-kona,
Kunstir þær, er kvennmann prýda,
hafdi hún á hárri trøppu,
Sem Manneskja, Kristinn, Ektamaki,
Módir og Húsmódir,
Óneitanlegt afbragd flestra,
Í einu ordi:
Føđurlands og Frænda Sómi.

Þessi sanna og verdskuldada Grafskript
var henni sett af
Miklum Søknudi.

# Ljódmæli,

vid Grøf hennar ad Stadastad, þ. 18 Okt. 1803.

---

Lagid: Sjádu, madur! sem hér stadar nemur.

1.

Svona daudinn svíptir øllu af foldu,
Svíkist ei hid ypparlega vid,
Allt, æ allt skal aptur verda ad moldu!
Er þad lagt á gjørvallt Mannkynid.

2.

Heyrid þér! sem hérna framhjá farid,
Og hennar dygda þekktud nokkur skil,
Hermid mér og hræsnislaust nú svarid,
Hvar var stærri merkis-kona til?

3.

Víst mun einginn voga því ad neita,
Er vill af hjarta tala sannleikann,
Ad hennar maka lengi megum leita,
Lukka, ef vér gétum fundid hann.

4.

Gudhrædd, dygdug, gódhjørtud vid alla,
Gáfum miklum prýdd og skynsemi,
Ad forstandi' og fyrirsjón mun valla
Fundist géta hennar jafníngi.

5.

Hvad mun þurfa hér um margt ad greina,
Hennar dygda mannelskufullt þel,
Lét þad vera yndi sitt hid eina,
Ad hún gjæti reynst sem fleirstum vel.

6.

Æ! fullsæl! í Engla hafin bygdir,
Eymdum svipt og gjørvalls heimsins pín,
O! hvad margir elska þínar dygdir,
Æ! hvad margir vidkvæmt sakna þín.

7.

Ekki par þar um þó megum mæla
Missir þinn hvad biturt hjørtun skér,

En hafðu þökk af hjarta, þú fullsæla!
Fyrir hvað þú varst og vildir vera mér!

8.

O! sá þánki upplífgar vor sinni,
Og þinn huggar sérhvørn ástvin enn,
Sem ángrast, stynur útaf burtför þinni,
O! þá gledi: ó! við sjáumst senn!

M. S.

---

# Saknadar-stef

eptir

bygdaríkustu Móður

## Frú Sigríði Magnúsdóttur Stephensen,

af M. St.

(sjá æfiminníngu hennar bls. 19).

1.

1. Hrellíngarfyllsta árum af
Atjánhundruð og sjø! hvørs heiti
Og saga verøld víðbjóð gaf,
Þú vaktir sorg í hvørjum reiti.
Tendradir stríðsins bál og blossa
Burtrændir lífi, eign og frið',
Létst blóð og tár um lønd útfossa,
Ljómandi bygð ei hlífdist við.

2.

Mér varstu staklegt mæðu-ár,
Meðal óvina fánginn leiddir,

Móður hjartkjærrar missir sár,
  Mestri þá lífsins heill mig sneiddi.
Þér var ei nóg mig hriggt að hafa,
  Horfna lands prýði hvørr einn fann,
Þá beygðann sorg á barminn grafar,
  Þess besta drógstu Yfirmann.

3.

Með øllum Dætrum Íslands
  Ágjætast blóm, sem var að finna
Iminð bygðar og Kvennakrans,
  Kórónа þeirra, gleðin hinnar,
Sigríður Magnúsdóttir má
  Mønnum í bráð þó sýnir feli,
Sem munstur lengi mørgum hjá,
  Margblessað lifa í ástar = þeli.

4.

Sullsæla Móðir! hvað er hér
  Við himin líkt og þína gleði!
Þú eptirdæmið øðrum lér
  Eins taka stríðu jøfnu geði,
Að óttast Guð og elska bróður,
  Óvinar gleyma heipt og slægð,
Aðstoða veslann, øllum góður,
  Unna dygð, sýna breiskum vægð.

5.

Samboðin dygðum sælan há,
  Síðar ef liðnum veitist góðum,
Þín hvørsu vegleg vera má,
  Verðugast dæmið Íslands sljóðum!

Hvør þess dóttir þinn legstað lítur,
Laungunarfull, sem þú að fá
Søknuð Føðurlands, sú er hlýtur
Sem þínar dygðir stundar á.

6.

Þøkk, Móðir besta! þér sé téð,
Þínum af vinum, ætt og landi!
Þín lifi dygða minníng með
Miklum og veslum óglеymandi!
Þú hrelltir fyrst við dánar dægur,
Dýrðar kjørin að þyggja hnoss,
Vér huggumst, þegar fegins frægur
Fundur á hæðum veitist oss!

7.

Þú bendir, Móðir! veljið veg,
Vinir! sem gékk eg, lífs um slóðir,
Ráðsvinnir, gjæfir eins og eg,
Øllum saknaðir, vyrðtir, góðir!
Heill veri þeim er heim svo kveður!
Heill þeim, er frelstur segja má:
Hér er eg, Drottinn! hóp þeim meður,
Sem heiløg gaf mér þín Forsjá!

---

Grafskrift yfir Frú Mørthu Maríu Stephensen. (Sjá æfiminníng Amtmanns Stephensens blſ. 9.)

---

Hér blundar ágjæt Høfðíngs kvinna
Frú Martha María Stephensen

Fædd þann 17da Nóvembris 1770
Gipt þann 10da Júnii 1790
núveranda efsta Assessori í Íslands konúnglega
Landsyfirrétti og Matricul Commissario
**Stepháni Stephensen.**
Tíu barna besta Módir.
Dreyd þann 14da Júnii 1805.

---

Kona gáfud og góð. — Greind þolinmód. — Reynd ad rádvendni. — Rík af kvenn-dygdum. — Harmdaud húsi sínu. — Bónda og børnum — Vinum og vandamønnum. — Aumum og einstædíngum. — Øllum gódum, er Hennar dygd þekktu. — Síns stands og kyns og sinnar ættar sómi.

---

Hér burt er lidid ljós — sem lýsti foldu á — Hér felst uppfølnud rós — Frú, hvørrar kvenndygd há — skal æ med lýdum lifa — lifendra þøkk og lofstýr fá.

Til minníngar ástkjærri Mágkonu setti

**M. Stephensen.**

---

Grafskrift yfir Chirurg Hallgrím Bachmann (sjá Æfim. Amtmanns Stephensens blf. 34.)

---

Hér er leiddur Høfdíngs madur
**Hallgrímur Jónsson**
Heitinn **Bachmann**

Fæddur 22ann Marts 1739.
Dreudur 20ta Marts 1811.

---

Fyrsti Landlæknir Fósturjardar,
Um fjóra tugi og fimm ár betur.
Madur trúrækinn, tryggur, gódgjarn,
Vitur, hreinskilinn, valinkunnur.
Læknir heppinn og líknarfús.
Raunbest, örlátt, rausnar = menni.
Sjúklingum vída saknadur Fadir.

---

Pá Eyr[1] vid Backmanns leidi leit
Landsbúa sorg, hún dauf í bragdi,
„Ristid á stein: ad vart eg veit
„Vinar ad fylla skard," þeim sagdi,
„Launid, ef eignist líkann Hans,
„Lækning og ástúd betur enn Honum!"
Dygd og Gratiur[2] gáfu ans:
„Gledirik á Hann laun í vonum!"

Svo setti ástfólgnum Vini
M. Stephensen.

---

Utleggíng Stipt-Prófasts A. Helgasonar lat. graf-minníngar yfir Stiptamtmann sál. O. Stephensen, (sjá æfim. hans bls. 49.)

---

Felst hid daudlega
Í fjölum þessum

---

[1]) Eyr nefndist Lækninga Gydjan á nordurlöndum. [2]) Gratiur kallast Þokka-Gydjur, sem ráda gédþekkni, vinsemd, gódsemd og snilld-

## Ódaudlegs Herra
# Olafs Stephensens
Sem fæddist 3ja Maji 1731,
Deydi 11ta Novembr. 1812.

Mann, af Foreldi
Medal-stéttar
Borinn, verdleikar
Báru til valda
Ædstu tignar,
En Hans gáfur,
Líf og sidgædi
Þó litust ædri.
Um nádu, keppa
Náttúra og Gjæfa:
Hver veitt fengi mest
Honum ágjæti.

Aldrei munu linna,
Allir gódir
Öldúngs lofstýr
Uppi' ad halda.
En, varist Brædur!
Af bresti hyggju,
Svo mikils lof
Manns ad rýra,
Verdur uns borinn
Sá verdleik ad
Lofa má Hann
Hvers lángt mun bída.

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Vigfús Sýslumannn Scheving,
(sjá Klp. 1818 bls. 13.)

---

Hér undir geymist
Höfdíngja Prýdi
Valdsmadur Konúngs
**Vigfús Scheving**
Fæddur 15da Januarii 1735
Sýslumadur í Vadla og Hegraness

Sýslum í 30 ár.
Giptur árid 1760
Aunnu Stephánsdóttur.
Hann deydi í Videy
Þann 14da December 1817
Þá sex Barna besti Fadir
En Barnabarna ordinn Þriggja
Yfir Tuttugu Afi frægur.

---

Þó manna fegurd, fjør,
Fyrirtak, vøldin kjær,
Daudans þá ad fer ør,
Odt lídi minníng fjær,
Vigfúsar aldir yfir
Lifa mun dygd í landi skjær.

Ástkjærum Tengdafødur sett
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Hans Stephensen, (sjá Klaustp. 1819 bls. 47.)

---

Hér felast leifar
Følnadrar æsku
Háns's Stephensens
Amtmanns sonar
Sem fæddist 23ja Septembr. árid 1809.
Deydi 31ta Janúarii 1819.

Fridur var hann sýnum
Frábær ad náms gáfum
Greind og gódri stillíngu
Hvørjum manni hugljúfur.
Hann vard því sárt
Saknadur af ástvinum.

---

Æskublómid, eldra likast lýtur
Lágt ad grøf, þá daudans sigd þan skér.
Eins manndómur elli beygjast hlýtur,
Allt því stundlegt hvikult reynást fer.
Sæli bródir! sællar Dóttur minnar,
Svip þú barst og gáfna líking hér,
Senn mun ykkur sælt Foreldri finna,
Sæl fullkomnan hvar og eilíf er!

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Cancellieráð Vigfús Thorarensen,
(sjá Klp. 1819 bls. 79).

---

Hér moldin hylur Hjúp eptir leifdann
Vegsamlegs anda,
**Vigfúsa Þórarinssonar**
Cancellieráðs og Kongúngs Valdsmanns,
Røksamlegasta í Rángár þingi
Um ár þrjátíu, í Kjós um níu.
Af þrettán børnum undan farin

Sjø fagna Fødur á fegins landi.
Sex med Frú Módur mjøg hér trega
Ástvin bestann, yfirmann syslur
Vitrann stýrir, voladir huggun
Vin traustann vinir, vandamenn adstod.
Deyr aldrei dygd, þó deyi fjør.

---

Sextíu og þriggja søddum ára
Sig honum æfinnar sunna fól[1]
Vid endalok Hátídar upprisu Krists
Reis upp skjærri sól í réttlátra bygd.

Svo minntist merkis frænda
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Cancellierád Steindór Finnsson, (sjá Klp. 1819 bls. 159).

---

Leiddur er hér frægur løgvitríngur
Steindór Finnsson
Cancellierád og Kongs Valdstjóri
Árnesínganna um ára skeid
Freklega eitt og fjørutíu
Á æfi sjøunda yfir tigi sjø
(26ta Aug. 1819).

---

1) Þann 13da April 1819.

Bjó þar vitur Andi
í bestu høfdi.
Rádvandt, gott hjarta
Rédi brjósti.
Fór gjætinn Andi
Yfir foldar ment,
Rádhollur kénndi
Hvad réttast fann.

Fól heimfús Andi
Foldu sinn ham,
Eptirøld minníngu
Æfi dáda.
Flúdi spakur Andi
Frá heims volki,
Alíkt Astræu [1]
Til upphæda.

Søknudum ættbródur settí
Dr. M. Stephensen.

---

Eptirmæli Síra Jóns Þorlákssonar, (sjá Klp. 1819 bls. 192.)

1.

Hví mun skjærast Hana = þagnad=gal?
Svans ei framar saungvar fagrir hljóma?
Suda taka hásir Gjæsa = rómar?
Íslands Milton ørendur nú skal.

2.

Klopstokks, Pópa, Tullins Túlk, sem laung

---

[1]) *Astræu* dýrkudu Grikkir, sem réttvísinnar Gydju, søgdu hana dóttur Júppiters og Themidis, en senda ofan á jardríki, hvar hún um gullaldurinn kénndi mønnum rétt og sanngirni, og reyndi til ad sætta allann ágreiníng manna á milli. Hún dvaldi lengst hjá mønnum af øllum Verndargodum þeirra, en — þegar sídir spilltust, héldst hún ekki lengur vid á jørdu, og flúdi upp aptur til himna, hvar hún nú ljómar — segja þeir — í Jómfrúar merkinu.

Messías og manninn um, en bædi
Maji-dag og Sæ-før, dýrdleg kvædi
Og daudans stríd vid dygd svo fagurt saung.

3.

Dumba geymir døpur grafar þró.
Hann, sem glæstum svo vel blómstrum sádi
Sængum hjóna, leidin gøfgra, pádi
Blómstur-lausann bed og hvíld í ró.

4.

Einginn saungva Engla kvad sem hann,
Enginn flaug svo Arnar léttum fjødrum
Eptir slíkum, né med gódum ødrum
Drótt svo skémta dægrin stytta vann.

5.

Minníng helstu merkis-skálda lands,
Byrdíng hverr einn verdskuldadri sæmi!
(Verk øll mildur Gud og Fadir dæmir).
Hér mørg Skáldi heidurs flétti krans!

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Jónas Stephensen, sjá Klp. 1820. blf. 104.)

---

Hér er jardadur
**Jónas Stephensen**
Amtmanns Sonur, á æsku vori
Fæddur 4da Júníi 1814, dáinn 22. Maji 1820.

---

Skjótt sálar Jónasar skýlis lundur
Visnadi, en skjótt vænni upp-rann
Í höndum Födurs og himin-vistum.
Alfadir leit ófgódann Jónas
Hér á jörd velkjast, heim tók Barnid
Baud því dýrdlegri bygdir kanna,
Himneska frædi á himnum nema
En heims af vömmum hreinni sálu
Födur helgum skila og fagna skiptum.
Sofdu vært, Bródir! sjá þig aptur
Sælir vinir senn sælann Engil.

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Stephán Bjørnsson Stephensen.
(Sjá Klp. 1820 bls. 183.)

---

Barn hér í Módur blundar skauti
S t e p h á n S t e p h e n s e n
Sonur B j a r n a r Sekretéra
Fæddur 22ann Maji 1815, dáinn 4da Okt. 1820.

---

Litli Bródir! lífs er unnid stríd.
Sæll þinn Andi, heims frá raunum hafinn.
Hér býr sorg, en þú ert gledi vafinn;
Upp Þér runnin eilífd fögur blíd.

Heims úr reitum horfna Plöntu þá
Hví skal syrgja? hér var blómid þrúngid

Hennar æsku; nú til fulls útsprúngið
Blómstrar plantað betri hnetti á.

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Madame Önnu Stephánsdóttur.
(Sjá Klp. 1820 bls. 184.)

---

Hér blundar Høfðíngs Kona
Valdsmanns Ekkja Vigfúsa Schévíngs
Anna Stephánsdóttir
Fædd 15da Dec. 1729, dáin 30ta Okt. 1820.

---

Móðir søknuð; Móður-jarðar rós;
Prýði kvenna; dæmi fagurt dygða;
Dáð og gáfum rík; til sælli bygða
Heimfús, þángað leið á burt, sem ljós.

Syrgjum ei þann sælu vinníng meir!
Hún í gleði hafin sorgir yfir;
Hún í Niðja minð og dæmi lifir.
Hennar minníng heimi seint því deyr.

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Amtmann Stephán Stephensen.
(sjá æfim. hans bls. 37—9.

---

Galdt skuld Móður
Í gjald-daga settann

Íslands Vestur-Amts
Yfirstýrir
# Stephán Stephensen
Fæddur 27da Dec. 1767, dáinn 20ta Dec. 1820.

---

Ekta-frúm tveim ástríkur maki,
Børnum þrettán bestur Fadir,
Edla mannvinur, ørmum stytta,
Amts-búa traust, ættjardar prýdi.

---

Sæli bródir! sár er missir Þinn.
Ættmenn, Vinir, Aumir, hans vid bodin
Otal tveina: mín féll gæfu stodin!
Hverr nú strýkur harma-tár af kinn?
Gáfna snilldar, gjæðsku, dygda ljós
Þitt skal gégnum grímu daudans skína,
Gardars-hólmi blessa Minning þína,
Þér ei deya Þjódar skilid hrós.

Elskudum Bródur sett
M. Stephensen.

---

Vers súngid vid jardarfør hins sama, (sjá Klp. 1821 bls. 20).

---

Þó feli mold vorn Fødur blída,
Og fljóti tár um legstad hans,

Dygd Hans í minni lifi lýda
Lód medan byggist Íslands!
:,: Hans úngur safna' og eldri má
Ó! ad Hans Líkann fengjum sjá! :,:

---

## Sorglegur ársdagur, 3ji Jóla 1820.

Afmælisdagur minn og Bródur míns,

### Amtmanns Stephensens,

þá liggjandi á Líkbörum.

---

1.

Lýsir dagur lífsins fyrstur minn,
Upphaf hvers var eymdar vein og grátur,
Ei fullordnum nokkur bodar hlátur.
Eg, med Vitring, „allt hér skaparinn fann."

2.

Árs sá dagur ádur gaf um hríd
Yndi mér af elskuverdum Bródur,
En sá hneig í skautid vorrar Módur.
Angur grær um okkar burdar tíd.

3.

Hvad er lífid? hégómleikinn einn;
Sjónhverfíng og sálarkrapta leikur,
Sorg, armæda, bóla, hjóm og reykur.
Hverr þess frami? hann eg tel ei neinn.

4.

Æ! því leit eg' upp mér renna þann
Dag, sem gremju lífsins til mig leiddi?

Líf ad þekkja voldin dauð ei bindur;
Grætur sá ei gull, sem aldrei fann.

5.

Gull og líf ad gráta verdast er,
Því, ad fallvalt þeirra lánid bædi
Þekkja fengum, glis og tvísýn gædi,
En þeim tengdann eymda mikinn her.

6.

Ef sífeldt vid ánaud berjast skal;
Ef sig vit um endimerkur hrópar
Ært og hást mót heimskuparum glópa,
Ofund fellir afbragds manna val.

7.

Ef hér bygdin, ydn og hyggja má
Hatri, vélum, hrekkjum, lasti sæta,
Hugar-sorgum úr ein grösin bæta,
Hvert er lífsins helsta mæti þá?

8.

Var ei skárra, vika ei þar um heim?
Ekkért sætt og ekkért biturt smakka,
Engu kvída, né til betra hlakka,
Enn ad þjakast ángri og raunum þeim?

9.

Audar meldir ekkért skurla nær;
Anda' ei par, sem enga veru þádi;
Ofund, þjánjag, kvídi þeim ei nádi,
Ekkért raskad rósemd þeirra fær.

10.

Svæfa von um sælli ælífd fer,

Veröld þegar vill oss hrjá og kjæla,
Völ og gremja hugarværd burtfæla,
Misjöfn orka mönnum lént því er.

11.

Von, opt sávis, vissu samt ei gaf;
Und því reikar ótta og vonar milli;
Endíng rauna hvert að dauðinn fylli,
Fæst ei nokkur fræðíng dánum af.

12.

Ei samt stoðar ósk um veru þrot.
Ekkért skapað ógjört því má verða,
En sá þánki skal mót raunum herda;
Eilífs lífs vorn Andá gledja not.

13.

Hvað má blindud hyggja skynja manns
Hans um ráð, sem honum eilífð veitti?
Helgann vísdóm þann, oss gáfum skreytti,
Daufri líkíng skilníngs hæðar hans?

14.

Allt hvað sjáum, allt ber gjæðsku vott,
Allt um speki æðstrar veru hljómar,
Allt forsjónar mildu stjórn samrómar,
Allt hans ráð mun öllum verum gott.

15.

Hví þá möglum harmafullt við líf?
Augnablik mót eilífð vart má heita
Æfin lengst; oss benda raunir leita
Æðri Vonar eptir stundar kíf.

16.

Máské reynsla, margföld sorg og neyd,
Lækníng holl sé lasta skjædum meinum,
Særdóms skóli bestur, þúngt ef reynum,
Hédan búast heim og fagna deyd.

17.

Sá allt skóp best sjer þad hentar oss.
Ef í gladværd æfilángt vér sveymum,
Ottast er, ad bygd og skyldu gleymum,
Ædsta metum heims ódlæti hnoss.

18.

Sá oss lífid gaf þess setur skamt;
Lætur ørløg lífs á klippa þrádinn;
Lífs von betra gódum med hans nádin,
Lífs vid enda lífa býdur samt.

19.

Fyrst mér lífid, Fadir! gafst á jørd,
Lát mig raunir lífs ei yfirbuga,
Léttu sorga mekki' af kløkkum huga,
Traust á þér minn sterkann vera Børd!

20.

Halla Vinir; flýr oss Manna-val!
Sæll er hverr, sem vaknar heill frá veiki;
Vel lífs reynslu sorgarspil fékk leikid!
Æ! ad mitt ei endad líka skal!

21.

Bappi nokkurr Videyar um gard,
Yfir minu lágt sá tauti leidi:

„Laungu seinna, enn vildi, þessi deydi;
„Snatta-skiptum hann sár-feiginn vard.",

22.

„Lifs af þrautum lúinn værd hér fann,
„Tíd og þegnu trútt sá verja pundi
„Tilraun veika giørdi; bitrar stundir
„Ósund heim í umbun skapa vann."

23.

„Vegt sé hans um verk og hjarta dæmt!
„Lán er hvers, sem lengra komist gêtur,
„Land vort stodad, frædt og elskad betur,
„Lof á skylid lengur þjódar-rænt!"

24.

„Vegfarandi! ef vilt hans minning smá,
„Lát þig dæmin dádum frægri gêra;
„Dáins ordstýr þér fridhelgann vera,
„Legg Kjærminni[1] leidid helþur á!"

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Síra Bjarna Arngrímsson og konu hans, (sjá Klp. 1821 bls. 88.)

---

Hér hjón fengu til hvíldar gengid
Frá æfi laungu lífs og straungu
**Bjarni Arngrímsson**
Mela og Leirár Merkis-prestur
Fæddur 1768, Prestvígdur 1796

[1]) Blómstur — voru máli: Gleymdu mér ekki.

Og góðfræg Húss-frú
**Guðrún Sigurðardóttir.**
Sáluðust hæði 7da Apr. 1821.

Ráðvands og Mennta-manns
Minning ei deyr ald hjá;
Dygð, regla, hugvit Hans
Heiðra Framliðins má.
Börn Sókna beð Hans yfir
Skulu blessunar blómstrum strá.

M. Stephensen.

---

Grafskrift á steini yfir Sálmaskáld Hallgrím Pétursson, (sjá Klp. 1821 bls. 204.)

---

Lét stein þenna Landshøfdíngi
Sárast saknaður — hverr sannri trú
Af alúð unni — ættmenn rista
Eptir sinn dag að øldnum moldum
Háleits Sálma-skálds
**Hallgríms** frægs
Saurbæar Prests **Pétursonar.**

---

Lifi Beggja Minníng í landi blessuð!
1821.

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir óskírðan sonarson, (sjá Æfim. Frú Sigr. St. Stephensen bls. 8.)

---

Felur hér grøf hjá Fødur-systur
Onefndann Son
**Olafs Stephensens**
(Candidati Júris)
Fæddann og dáinn 15da Dec. 1821.

---

Leit varla vid jørd, ádur líkams bøndum,
Fleygdi frelsud Sál; flýtti sér heim.
Er hún sæl algjørd í Alfødurs høndum.
Engla nemur mál, Engill med þeim.

Þá Minningu setti Afinn
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Gudbrand Apóthekara Vigfússon,
(sjá Klp. 1822 bls. 168.)

---

Hér geymast moldir Søfugmennis
**Gudbrandar Vigfússonar**
Apóthekara.
Hann fæddist 26ta Augústi 1772.
Vard Apóthekari á Islandi 27da Jan. 1801.
Giptist 1802
Jómfrú Jóhønnu Sophiu Petersen.
Deydi 14da Septembr. 1822.

---

Lét Sonum samblanð Læknis efna.
Líkn og grandvart líf á jørdu,

Hyggid, gott hjarta og hugljúft geð,
Veglegann týr Valmenni leifa.

Svo setti

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Jónas Thorstensen, (sjá Klp. 1822 bls. 187.)

---

Lýsti skamma stund — lífsins stjarna
Jarðar á hnetti
Jónasi Thorstensen
Lands-læknis Syni
Leid hrød undir
Upp hún rann Augústí 23ja } 1822.
En 6ta Nóvembr. sýnir fól

---

Drottinn baud: minn flýdu, Jónas jørd!
Jeg Þig kveð til Engla hirdar minna!
Er mitt Rikid erfdin líka Þinna.
Bestan Þinn mig vita skalt Þú Vørd!

Setti

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Steinunni Helgadóttur Thordarsen, (sjá Klp. 1823 bls. 65.)

---

Felur mold fagur-borið

Eftir blóm úti vort sprúngid
Steinunnar Helgadóttur
Saurbæar Prests Thórdarsens
Fæddrar 23ja Augústi 1822
Dáinnar 23ja Janúarii 1823.

---

Hér Haust-rósar Vetrar-grøstur vann
Følva blómid, fjørid reise dofa.
Fegri þessi Rós skal eilíft lofa
Vor, sem Hún í verøld sælli fann.

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Amtmann Stephán Thorarensen, (sjá Klp. 1823 bls. 67.)

---

Hneig ad grund
Høfdíngi frægur
Vid bráda komu bana-stundar
Íslands Nordur-Amts
Yfir-stýrir
Stephán Thorarensen
Conferencerád; Riddari af Dannebroge.
Fertugur Amtmadur, fátt í tveim mánudum.
Løgmadur og Vice Løgmadur í 10 ár,
Fæddur 1754, Dáinn 12ta Marts 1823.

---

Ekta-Frú bestri elskadur maki.
Atján Børnum ástríkur Fadir.

Vitur, stjórnsamur, valinkunnur.
Ættjardar sinnar og ættar prýdi.

---

Svo burthverfa vegsemd, audur, völd!
Gröf allt hjúpar — Gódra leidum yfir
Grær lofstýr og minníng báda lifir.
Þær vid æfi-þekkjast hjósar-kvöld.

Syrgir Themis, saknar Ætt og Land,
Hverr má Þessi þessja framri blóma?
Hinni jafna lotníng vigna' og sóma?
Betur heidra Stepháns Nafn og Stand?

Heidrudum Svila setti
M. Stephensen.

---

Grafskrift á látínu yfir Biskup Geir Vídalín, snúin á íslendsku af Adj. Svb. Egilssyni, (sjá Klp. 1823 bls. 180).

---

Mausoleo carentes.
Polyandrio Templi hujus cathedralis
Mortales concreditæ sunt reliquiæ,
Viri immortalis
GEIRI JONŒ VIDALINI.
Equitis aurati ordinis Dannebrogici.
Episcopi totius Islandiæ.

---

In Cujus
Ingenii dotibus probitate liberalitate
Humanitate comitate
Animi sub qvâvis sortis vicissitudine æqvitate,
In muneribus gerendis dexteritate
Quam maxime præcellentibus formandis
Natura religio et studium
Concertaverunt.

---

Natus die 27. Octobr. 1761.
Sacerdotio initiatus 1791. Episcopatui 1797.
Obiit die 20. Septembr. 1823.

---

Præter Viduam unumqve Filium superstites
Nomenqve sempiternum præclarum desideratum
Parum relinqvens
Multis ille bonis flebilis occidit.

*Tale Amico monumentum posuit.*

M. Stephensen.

---

Í Dómkirkju þessarar daudra reiti
Geymir mold það er Marmari skýldi
Leifar dauðlegar lofsælasta Höfdíngja
Geirs Jónssonar Vidalins
Riddara Dannebrogs-Orðunnar
Biskups alls Íslands.

---

Sá hafdi frábærar sálar gáfur
Góðmennsku staka og gjøfula hønd
Manngæðsku mestu og mannblíðu,
Hug hógstilltastann í hrigd og gledi
Sérlega lagkjænsku í sýslu størfum
Náttúra Trú og nýtar mentir
Hér nádu keppa hver vid adra
Mannkosti þessa ad minda svo
Ad þeir áfbragd mest annara væru.

---

Hann fæddist dag 27da Októbr. 1761
Vígdist til Prests 1791, til Biskups 1797
Deydi dag 20ta Sept. 1823.
Og lét sér annad lítid eptir
Enn Ekkjufrú þreyandi og einn Son
Og ágjætt nafn það er æ mun vera
Øllum eptirsjá.

**Sá vard mørgum gódum mønnum harmdaudr.**

Þetta minnismerki setti vini sínum.
**M. Stephensen.**

---

Ísl. útlegging lat. grafskriftar Stiptprófasts Á. Helgasonar yfir Geir Biskup, (sjá Klp. 1823 bls. 162).

---

Dróg fyrir ljós daudans grímu
Það leid frá jørd enn ljómar í hædum
Vid besta høfdingja og Biskups fall
**Herra Geirs Jónssonar Vídalíns.**

Riddara af Dannebrogen
Og Biskups yfir Islandi
Hann fæddist þann 27da Októbr. 1761
Vard kalladur til Dómkirkju-Prests í Reykja-
vík þann 8da Januarii 1791
Giptist nú eptirþreyjandi Ekkju-frú
**Sigrídi Haldórsdóttur**
Þann 25ta Júlii 1792
Vard Biskup Skálholts Stipt. þ. 10da Maii 1797
Vígdist á Hólum þann 30ta Júlii sama ár.
Alls Islands Biskup þann 2ann Okt. 1802
Riddari af Dannebrogen þ. 28da Okt. 1817
Eptirlét einn lifandi Son
Og deydi 20ta Septembr. 1823.

---

Valmenni gafadur vitur fródur
Hógværdar dæmi og hjarta gædsku
Islands sómi allra hugljúfi
Øllum harmbaudur annan Fadir.

---

Hans jafnoka hvar má líta meir?
Hvar Hans gáfna, gædsku, lundar-blídu?
Gladværd jafna láns vid heill og strídu?
Hvørr skal fylla eptir Góda Geir?
Horfins sýnum Hans ei Minning deyr,
Lifa skal um Land vort dygda fagur
Lengi týr; uns þrýtur øldum dagur,
Þeim skal lýsa dæmid: Gódi Geir.

Svo setti søknudum Fornvini
M. Stephensen.

Grafskrift yfir Jónas Thorsteinsen, (sjá Klp. 1823 bls. 188.)

---

Birtist í Nesi ný blómprúngin jurt
Blés andi Drottins; hún visnadi burt.

---

Í Videyu blundar vid Brødurs hlid
Jardadur Ungsveinn
Jónas Þorsteinsson,
Land-Læknis Sonur
Borinn 9da, burtlidinn 14da Októbr. 1823.

---

Fædíngum tvennum fagnar ønd,
Og følnad Lík ad moldin geymi;
Vid Módur legs fri og Líkams bønd
Leitar hún sæl í betra heimi
Hún vid fimm daga færra tøf
Fullsødd lífs daurfann hér ad flóda.
Sér ljóma fann fyrir handan grøf
Fagrann eilífdar Morgunroda.

Setti

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Steinunni Helgadóttur Thordarsen, (sjá Klp. 1824 bls. 15.)

---

Ný sást í Saurbæ seytjánda Decembris
Glærum lífs út skjóta geislum stjarna
Steinunnar Helgadóttur

Prests Thordarsens.
Undirrann náføl eptir viku.

---

Lífs þó slokni log, hold fadmi grøf,
Engil hreinni Ondu morgun-ljóminn
Eilífs heilsar lífs og sælda blóminn.
Hún var sæl, ad hér fékk stutta tøf.

Setti

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Frú Ragnheidi Schéving, (sjá Kpl. 1826 bls. 161.)

---

Fyrirtakid Kvenna og Frúa Prýdi
Ætt-jardar sóminn Aumíngja styttan
Frú Ragnheidur Olafsdóttir
Schéving
Fædd Stephensen
Þann 29da September 1774.
Gipt núveranda Cancellírádi
Og Sýslumanni í Borgarfjardar Sýslu
Jónasi Schéving
Þann 29da September 1804.
Vard sjálf ei Módir, en samt mørgum
Munadarleysíngjum Mædrum betri.
Andadist Martsí mánadar fyrsta. (1826)

---

Hennar gáfur og hjarta-gjædska,
Húss-stjórn, ástúd vid Ektamaka,
Aattrækni, Trygd, Örlæti, Blída,
Módurleysíngjum Módur fóstur.
Mannúd stök og Menta snilli,
Færsta líka finna í Födurlandi.

---

Fóstur-jörd! þín falla dýrust blóm.
Fátt er leift af Frúm svo kosta-ríkum.
Fátt hér grær af Liljum þeirra líkum.
Þú ert rúin — þegar audnin tóm!
Ljós hér sloknad ljómar fagrast þar,
Dygd frábær hvar dýrri umbun krýnist.
Dætrum lands ei Leidar-stjarnan týnist:
Frúa Munstrid Frú Schéving, sem var.

Ástkjærri Systur setti

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Mørthu Maríu Olafsdóttur Stephensen, (sjá Klp. 1826 bls. 164.

---

Haust-lilja spratt á Hólmi innra.
Fögur sýnum, frábær ad edli
Martha María Stephensen
(Fædd 12ta Októbr. 1824).
Vard sú gródursett ad Videyar Klaustri (1825).
Á Hana blés þar Andi Drottins

Vöknadi því upp á vori lífsins
Fékk vetrarværd (16. Sept. 1826) svo veglegri birtist
Ad endurlífgunar alheims Vori.
Syrgja Foreldrar, sakna Frændur
Svo vonarfullrar og vænnrar liljn
Huggast um skammt ad Hennar fundum.

Allt lif jardar um-mindunar bídur
Orma-fjøld, sem þúngt um duptid skrídur,
Fleyg ad vori hefur sig í hæd,
Følnada þó foldin Lilju geymi,
Fegri hún í sæla blómstrar heimi,
Prísar lausn og líf af innstu æd.

Svo minntist kjærrar Sonar-dóttur Afinn

M. Stephensen.

Grafskrift yfir Frú Sigrídi St. Stephensen,
(sjá æfiminníngu hennar bls. 19.)

Blundar hér vært í bedi grafar
Frábært Kvennval, Frúa Prýdin
Sigrídur Stephánsdóttir
Stephensen
Ekta-Frú Vice-Jústits-Sekretéra
Olafs Stephensens
Honum gipt 21ta Júnii 1819
Fædd 30ta Aug. 1792.

Ořend Lann Nóvembris 1827.
Fjøgra Barna mætust Módir.

---

Módir aumum Sins Maka yndi.
Af gáfna snild gjædsku dygdum,
Trygd lofsæl og trúar-rækni.
Attar, Hjúa og allra gledi.

---

Hjartkjær Dóttir! Himins besta gjøf!
Þinn um legstad lengi tár mun flóa,
Lofstýr fagur Þína' um minníng' gróa,
Þúsund trega Þína stuttu tøf.

Engill komstu, Engill kvaddir jørd!
Huggast Ekkill, Børn og beygdur Fadir,
Bygd í hæda senn Þér føgnum gladir,
Þar samtaka sýngjum þakkargjørd.

Hjartkjærri og sártsaknadri Tengdadóttur setti
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Þorvard Stephensen.

---

Hér er lagt hold
Lengi þjakad
Edla Ynglíngs
Amtmanns Sonar
Þorvardar Stephensens
Sem fæddist 24da September 1812.

Deydi ad Nesi 1ta Nóvembr. 1828.
Hoskur Lærisveinn
Háskóla Sóreyar
(1826 — 27.)

---

Med Honum sofnadi
Seinust von
Mæddrar Módur
Um Afsprengis yndi
Hvarf úngt Ættar=blóm
Ynglínga Laukur.
Fólks hugljúfi
Foreldra Gledi.

---

Fellir Vetur følnud blómstur lands,
Felur líf — sem Vorid nýtt framleidir,
Fegurd, yndi sprúnginn út þá breidir
Endurgéfinn glæstur sigur=krans.

Jóstri kjær! Þig felur Vinum Grøf:
En þig sælann dýrdlíng Frændur finna,
Fyrr' enn varir leita bygda þinna,
Forsjón prísa, fagna lausnar gjøf.

Ástkjærum Bródursyni og Fóstra setti

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Brynjólf bónda Teitsson.

Hér liggur grend
Akranesś Prýdi
Dáinn Dánumadur
**Brynjólfur Teitsson**
Hann fæddist 19da Aprílis 1787
Giptist 23ja Maii 1811
**Margrétu Brandsdóttur**
Og vard med Henni ellefu barna Fadir
Andadist lángþjádur ad Ytrahólmi
Þann 25ta Augústi 1828.

Ætt afsprengi unnurum bygda
Sjálfur prýddur sálar adli
Sérlegri trúmennsku og sannri dygd
Lengi saknadur Laukur bygdar.

Svo þitt, Fóstri! æfi-glas útrann
Þrúnginn mædum, dymmur settist dagur,
Dýr kvöld-rodinn vonar skein Þér fagur,
Sál uns frelsud hvíld og huggun fann.

Þitt trúlyndi, þína stöku dygd,
Lætur umbun ljúfur Gud ei þverra.
Leiddann inní fögnud, dýrd Þíns Herra,
Setur yfir ædra' í Sælla bygd.

Svo minntist Hans Fósturs-sonar
M. Stephensen.

## Grafskrift yfir Laurits Knudsen.

Her gjemmes Støvet
af
**Laurits Knudsen**
Borger og Kjøbmand
I Reykevig
Født den 29de Januar 1780
Givt med Margrete Anne Holter
I 18 Aar og med hende 11 Børns
Omme Fader
Død den 4de Augusti 1828.

---

En agtværdig Mand og Borger
Kjærlig Ægtefælle og Fader
Troefast Ven, Nødlidendes Trøst
Virksom, opbyggelig, godhjertet
Og almindelig savnet Mand.

M. Stephensen.

---

## Grafskrift yfir Jómfrú Haldóru Sveinbjarnardóttur í nafni unnusta hennar Einars bónda Gunnlaugssonar.

Føgur Rós
Følnud Lilja
Liggur hér Lík

Við Leirár Kirkju
Haldóra Sveinbjarnardóttir
Fædd 13da Augústi 1803
Dreud 10da Nóvember 1829.

---

Horfið brúða blóm
Besta hjarta
Ímynd dygðar
Allir trega
Allra unun
Unnustu trygga
Allra sárast
Unnusti grátinn.

(Einar Gunnlaugsson.)

---

Grafskrift yfir Sigríði Olafsd. Stephensen.

---

Liggur hér følnud
Lilja í grøf
Utsprúngin 5ta Augústi 1830
En í árs lokin áburt visnud
Sigríður Olafsdóttir Stephensen.

---

Frum - gróði Móður
Foreldra Yndi
Sem vonar fulla
Syrgja látna Lilju.

---

Upprann Stjarnan allføgur oss nærr',
En fljótt þokan hennar loga huldi,

Hún burtleið og mönnum fýnir duldi,
:,: Himinbúum birtist ljóma-skjær. :,:
Lífs við meinum lækníng bestu fann,
Alfædd lífs til ædra, sæl framgengin,
Eilíf mentan hvar og tign er fengin,
:,: Sigriður og sigurkransinn vann. :,:

Svo setti Afinn
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir H. L. A. Ulstrup.

---

Reykevigs Kirkegaard gjemmer
En forhen yndig Lilje
Fremspiret af en ædel Stamme paa Dansk —
Derefter omplantet paa Islandsk — Bund
og der henvisnet i det andet Aar
Det Forgængelige nemlig af
Frue Assessorinde
Hedevig Lovisa Augusta Ulstrup
Født Lerche.

---

Hun var født i Friderikeborg den 16de Junii 1802
Givt der den 6te Junii 1828 med
Krigs-Assessor Landfoged i Island
og Byefoged i Reykevig
R. Chr. Ulstrup.
Døde i Reykevig 23 Dage efter Sin

anden Barsel-Seng
Den 13de Marts 1830.
Efterladende
En dybtsørgende Ægtemand og tvende
spæde Døttre
Panter paa deres trofaste Kjærlighed
Fra Begges første Ungdom af
Samt
Et almindeligt Savn og Sorg i alles Hjerter
Som kjendte Hendes mange Dyder
Hendes ædle blide
og goddædige Hjerte mod alle.

---

Saa Livets Glæder bradt forsvinde,
Paa Faders Bud, som os dem gav!
Henfarne Venner vi gjenfinde —
O! søde Trøst! — bag Død og Grav,
:,: Hvor Dyden høster Fryd til Løn,
Og straaler engle-reen og skjøn. :,:

M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Jómfrú Þórunni Oddsdóttur Stephensen.

---

Blundar í dymmum
Vedi grafar
Besta Kvennval
Blómin:: Meyja

## Þórunn Oddsdóttir Stephensen
Fædd . . . 17 . .
Prend 17da Nóvembr. 1831.

---

Fögur sýnum
Fegri ad dygdum
Blídlyndi gjædsku
Og brúda snilli
Sálar = adli
Og sinnis ró
Aumra stod
Ættar sómi.

---

Hérvistar þúng þó meinin mædi,
Margvísleg þjaki sorgin oss.
Á ædra hnetti eilíf gjædi,
Umbuna dygdar reynslu kross,
Hédan burthorfin, lýdi lands
Ljómar; á vissann sigur = krans.

Heidradri Frændstúlku sinni setti
M. Stephensen.

---

Grafskrift yfir Ragnheidi Hannesd. Stephensen.

---

Rósfögur Mey
Ragnheidur Hannesdóttir Stephensen
Fædd 15da Júlii 1830
Dáin 21ta Október 1832.
Grøf hér hlaut
Vid Garda Kirkju.

---

Frábær sál tjaldbúð
Fagra bygði
Vísir Gjæfu
Ef viðgáng fengi
En Unga Pløntu
Afsneið við rætur
Engill Guðs
Til eilífðar blóma.

Syrgja Foreldrar
Sofnaða Dóttur
Fagurt lán Drottins
Ur faðmi sér hrifið
Lof sé þess Gjafara
Lausn fyrir veitta!
Hann það óspjallað
Fékk endurnumið.

---

Foreldrar þeisk þó felli tárin
Framliðinna við Niðja grøf,
Góð læknar huggun sorgar sárin:
Senn finnumst vér með léntri gjøf;
:,: Herra lífs sýngjum hátt lof þá:
Hér oss, Drottinn! og børn vor sjá! :,:

Svo setti Afinn

M. Stephensen.

# Grafskriftir, Erfiljóð
og
# Líkrædur
eptir
Konferentsráð Dr. M. Stephensen
og
Hans Hásælu Frú
Gudrúnu Vigfúsdóttur Scheving.

---

Hic
Deposuerunt mortalia Viri immortalis memoriæ
**MAGNI OLAVIDIS STEPHENSEN**
Doctoris Juris
Justitiarii tribunalis Islandiæ superioris.
R. M. a consiliis Conferentiarum.
Qvi natus VIto D. a. Cal. Jan. Anno 1763
Matrimonium cum jam beata uxore
G U D R U N A   S C H E V I N G
IIItio D. a. Id: Sept: Anno 1788, iniit;
Ex qva tres suscepit liberos —
duo sunt superstites —
Obiit vero XVIto D. a. Cal. Apr. 1833.

---

Si genus, si vel civilem vel literariam
dignitatem qvœris:
Si ingenium, si generosum animum,
Si industriam, si opera spectas:
Haud facile parem invenies.
Sæculum tantum non dimidium
Publici muneris administratione explevit.
Rem literariam patriæ tueri et amplificare non desiit.
In suis studiis nunqvam cessavit.

Pater familias, si qvis, diligens,
Suorum magnum præsidium, exstitit.
Fortuna prospera uti scivit,
Qvæ si interdum adversaretur,
Movebatur qvidem, at non frangebatur.
Pietas, animiqve alacris vigor ægrum
sustinebant;
Benignitatis necnon liberalitatis
Multa exstant exempla.

---

Talem et tantum virum
Multi, dum vixit, suspiciebant,
Plures mortuum diu desiderabunt.

*Sic posuit ejus memoriæ*
*gratus cultor*
**A. HELGASON.**

---

Þessa Grafskrift íslendskadi Adj. Svb. Eigils-son þannig:

---

Hér er lagt hid daudlega látins Höfdíngja,
ódaudlegrar minníngar,
**Magnúsar Olafssonar Stephensens,**
Lærifødur í Løgvísi;
Háyfirdómara í Íslands Landsyfirrétti,
Konúnglegrar Hátignar Konferentsráds.
Hann fæddist 27da Decbr. 1762,
Kvongadist 11ta September 1788,

Nú í Gudi burtsöfnadri Háæli Frú
**Gudrúnu Vigfúsdóttur Scheving,**
Vid hvørri hann eignadist þrjú børn,
Af hvørjum tvø eru á lífi.
Hann andadist 17da Marts 1833.

---

Ef þú spyr ad ættgøfgi og embættistign
og bókmenta bjørtum heidri,
Ef þú lítur á gáfur Hans og gøfuglyndi,
elju og idni, og hvørju Hann afkastadi,
Muntu traudlega Hans maka finna.
Hann gégndi opinberum embættis størfum
Hardtnær um hálfa øld,
lét ei af ad efla og frama bókmentir síns føðurlands,
og sló aldrei sløku vid lærdómsidnir sínar.
Hann var hinn gjørhugulasti Húsfadir,
og ættmanna sinna øflug verja.
Þegar lukkan lék í lyndi, hafdi Hann tøk á
ad neyta hennar,
en brytist hún stundum á móti Honum,
þá beigdist Hann ad sønnu, en brotnadi ekki.
Gudrækid hugarfar og hugrekkisfullt fjør
héldu honum uppréttum í sjúkdóminum.
Margar eru menjar uppi gódgjørdasemi Hans
og høfdingskapar.

---

Þenna mikla mann virdtu margir,
medan Hans naut vid,
en fleirum mun laung eptirsjá verda
ad Honum lidnum.

Svo setti Hans minningar þakklátur heidrari

A. Helgason.

---

Línar, hvílast í helgri ró
Sveipadar mjúku módur skauti
Daudligar leyfar Landshøfdíngja
Um aldir ódaudligs Íslands Sonar
**Magnúsar D. Stephensens**
Conferencerádś og Doctoris Juris.
Hann fæddist í heim þenna 27da Decembr. 1762.
Utsendur Kóngs í erindagjørdir 25ta Septembr. 1783.
Vard Copíisti í Kammercancellíi 5ta Aprílis 1784.
Víceløgmadur Íslands vestan og nordan
23ja Maji 1788.
Giptist sama ár gódfrægum maka
**Gudrúnu Vigfúsdóttur** fæddri **Schéving.**
Honum nú samsælli í sveit engla.
Hann vard Løgmadur vestan og nordan 19da Aug. 1789
Settur Landfógéti frá 1793 til 1795.
Ædsti dómari Yfirréttar og Jústitzrád 6ta Júnii 1800.
Forseti í Yfircriminalrétti og Etatsrád 6ta Maji 1808.
Conferencerád 17da Aprílis 1816.
Lærifadir í Lagafrædi 6ta Aprílis 1819.

Saddur af jarðneskum heidri, heill og árum
Gékk Hann gladur til Guds barna hvíldar
Hafinn í englastétt fyrir unnin verk 17da Martz 1833.
Heidur Lands, ljós ættjardar, fadir þurfenda
Og Þriggja barna,
En Tíu barna bestur Afi.

---

Rádvøld réttvísi
Røggsemi studd
Temprud þó mannmildi
Ad máta Guds:
Eldfjørg ydn í
Ad efla heillir
Mentir og manndád:
Hans muna lyst

Gudrækni géstrisni
Og gjøful hønd
Hugar blídlyndi
Og hjartagjædska
Frábær lærdóms fýsn
Og føðurlands ást
Hugprýdi sáttfús
Vid sakada

Sýndu Hans sannhelgan sálar adal.

---

Frón vort stynur! føl er Landsins brá!
Bergmál duna' af brøttum fjalla tindi!
Berst þad kveinid þeirra' á milli' í skyndi:
Lands er stytta' og sómi fallinn frá!

Þú Hásæli! Þú ættjardar ljós!
Ei Þín minning med Þér verdur grafin,
Mun hún sídar verdugliga hafin,
Følskalausrar framtídar vid hrós.

Jøkli faldin fjøll ámedan stá,
Þín í brædra brjósti minning lifir;

Blésdist hennar verkun Nidjum yfir,
Ad Pinni líka aptur mættum sá.

Svó setti látnum Landshøfdíngja,
sínum og sinna sølnudum velgjørara

Þ. Sveinbjørnsson.

---

# Magnúsar kvida.

## Tvítugur flokkur:

1.

Uti sat und hvítum
alda faldi
fjallkonan snjalla
føgur ofan løg;
sá hún um bláan
boga loga
ljósin øll er lísa
leid um næturskjeid.

2.

Sofinn var þá sísill
fagur í haga,
mús undir mosa
már á báru;
blæu ifir bæ
búanda lúins
dimmra drauma
dró nótt úr sjó.

3.

Hvur er sá er snørum
hugaraugum
skodar lífsleidir
líd allan og tíd;
vakir og vakir,
vinnu sinnir
hrímkalda grímu
sem hagbjartan dag.

4.

Fár gat svo firri
Frónbiggja sjón
glætt ad þeir mættu
gjeima skoda heima;
fár gat svó firri
fornra Norna
haptbøndum svíptan
huga sendt á flug.

5.

Fár gat svo firri
fullhugadur bugad
ílla villu,
aldaspellis gjald.
Leígid hefir lígi,
og ládbiggja rád
allavega spjallad,
eítriblend í sveítum.

6.

Fár gat svo firri
fjandann anda
lestan og lostid
lígi brott úr vígi;
hrakti sá er vakti
medan høldafjøld
meígindofin sefur
marghøfdadan varg.

7.

Uti sat und hvítum
alda faldi
fjallkonan snjalla
føgur ofan løg;
sá hún þar vâ
ad vættum hættum
íturdjarfur arfi
Olafs und sólu.

8.

Róma vard á þrøm,
ruddist ad studdri,
fólkumdjarfur, filking
flokks úþokkans;
hugdi sá er dugdi
firir hamar fram
alla saman fella
ókind á sjó.

9.

Hvargi hugdist varga
vidsnúid lid
berast láta firir
bjargarid nidur;
hremmdu þá og klemmdu,
er hrekjast tóku,
stodir sem ad stódu
í stirku landvirki.

10.

Hvøt var adsókn hetju,
hardnar enn senna,
ógurlegum augum
áskaut hann þá.
Stódu þeir vid stodir,
støkk ei nje hrøkk
stærri jafnt og smærri
strjúka vill ei púki.

11.

Magnús gjekk af megni
und' merki, þjódsterkur
ládvørdur lída,

ljóss, sjer til hróss;
skodar hann í hrada
høgum augum
tjón allt og lán
tíguglegs sigurs.

12.

Ridur hinn rádgódi
á reigin lign = meigins,
heggur nú og leggur,
hrekur alt og rekur;
forkunnar forvirki
falla um grund alla,
skía skokkar lígi,
fjandi støkk úr landi.

13.

Skilid á, ad skuli
skildi vel halda
madur firir mødum
mæríngi, nær
aptur sækir eptir
aldiggum hal
flokkur slár nokkur
freka, sem var rekinn.

14.

Skilid á hann, skuli
skilja rjett vilja
Frónbúar nú,
ad hann frembarheit efndi;
dírum blóddrekra,
dørsæfdu fjøri
opt hafa kjekptan
ítar sigur nítan.

15.

Uti sat und hvítum
alda faldi
fjallkonan snjalla
føgur ofan løg;
sá hún þar láu
á landi og sandi
fallin med øllu
forvirkin hin stirku.

16.

Hrjád ifir lád
þá her æstur fer
og bárur brimóra
bandid auka landa,
hvur er sá er þori
heimsóknar þeim
sinja, jafnt og dinja
sóttir ifir dróttir?

17.

Þørf er brín á djørfum
þegnum, er gjegn
fara þori fara
flæmíngs afskræmi;
þørf er og á djørfum
þegnum, er megni
sterklig vinna stórvirki,

strita samt med viti.

18.

Veit eg eitt ad vitur
vildi, hann skildi
øll sá margbætt spjøllin
ástland hans — enn brást.
Sá hann þar láu
á landi og sandi
fallin med øllu
forvirkin hin stirku.

19.

Lídur landrádur!
láttu sjá vel máttu
bæta vígi brotin,
braml það vid og svaml.
Lídur landrádur!
ljettu nú svefnhettu,
enn er nóg ad vinna,
einum er starf meinad.

20.

Uti sat und hvítum
alda faldi
fjallkonan snjalla
føgur ofan løg;
sá hún þar á,
er eibúa grúi
mesta manns ad flestu
moldu vígdu hold.

J. Hallgrimsson.

---

Hver ert þú hinn edli?
er aldrei hvarf
glíkan augum ádur
hvássar 'ro sjónir —
hátign, blídu,
yfirbragd um bodar.

Sáume né slíkan
né sjá trydume
ítrast Ødlíng = menni —
vefur þig ljómi,
en sá Vafurlogi
virdíngarbeig veldur.

Hver er sá annar,
hlustir 'ro margar
munnar miklu fleiri —
vængjud óvættur
en vogun = djarfa
hverflyndt, skolbrýnt skrípi.

---

1.

Heiti Gudbrandar hlut-
um,
hvarju ec vildi svara —
eg sat, er aldir vitu
at Stóli, Biskup Hóla
ljós kvejktum, máttu lesa
láð = búar myrkri þjádir
rit heiløg, saungva sæta,
snart þørfin vidkvæmt hjarta.

2.

Mestu volli mótkasti
myrkranna drottnun styrka,
Fadirinn lands og láda
lét vilja framkvæmd metin.
Ísland hlaut (tel ei undur)
einatt af missir beinum
þekkja hvad bar ad þakka,
þegja þó kvørtun megi.

3.

Gét eg ad lýda gjætir
(gráti skal setja máta),
bót muni bøli veita
betri enn hugad gétum —
en leitac land um innan
látins, er flestir gráta
líka hvert syndi at lokum
léngi mun finnast engi,
og lengi mun finnast engi.

4.

Ordóm, er alla dæmir,
ei steini lysti eg neinum,
reyndar þó kaldt af kéndi
kvart = sárt þó ýfdist hjarta
bót hef eg 'besta hlotid
ber þeim ei frægum vera
dóm hjartans sem ei dæmir
dug Ordróms yfirbuga,
og dug Ordróms yfirbuga.

## Ordrómur kvad:

1.

Bardac opt Gudbrand,
bríxlum sárum
gladdi geigur hans —
rodar nú blygdan,
en þó rausa man
þad er hvetur hugur

2.

Otal á ec hlusta,
en þær allt hvad gleppa
mudur lúdra má.
Eitt mælir Ofund,
annad Blída
Rógur þøgu ei þegir.

3.

Spørdumc né Gudbrand
þóat Gudbrand nú

hifin yfir hefjumc;
Spardac né Magnús
er mestan gat
marglynd Atjánd' Öld.

4.

Þá vard Gudbrandi
þúngt í skapi
(dymm náhríngíng hlumdi)
anda lét Magnús
Alda : prýdir —
deyr ei Island allt?

5.

Öldúngur spurdi,
en hann ansad gat:
margt á Drottinn djásna,
fór hann úr sæti
sjá hann vildi
þat er forløg fólu.

6.

Magnúsar maka —
mjøc er þuldac
rán og Regin um —
ósjáldan fluttac
Islands búum
tír hans heilum hug.

7.

Allsjaldan tég ec
ad øllum kosti
minnur seigi satt.
Velt eg sem vøkur
vog at hlidum
mundángs hóf uns hitti.

8.

Nú man því nærri,
því nú er látinn
Hann er saung um sýng:
Føđurlands ástvin
og Ættar laukur
menta styrktar stod.

9.

Hærra nam hljóma
og heyrast skírra
(hæsast hindurvitni)
øldum komandi,
þá einardt votta:
sá kvad satt er kvad:

---

Magnús Olafssonur sýnir
sanna dád því viljan krýnir
framkvæmd heppin, ydin ønn;
fyrr munu allar aldir deya

enn þær fái hætt ad seigja:
Hann var Íslands sæmdin sønn.

Já — þú føðurlandsins ljómi,
lifdir, sleinst og vart vor sómi
villumyrkrum vartu hel —
á þinn legstein hardan høggva
harmatár, sem aldir gløggva:
Hann var ljós og lýsti vel.

Arnór Jónsson.

---

1.

Nú er tignarmadurinn Magnús,
mesta þíng af landshøfdíngja,
hauburs frægd og gagn og gledi,
grátinn út af hjarta, látinn!
Var um aldur Ísa foldar
annar slíkum herra líkur?
Nær munú aldir uppí gilda
orbid skard, hann féll úr gardi?

2.

Mun ótídur frægra føðurs
frægri møgur, lands á døgum,
og sem fleiri Tiggi trúdi
til embætta', ad þeirra gjætti.
Kaus hann Hari ad Commissera,
og kjøri ad setja' hann Landfógéta;

Vísis lengi' hann var Løgmadur
vestan og nordan jøkla stordar.

3.

Jústits-, Etats-rád hann rédi
Ræsis gjørast eptir kjøri;
svo vard kappa jafni Jøfurs
jádur Conferenceráður.
Hefir Dana Hildíng mildi,
hefir Drottinn ødrum vottad,
enn þeim dýra Doctor juris,
dádafyllri merki nádar?

4.

Hann var ad semja saman dóma
settur Landsins Yfirréttar;
hind er á, hvad vann ad vanda
verka søfnin prýdi merku.
Hvar sem mattan mikid hættan
mála sjó var um ad róa,
fjørugur vissi ad stilla stýris
stjórnar grip á laga skipi.

5.

Aungan fremri ad réttdæmi
ætla eg vinnist mann ad finna;
mildi- varla-madur í holdi
meistara slíkum hittist líkur.
Sá var ad marki sálarstyrkur,
sá var erkiramur ad herki.
Hvad má vitna ekki um adal
artar hans, og besta hjarta?

6.

Hvørr þann lærdóm geymir guma,
sem gáfustakur fárra maki?
Hvørr svo iðinn gagn að gjøra?
gét eg hann vinnist bágt að finna.
Vitsku sólarljós nam lýsa
Lagastýris vel um daga.
Um má kvarta, að er sú birta
Undirgengin fyrir mengi.

7.

Føðurlands ást, og rausn með ráði,
rækni Guðs og hugarfrækni,
sáttgirni við minni máttar,
sem mest er prýði á stjórum lýða:
ásamt stórum ótal fleirum
aðaldygðum sinnis bygða,
Honum upp' á hárri trøppu
halda lofs um margar aldir.

8.

Aungan kénni eg mig að manni
maklegt hrós um þann að glósa:
svo var maður makastákur
mikið ofar hafinn lofi.
Samt er skylda allra alda
að þess hlynna frægðar minníng,
sem var aldurs Ísa foldar
óbilsæmd og høfuðprýði.

9.

Hefir nú saddan ára æfi,

eins og heidurs, jørd má greida,
ofar sólum himinhafid
hæda skjølbúng frægdar øldúng.
Par hefir tráum þjóni búinn,
þarfa eptir lángan starfa,
dýrdarheima sæmstan sóma,
sem hann kann ad veita manni.

Páll Jónsson Prestur.

---

## Saknadar ord
## Eykonunnar Íslands
## eptir Conferenceráð Doctor juris
## M. Stephensen.

---

Lagid: Verdt er og ekki vegna min etc.

1.

Hvad syrgir þú svo módir mæt,
ølbrud moldin
Ísafoldin?
Sonar missi sárt og græt!

2.

Harmid nú med mér børn mín blíd!
ykkar sómi,
lærdóms ljómi
sá var skjærr um sína tíd.

3.

Fallinn hinn mikli Magnús er!
þessi øld
mun þannig kvølda
vart hans líki lifnar hér.

4.

Harmið þann stóra Stephensen!
Doctor laga
láðs um daga
fyrr innlendur fékkst ei sén.

5.

Dómara háum heiðri með
og tign ágjætri,
Milding mæti,
Konferentsráðs, krýna réð.

6.

Verðugan tign sig tjáði hann;
vísdóm frama
var æ tamast;
dygð af hreinu hjarta ann.

7.

Mildi, Réttvísi hans við hlið
að dómum gengu;
gjætt þess fengu
mundángs rata rétt hófið.

8.

Offrud var til þess æfin merk
upp að lýsa

lýd fávísann;
þarum hvørt hans vitnar verk.

9.

Þú nærverandi ekki øld,
hans manndádir
meta gádir,
óverdskuldad opt varst køld.

10.

Komandi aldir krýna hans
legstad rósum
heidri hrósi
hátt róma lof Høfdingjans.

11.

Þá mun bygd rétt lýst Merkismanns,
mengi blessa
minníng þessa
og æskja Líka ødlist hans.

12.

Farsæli Sonur! sála þín
laus vid mædu
mettast gjædum
hægri Krists vid hlid nú skín.

13.

Þartil lífs kvedur Lúdur vid:
í skauti mínu
skal eg þínum
moldum skýla mjúkt í frid.

Jóhann Tómáson Prestur.

Andvarp yfir hvarfi
Islands sóma,
Sannleiks hetjunnar,
Sigrara mannrauna,
*Doctors* Magnúsar ens mikla
Stephensens, stórsaknada.

---

1.

Hvad svo gall í holum nordur-fjøllum?
hvílíkt vein af konum bædi' og sveinum? —
það var fallid þýngst af øllum føllum,
það var mein sem nøtrar allra beinum;
Lýsti hátt, vid ljóma geisla beittann,
lundur, fjalla varinn ofar hjalli;
Videy átti vidinn ærid skreyttann
vid hvørs falli drjúpa hugir allir.

2.

Breiddi hreinust blómstur hærstu greina
breidann nordur- yfir- fjórdúng jardar,
lengi skein það ljósid fegurst eina,
en loksins þordu bylgjur storma hardar
sigurvidinn vænstann á ad ráda,
vid þó baud ad abla honum nauda;
hann þá lidinn hitti fallid bráda
hjúpadi naudug jørdin líkid dauda.

3.

Svo hvarf Magnús mikli, sem ad hygginum
málum slæda vann um Isa-svædi;
yndi' og gagn í arf vér fá'm af tignum

Öll sem gjæða jök og stuðði fræði.
Þegar hitti hetju í ofur mætti
Hann sem alla lét úr sæti falla,
var sem bitti dagur í svartnætti
djúpt, og hallist Sól að rótum fjalla.

4.

En hans fræði alda hvørf ei deyða
uns þó gæti blundur raskað fæti;
harma kvæði hugi samt vill meiða,
því — hvørr vill bæta Lærifødurs sæti!
Skaðinn svall í sálartaugum øllum,
svo í bárum niður flutu tárin;
Það var fallið þýngst af øllum føllum;
Það var sár er nauðug græða árin.

S. Breidfjørd.

---

# Erfi-ljóð
## er má nefna:
## Magnúsar-mál; ellegar:
## fjegra guð-dísa
## dóm, umgengin
## Magnús Stephensen mæra.

Hverr af foreldri,
— heilli vænstu —
bestu og dýrstu borinn,
átjándu aldar
ára á tugar
sjöunda øðru ári,

December mánaðs
dag sjøunda
á um tugu tvenna.
Endursól Alføður
ønd sér lénta,
líkams fjötri afleysta,

öndverdu á ári aldar nítjándu
þridja um þrjá tygu.

---

Var mig sýn fyrir,
í blundi vakanda,
dýrdlegri' enn mæla megi:
hlid upplukust,
á himnum efstu,
Sólu fegri sala.

Sá þar innleiddann,
ad leyst náfjøtur,
anda ódaudlegann
þess er med øldum
sér eilíft gat
minni, ad makleikum,

Magnúsar ens mikla
og ens megin-gøfga,
Stiptamtmanns Olafs
arfa,
Islands efsta
yfirdómanda,
Konferentsráds Kon-
úngs.

Heyrdi þá rødd Guds
hátignar fyllsta,
hljód gáfu himnar allir:
„mildt skal nú dæmast
„sá mildi dýrsta
„mest æ mat í dómum".

Kvaddi þá Drottinn
dísir fjórar,
hanum æ handgengnastar,
hreina Sannsøgli,
holla Fridsemi,
Réttvísi og Miskun
mjúka.

Øfstur Alfadir
Engla' og manna,
Skapari alheims undra
Systur taldar
med sér tilnefndi,
dýrann dóm ad heya.

Fyrst þá Fridsemi,
ad forsøgn dýrstri
Engla og alda Fødurs,
alblómgri laufgrein
olíu-vidar
glæstari glasislaufi

Uppbrá, og fridi
drjúfanda
og gridum ginn-heiløgum
yfirlýsti,
svo algløggt heyrdi
himna øll ve um vídust.

Rødd sú hljómhvellri

hverjum lúdri
og básúnu blástri mundi;
gjallarhorns þókti
glaumur hvellasti
sem þøgn hjá þeima hljómi.
Blygdskir óljúgfród
ber Sannsøgli,
leidri lygd eygrømust;
sókna og varna gøgn
sønn, allra mála,
lætur hún sér skyldt ad
skíra.
Skírri blæju
skjøllu mjall-hvítri
lendar og líf umsveypin,
bjørt í bragdi
brjósti enn skírri,
hreinust allra' í hjarta.
Mál-reglu hún spennti,
mundum bjørtum,
alla' af adamantsteini,
bergtinnu, stáli,
brasi, gleri
hverju ofhardasta.
Rétti' hún fram tédan
reglu kvarda
og málbrýn mælti þannig:
„fyrr man regla sjá
„rétt-málasta
„sem var fyrir bál-eldi
blotna,
„og sem seig-mjúkur
„silki-týgill
„í hríng og hnøtt sam-
vindast,
„eda' í dupt falla
„af fúa' og elli
„enn rángt um mæla megi".
Innti hún enn meirr
einardligust
bersøgl þó mild í máli:
„Skyldt er ad Magnús,
„møgur dýrstur
„Olafs ens ey-góda,
„miskun og réttvísi
„mæti' í dómi,
„alls bádum æ best unni,
„alla þá stund
„er ad Alvalds rádi
„dóma lands og laga
„átti um annast,
„øld til heilla;
„nú hæfir honum laun sé
lagin;
„opt þó mann-fólska,
„flárri hrekkvísri
„og bølgjarnri øfund
eggjud,

„illkvittna feldi
„og ómilda dóma
„um verk hans velmeintustz
„mál er Sannleikur
„sagna bestur
„berr í ljós hér um leidist.
„Hvar gétur mædgin
„er meir um æfi
„unntist heilum huga,
„heldur enn Astræa,
„hrein óskmey Guds
„og Hann hvørt ødru
unntu?
„Dygd og Sannleika,
„dýrst hnit-systkyn
„sønnum Gudi af gétin,
„hvørr stadfastar,
„hvørr trúligar
„elska' og virda vildi?
„Má at hanum Nemesis
„neinna laun-klækja
„volig víti skapa;
„alls hann samvitska
„sann-réttdæmis
„gjætti' æ ad Guds bodi.
„Hvar viti mann
„er Magnúsar Konúngs
„loffælls Laga-bætis
„betur nafn vegligt
„ad bera hæst,
„í því er ad løg-bót lýtur?
„Mest því hann jafnan
„mat og virdi,
„í medferd mála hvarra,
„oss allar Systur
„er samt æ støndum
„hér ad dómi Drottins.
„Mana þó dælt
„ad dylja' ad innit
„sumt, er midur um sæmdiz
„matur alls eingi
„er æva borinn
„hveim aldrei syndir á-
sigrist,
„og Sathans, heims
„og holds ofbeldi
„táli' og brøgdum beitist,
„en sá er æ bestur
„er best andvígur
„þeim gjørist vid Guds
fulltýngi."
Hljód gaf Sannsøgli
en hvøss Réttvísi
bjós'k til mál frambera;
reiddi hún mundum
réttvægastar
metaskálar og mælti:
„Ord og verk skulu

„allra manna
„vett á vogmet þeßi;
„einn'gi er madur
„— nema eittsinn — borinn,
„heims um endlángan aldur,
„er til idgjalda
„illra vinnit
„meirr enn ljúfra launa;
„sama lýk ordi
„á um þenna,
„þó mikid og margt vel
ynni.

„Vann hann þó aldrei
„eitt'gi meira
„enn baud honum skylda
skipud,
„og Gud hanum sjálfur
„gaf til næga
„krapta, vit og vilja.

„Kannat hann því neinum
„komast ad launum
„þó gégndi skipadri skyldu;
„en alls, er úgjørt lét
„eda midur
„vann enn vera hlýddi,
„og Gud honum faung
„og færi á veitti,
„verdt er hann gjøld þeß
géti."

Mælti þá ens sæla
Magnúsar andi
ógnvarr for Drottins dómi:

„Réttvísis úrskurd
„eg réttan vidkénnist,
„þó þúngt sé und þeim
ad búa;
„veit eg ad gott allt,
„hvad gétum unnid,
„Guds er en vorr ei verki.

„Veit eg allt id verra
„er víti sjálfskapa
„vort, gégn Drottins vilja;
„mørg kénnist'k misverk
„míns breiskleika
„af brádskap og vangá
vordin.

„Treyst' eg þó tryggum
„trúar hjálp-veli,
„þad er: Krists árnan eina.
„Mitt legg eg mál
„á hans miskun allt;
„hans eins vil eg dóm
fyrir hlýta."

Í því tók Miskun
máli fyrir;
— blídt sló henni hjarta'
í brjósti;
var sem á túngu

og vørum liti
hjarta blædandi bifast. —
„Helzi er Systir!
„hardur þinn dómur,
„raunar þó réttvís kénnist,
„máttu ein géra
„án minna atkvæda;
„eingi má líknarvani lifa.
„Gleymattu ad sá
„er gædsku fadir
„hveim 'rom bádar sam-
bornar,
„mønnum til heilla
„en hrakninga eigi,
„bad hann oss um sakar
semja.
„Segir því og sjálfur
„sannleiks munnur,
„Guds eins Son eingétinn:
„Miskunsamir verid,
„sem miskunsamur
„ydar er ædstur Fadir.
„Segir hann eins muni
„miskun-vani
„dómur hvern þann hitta,
„miskun er enga
„vill mønnum sýna
„þó breiska hrøsun hendi.
„Best kann sá reyndi
„breiski medskapta
„brothættum moldar møg-
um.
„veit hann hve vanfært
„veiku er holdi
„synd-vana líf framleida.
„Veit hann hve á-
mátt'gir
„og vel-slægir
„fjendur sál um sitja,
„veit hann hve opt dimm-
skygd
„vagl-ský blekkja
„mannvits blik-ljós bráa.
„Mana því hans gædska
„og gnæfandi mildi,
„ná-skyldust medaumkun
mjúkri,
„hegna vid hardrétti
„holds breiskleika
„brot um vilja fram vord-
in.
„Gaungum nú senn
„fyrir Son Guds hærsta
„einvald allra dóma,
„sá of allt þádi
„af sínum Fødur,
„miskunsamastur mønnum."
Samdi þad niftum;

síðan gengu
Son Guðs friðsáttar finna,
hvar á hægra veg
hærstum Guði
í ljósi skein ímind æðra.
Aumra ástbænir
óskheitastar
fyrir velgjørðir veittar,
áður í himin
hátt uppstignar
fyrir ens Alskygna augu
Ruddust nú fram,
í rødum laungum
ótal um miskun mjúka;
blíðt þær Drottinn
við bænum knúðu
að láta sín minnst til launa:
„Hefir þú lofað
„að launa = vani
„eingi skuli vatnsdrykkur
vera,
„þínum þurfendum
„þinna vegna
„af góðu hjarta géfinn.
„Blíðast þig biðjum
„að bestu launir,
„vorum bjargvætti besta,
„ølmusur inntar
„ótal í leyni
„oss án allra launa".
„Vel kann eg áður
„upp þið berið
„beggja brýn erindi."
Blíðt hann svo ræddi:
„og beggja máli
„vel skal að vísu gégna.
„Miskun og Réttvísi
„mínum Føður
„kann eg jafn kær=skyldar;
„báðar því jafnt réðu,
„að bað hann eg lyki
„nauðgjøld Adams niðja.
„Bætta 'g fúss fullu
„að føðurs vilja
„ættgeing afbrot manna,
„þegar mannligu
„þolda'g á holdi
„allt það hér telja' ei tíðir.
„Svo sem Guðs Réttvísi
„ríkast krafði
„og bað hann miskun mjúk=
ast,
„megot dóm einn'gi
„dæma að verit
„báðar eitt best ásáttar.
„Þess hann æ gáði
„er þér nú um dæmið,
„sama skal hann dómi sæta;

„Lýsi'eg hann því síknann
„sakmála allra
„jafnt og síkn em eg sjálfur.
„Hverr sem æskir
„af hjarta auðmjúku
„miskun hjá mér að géta,
„og sann-trúaður
„sér til-eignar
„ydrandi árnun mína,
„þótt hefði miklu
„meir afbrotið
„enn þessi' er þíng um áttuð;
„hér skal um eilífð
„al-sæll lifa
„af míns Föðurs miskun stærri.
„Lokið er dómi
„leidið hans anda
„til hólpinna feðra og frænda,
„samgleðjist þar hverjir
„af sælu annars
„svo lengi sem eilífð endist."
Þannig lét Guðs Son
gjörð upplokið
samkvæðu sættar Dísir;
hærstur Guð Faðir
með helgum anda
eylíft Amen sagði.
Gullu við skærar
gleði saungraddir
ótal Engla kóra;
gullu hvell-róma
gleði-há-lúðrar
víð öll ve um himna.

Jón Ingjaldsson Prestur.

---

## M. Stephensen Dr.

Konferenceráð og Jústitiarius í Islands Landsyfirrétti, Eftirsjónar- og Forstöðumaður Landsuppfræðíngar félagsins frá 1794 til 1826. Dáinn 17da Mart. 1833.

---

Hneig þar horskur laga
haldboði, störíngur aldar!
Sá var, meðan endist æfi,

eydir villu, frømudur snilli.
Þess munu þrár í ofsum
Þengils vinar lengi
(hnípir drótt og drúpir
dapurt land) hugum standa.

Svb. Egilsson.

---

Mælt af munni við andláts fregn
Konferentsráðs M. Stephensens að Videy.

---

1.

Forstjóra Réttar fyrsta
fallinn kveda nú allir!
hjør bana beyddi dýrann,
dagur varð andláts fagur;
hrygg Minerva hnuggin
harmþrúngin sér barmar,
rennir sjónar sunnum
sér ei mæríng vera.

2.

Videy þrúngin þráir
þjóð-gjædíng margfróda,
lyst skreytti lærdóms mestann,
løgspekin æfdist føgur,
ítur ydn á neyta
ávallt stund lagdi (frá ek);

marga reit frá rótum
ritgjørd snotra vitur.

3.

Hvatti marga þá er hitti
háfar rækta gáfur,
fræding útbreidist ydin,
óskad', en múgur þrjótskast;
móðgadi margopt þjóðar
mæringja', er reyndu færa
ládi heillir, lýda
last hrakmannlegasta.

4.

Líkams fjør vid lokid
leystur Stephensen hreystist;
áreitnin illra þrotnar
ángurs tár þorna' af vánga;
hold er í Herrans valdi;
hýsing Paradísar
gistir ønd, Gudi bestum
gløð sameinast Fødur.

5.

Rádvandra dýrr er daudi
Drottni for brynju = gotna;
— jørd þessi' er víst ei verdug
vid líkjast himnaríki —
himin = sæld heitir gumum
hreldum lífs ad kveldi,
gladir æ sem gøfga lýdir,
gódur Frelsarinn þjóda.

6.

Gledjumst, er grátnir stríðum,
gjæðum af dýrðar hæða!
drótta prísum Drottinn
dáða Konferentsráði
frið veitti, frelsi' og heiður
fró gaf hugar nóga,
sál uns, glöð í Guði,
gjörði ná ljóssins jörðu.

Eingilbert Þórðarson Prestur.

---

1.

Forsælu skautar Feðra jörð,
meðlætis glampi hugværr henni
hvarfladi burt, sem auga renni,
lýngstráðann þreyir Laga-vörð;
þann er sigrandi öðrum opt
æfínga skeinkti kröptug notin;
hvörs menta geislar land og lopt
leiptruðu, fram á stunda þrotin.

2.

Gullu nástreingir, glaðværð dó,
Guðirnir Baldur urpu sandi,
spakmála sæfðist efsti andi,
á náttúru listir nið' um sló.
Konst-gyðjur sakna mesta manns,
að markverðum dómi fjölþýðunnar;

traudla mun leiddur Líki Hans
lopts hjara nordurs bøndum sunnar.

David Jónsson (Fródi).

---

Fór nú af fold
fágjæfur menta vinur
Magnús í mold!
Minerva tér og stynur;
O Snælands børn
med angu tára = vot!
sýnid mér mann
svo háum ydnum laginn!
sjáid nú þann
sem eins vel brúkar daginn!
er þeirra þrot?

---

1.

Frambrýtst þar á
fossandi, gljúfra um leidirnar mjóar,
jøkuls úr gjá
greidir sér brautir og leitar til sjóar,
hrindir sér frá
hvørju því tálma sem má —
lýdi vid landbrotum óar.

2.

Þýtur upp þar
þurrum af grundum hinn móbrúni reykur,

stormurinn snar
steypist úr mekki og slítur upp eikur —
með blástri hann bar
burt það á gøtu hans var —
hindranir hann sér við leikur.

3.

Enginn mun á,
enginn mun storminn, þó fram vilji, lasta;
kraptar oss hjá
keppast til þrauta við mótspirnu fasta;
svo megum sjá
sér ryðja tálmunum frá
menn þá er miklu afkasta.

4.

Frá lasti frí
fyrir það verður þó slíkur aldreigi;
er það af því
annar sér heimila gøtuna segir —
sem regn láti ský
ryðst út það brjósti var í
sé honum vikið úr vegi.

5.

Optar þó sést
að øfundar halurinn seini þann skjóta,
hyggur það mest
hinum að niðra sér vera til bóta,
finnur til flest
fundið er getur hann verst
og sparar ei lygina ljóta.

6.

Svo mátti sjá
suma vorn frægasta Magnús ad lasta,
sem aldreigi á
af illu hid minnsta hann reyndi ad kasta,
því honum fannst hjá,
helst sem ad vantadi þá,
ydnin og framkvæmdin fasta.

7.

Ungur þá vann
erlendu stadanna føgru ad vitja,
lán er þar fann
leitst honum ólíkrar hegdunar nytjar,
henni med hann
hugdi í Fødurlands rann
Evrópu audnuna' ad flytja.

8.

Atjánda hvad
øldin til helsta sér gyldisins taldi,
sérhvad oss þad
sem best hann kunni til notkunar valdi,
allvíst er ad
optlega' og mørgum í stad
Kostgæfni' hans kom þar ad haldi.

9.

Øldin þá snýst,
aldurbørn heyra menn lasta þær þjódir
annad sem lítst

og þykja nýari síðirnir góðir;
en neita má síst
nítjándu aldar að víst
átjánda øldin er móðir!

10.

Honum fyr' það
halirnir eldri fyrr lastanir vøldu
átjándu að
aðhyllti * * * * * * * *

Athgs. Þetta Kvæðisbrot fannst í skjølum Amtmanns sál. B. Thorarensens, að honum látnum; stendur það hér síðast, bæði af því að það er eigi fullort og það barst mér ekki í hendur fyrr, enn búið var að prenta flest hinna kvæðanna.

Ó. M. St.

# Stutt Kvedja
framflutt vid Lík-kistu
Konferentsráds sáluga Doctors
# M. Stephensens,
af
þáveranda Prófasti í Rángárþingi,
nú Dómkyrkju-presti og Riddara af Dannebrog,
# H. G. Thordarsen.

---

Hærstvirdtu Tilheyrendur!

Eg finn ad þad er meir vilji og áræði enn samsvarandi kraptur, sem nú dregur mig til ad tala til Ydar, hátttheidrada Samkvæmi!

Alvarleg og hátídleg er þøgn allra þeirra sem hér eru vidstaddir, allra útlit og yfirbragd vottar djúpa sorg, eda innrætta alvørugéfni, sem eg ad sønnu opt hefi mátt horfa uppá vid útfarir daudlegra manna, en sem nú sýnist þó øllu innrættari, almennari og margbreyttari enn endrarnær. Allir eru hér vidstaddir — med spenntu athygli, einsog þeir varla ennþá trúi þeirri fregn, sem Daudans Engill hefir flutt, ad hér skuli hníginn sá kraptur, sem eigi sýndist ætladur fyrir nokkur fáein ár, heldur margar aldir; — þad er sem menn ekki trúi, ad þessar sjalir, einhvørjar

þær sorglegustu sem eg hefi séd, skulu geyma þann líkhama, sem ekki fyrir svo laungu stód óbeygdur af úrafsjölldanum, einsog eik sú, sem hvörki stormar né byljir fá sveigt; — Þetta einkar alvarlega og hátídlega, og sorglega í samkvæmi voru er nóg til ad beygja ekki sterkara krapt enn þann sem eg hefi; þó ætladi eg ad flytja ydur þad sem þér allir vitid, ad hér er látinn einn sá göfugasti og merkilegasti Höfdíngi þessa lands, sá dýri Herra Magnús Stephensen; og er svo mikid svarid þessa fregn ad engi málsnilld gétur aukid hennar innihald, og enginn túlkad til hlýtar þá tilfinníngu, sem alstadar vaknar um þetta land, med svo margbreyttu móti; þessi hin miklu tídindi fá ekki dulist, þau smeygja sér inní hreisi ótal auminga, hvar ogsvo börnin, sem nýlega hafa lært ad nefna födur og módur, þekkja Hans nafn, og líka brjóstast þau inní sali hinna voldugari, sem stundum þóktust máské kénna á ríki Hans. En öllum hnikkir vid sem heyra; vinir sem óvinir taka þessum tídindum med lotníngarfullri alvörugéfni, og engi sá er til, sem ekki finni sig hrærdann í djúpum hjarta síns, finni sér bregda óvenjulega og undarlega vid fráfall þessa hins mikla manns. Þad eru því tídindi sem ekki fá dulist, ad þessi höfdíngi hefir nú kvadt heiminn, þenna heim hvar Hann hafdi lifad svo lengi, og hvar Hann hafdi stadid í svo mörgu og svo miklu, já stadid opt næstum sem einn fyrir sig medal sinna aldarmanna. Hann hafdi þad flest reynt sem heimurinn á til, svo vel af sætu sem beisku —

virdingar og metord umfram adra hér í landi og allmikla audsæld, tign og álit sem engi gat neitad Honum um; — Hann hafdi og margt lidid í fráfalli elskenda, í þúngum sjúkdómum, í mótmælum aldarinnar og fleiru, en med óbeygjanlegum krapti lét Hann eigi hugfallast hvad sem honum mætti, heldur komst hann sigri hrósandi fram úr øllum þrautum sem ad hendi báru, og skildist vid heiminn sem sú Sigurhetja, er, medan til endtist, lét ekki heiminn stjórna sér, heldur vildi sigra hann, sem eigi heldur, þó vid allsnægtir hefdi ad búa, lét leidast til sællífis eda ydjuleysis, heldur var hinn mesti reglumadur í øllu líferni sínu, og kunni því ekki ad eyda lífsstundum sínum til ónytju — þar leiddi hann sá innri kraptur, sem ætíd er vottur mikilmennskunnar, er ekki leyfir manni ad eira þeirri stundu sem sé til einkis eda ílla brúkud. Hans æfisaga vottar, hvad Hann í heiminum gjørdi, og hvad Hann leid, þad getur ekki verid tilgángur minn, ad tala þarum; En eg vildi einúngis segja: Hann hefir nú kvadt heiminn til ad gánga inní annann og betri, hvar eg veit víst ad Hans krapti, Hans þrekmiklu sálu er ætlud mikil ydja, og hvar rætast mun hid mikla hugbod anda Hans, hvar Honum mun audnast, þad Hann svo eptirþrádi, ad sjá augliti til auglitis, hvar sá er dómarinn sem veit ad meta Hans miklu vidburdi eptir Hans hjartans meiníngu, hvar Hann er horfinn burt frá vanþakklátum heimi, sem, — eg þori ad segja þad — ekki vissi hvad hann átti — med øllum mín-

um søknudi vil eg segja: Lof sé Gudi, Hann er kominn til hans, er þekkir sjálfs síns handaverk.

Hann hefir kvadt heimili sitt; Húsfadir var hann í ordsins mætasta skilníngi; hann stjórnadi á heimili sínu, ástundadi ad halda uppi undirgéfni og hlýdni hjúa sinna, án þess ad hirda um þann heimsins hátt, sem nú vill nidurrífa alla undirgéfni, en innleida fullkomid jafnrétti allra. En med þessum strángleika sameinadi Hann þá sann-fødurlegu nákvæmni og velvilja vid hjú sín og undirgéfna, einkum hvenær sem eitthvad gékk ad þeim, eda þau leitudu Hans hjálpar; Hann var þeim og fadir til allrar menníngar og frama.

Hvørsu margir hafa stadid undir Honum, sem egu honum ad þakka velferd sína, sem Hann hefir suma med miklum kostnadi mannad og sem hjá Honum nádu þrifnadi þó lítill væri ádur; hvad margir eru þessir, og munu þeir ei sumir hér vidstaddir, er þad játi med verdugri vidkvæmni og þakklátsemi? Munu ekki hjú Hans, sem kunnu ad hegda sér sómasamlega, játa þetta satt ad vera?

Menn heyri dóma hinna betri, en óverdugra manna last bet ekki fremur ad meta enn lof þeirra; því þeir eru ekki settir dómendur lifendra né daudra.

Þegar eg nú litast um, er sem mér sýnist einhvørt mikill herdshøfdíngi látinn, eg sje þá undirgéfnu drjúpa, eg heyri ekki medal þeirra þá raust, sem var fær um ad stjórna þúsundum, og sje ekki þann mann, sem høfdi hærri enn almenníngur í Israel, fyndist á-

lengdar bera það með sér, enda fyrir ókunnugum, að hann væri ætlaður til að vera stjórnari margra, sem hvørt er Hann var með æðri eða lægri, aldrei sleppti þeirri tign í útvortis hegðun, er ekki var tilgérð, heldur náttúrlega framkomin af þeim innra krapti, sem þar bjó í vegsamlegri sálu — Hann er nú horfinn sínu jarðneska heimili, en kominn inn á heimili þess húsføðurs, sem veit hvar hann egi helst að setja þjóna sína, hvaða verk hann egi helst að fá þeim í hendur.

Þetta Søfugmenni hefir nú kvadt vini, ættíngja og børn. Ekki vil eg segja hvað marga vini Hann átti, en hitt þori eg að fullyrða, að margur ágætur og góður maður er til sem nú grætur Hann; að menn gátu ekki annað, meðan Hann lifði enn virdt manninn, og dáðst að þeim krapti, sem stóð svo af sér hvørja mótlætisins øldu af annari — að margir eðla menn gátu eigi annað enn fundið þakklátsemi, þegar þeir hugleiddu hvað þeir áttu Honum að þakka. Hans velgjørðir voru svo miklar, að ekki eru dæmi til að nokkur annar hér á landi á hinum seinni árum hafi eins mikið ørlæti sýnt, og ef menn vissu, mundi það flestum ægja hve miklu Hann árlega eyddi til þeirra sem Hann vildi hjálpa. En í því sem fleiru sýndi Hann þrek sitt, að Hann heldur vildi hjálpa færri til gagns, enn fleirum til lítils eða einkis, því Hann var nógu sterkur til að láta sér lynda, þó ekki hljómaði daglega fyrir eyrum hans almenníngs fagurgali. Hann veitti stórkostlegar velgjørðir,

þeim er Hann veitti og þó vil eg spyrja, hvørr mun fleirum hafa gjørt gott enn Hann ?

En svo mjøg sem hans velgjørdir máttu leida margann til vináttu, þá var ekki hitt sídur, ad Hann var einhvørr hreinskilnasti madur, og lét það uppi hvørt er Honum þókti betur eda verr, med meiri djørfúng og stundum meira kappi enn nú er tídkanlegt; hann var brádur og mikill í lund; þækti Honum, hvørt sem það var med réttu edur ei, lét Hann það uppi, og dróg þá aldrei af, og kunnu því margir illa, einkanlega þeir sem ekki þekktu Hann; en eg má med sanni segja ad þetta kom af einhvørju frábærasta hreinlyndi, einsog líka Honum var lagid ad gleyma slíku ad vørmu spori. Hvad sem hvørr segir, má eg og vitna, ad Hann virdti í huga sínum mótmæli, þegar Hann þókktist vita ad þau kæmu eigi af kala til sín, og ad Hann mat hreinlynda menn um adra fram. Þetta fannst mér mest af øllu gjøra Hann verdugann til ad ega vini, en — máské þó þetta sama hafi ollad því er Hann átti ekki fleiri, þó víst muni margir vera.

En hvørt sem Hann átti fleiri eda færri, þá er Hann nú búinn ag kvedja þá, og hátídlega lætur fyrir eyrum mér sú Hans kvedja, Hann gat ekki kvadt vini sína einsog flestir kvedja þá, allt hjá Honum vard ad vera frábrugdid, Hann hefir óskad ad mega sjá þá aptur, Hann hefir bedid Gud ad vardveita þá í þeim heimi sem Hann var sjálfur búinn svo ad reyna; Hann hefir fengid þeim dýrmætann fjársjód

til geymslu, sitt nafn, sína minníngu, ekki ad Hann ætladist til þeir fegrudu hana, en Hann ætladist vissulega til ad þeir létu sig njóta réttar.

Hann hefir kvadt ættíngja sína. O hvílíkur var Hann þeim, bædi til rádaneytis, adstodar og sóma? Þeirra sómi, álit og velferd lá honum á hjarta einsog hesta fødur, og er þad máské minna kunnugt enn skyldi, hvad ríkmannlega og stórmannlega Hann hjálpadi og adstodadi þá af þeim sem Hann héldt þess vidþyrftu. Hvílíkur Hann var bródurbørnum sínum er meir enn dæmi séu til, og kann eg þarum ad vitna, hvørsu Hann ydduglega og árlega lét sér annt um hagi mína og útbýtti mér med ríkuglegum høfdíngsskap, og má ekki minna enn eg nú játi þad sem fram vid mig kom med skyldugri þakklátsemi, ad eg ekki tali um Hans velvilja til mín og svo í ødrum efnum; einkanlega var þekkjanlegt, ad Hann eptir fráfall síns heittelskada bródurs, tók ad sér børn hans og vildi gánga þeim í fødurstad, og elskadi þau eigi sídur enn fadir, og lét þeim flestum eda øllum mikla velgjørnínga í té á ári hvørju, hvørt sem Hann sá þau sjálfur eda ekki.

Hann hefir nú kvadt þessa sína ættmenn, og med Honum er þeim fallinn mikill stólpi og uppihaldsmadur ættarinnar, mikill høfdíngi, velgjørari og besti fadir, þeir hafa þess misst, hvørs þeir aldrei hér bída bætur. En Hann hefir hér kvadt ættmenn sína, til ad finna sælli ættmenn á sælla landi; þar hefir Hann fundid trúfastann Ekta=

maka, forklárađann bróđur, elskađa dóttur og barna-børn og mikinn skara fleiri sælla ættíngja; Hann er oss sviptur þau fáu ár, sem oss eru hér ennþá ætluđ, en Hann er hinum gefinn eilíflega; þó eg sjái hvørju eg er sviptur, ann eg Honum vel ađ njóta. Mín ár verđa hér líkast til ekki mørg, en þá þækti mér góđu goldin stutt og orkulítil dvøl, ef eg mætti eiga þess von ađ sjá þann guđsifjađann skara.

Hann hefir kvadt børn sín. Hvørr fađir hefir meira gjørt fyrir børn sín? hvørr fremur hugsađ um lukku þeirra? hvørr viljađ þeim betur? þarum vitna þeirra hjørtu, þeirra djúpa hjartasorg. Þeim hefir hann mikiđ eptirskiliđ, og þau hafa mikiđ ađ bera, þar sem var Føđursins mikla kostgæfni, miklu virđíngar og fræga nafn sem eitt á vorum døgum náđi lengst, jafnvel til útlendra þjóđa; fylgir slíkum arfi meiri vandi enn hvørjum øđrum. Þessi børn, verđug Føđur sínum, gráta Hans fráfall og geyma ævilángt Hans minníngu í heiđrandi og lotníngarfullum hjørtum.

Mín forløg hafa svo bundiđ mig til þessarar ættar, ađ eg hefi tekiđ þátt í margri hennar gleđi, margri hennar sorg, í mørgu þægilegu og miđur þægilegu, en þađ innrættist mér á endanum, ađ hún enn auđkéndi sig frá almenníngi ađ einhvørjum innvortis krapti og hreinskilinni djørfúng; ađ vísu eru sem stendur fallnir hennar prýđilegustu og gildustu máttarstólpar, en þar dylst sá kraptur, sem međ tím-

annum munu ennþá framleida mikla menn; en Guds er eins ad vita stundir og tíma.

Sá gøfugi høfdíngi er vér syrgjum hefir kvadt **Fødurland** sitt. O Fødurland! heilaga ord, sem í þér innibindur allt þad sem oss øllum er kært! ó **Island**, þú sem ert svo ófrjóssamt á medal landanna, synir þínir elska þig samt, og margann frægann hefir þú alid og fóstrad, og nú opnar sig þín heiløg mold til ad medtaka einn þinn frægasta Son; — fjøll þín og hamrar, vøtn og miklu helgidómar, og mørg prúdlynd hjørtu, sem ennþá vitna um ad Gud hafi ekki yfirgéfid þetta land, hrópi, kalli og bidji, ad Gud vilji nádarsamlega uppvekja sem flesta mikla menn vorri Fósturjørdu, er fyrrum var svo nafntogud og ágæt!

Ekki ætla eg ad tala um, hvad sá sæli merkismadur gjørdi fyrir Fødurland sitt, ekki heldur leggja neinn dóm á hans adgjørdir; þad sé annarra, og annars tíma og annars stadar, en eg vil segja þad sem eg veit: ad **Hann elskadi Fødurland sitt og vildi þess gæfu**, þess innvortis anda vard eg opt varr í vidrædum Hans í einrúmi; og Hann vissi sjálfur vel, kannské med nógu mikilli vidkvæmni, hvørjir dómar þar vóru feldir um. — **Hann elskadi Fósturjørd sína.** — Máské Hann í þeirri elsku hafi verid sterkari enn hans øld gat þolad; máské Hann einsog annarr daudlegur, ekki hafi alla tíma gétad sjed eda útreiknad hvad nytsamast var; en hvad sem um þetta, eda annad héradlútandi, er,

Hann elskadi þó sitt land og sína landsmenn; Hans orkumikli kraptur fór því fram, sem Hann eptir bestu sannfæringu hélt landinu til gagns og sóma, og Hann fór þessu fram med Honum eginlegu kappi og dugnadi, er sem mestu vildi til leidar koma og sem fljótast.

En — breytast tímar, breytast menn; aldarinnar andi er nú á seinni tímum mjøg breyttur, og virdist hann nú sem stendur mjøg svo á ringulreid, ef eg mætti svo segja, og — þarmed gjørast margir dómarnir.

Já! eg held því føstu, sem eg veit med vissu, Hann elskadi Føđurland sitt til daudans, þrátt fyrir øll þau mótmæli sem Hann leid, þrátt fyrir margra vanþakklæti, þrátt fyrir margra óvináttu, og þad er vel, ad Hann nú, eptir mikid erfidi og þrautir, fær ad hvíla í skauti þeirrar módur, hvørrar heittelskandi sonur Hann var.

Hann hefir nú hreppt annad Føđurland, hvar Hann ámedal betri anda, á betri øld, sjálfur forklárađur, mun eilíflega þjóna sínum Konúngi trúr.

Einhvørjir hugsa víst, eg hafi sagt ofmikid og þó oflítid; en — ekki var ásetníngur minn ad vera lángordur — þad átti hvørki vid stødu mína hér, né stad edur stund — stutt átti ræda mín ad vera, en lángur søknudur minn. — Eg gat ekki heyrt þann látinn, sem hafdi svomikid gjørt vel til mín, án þess ad kannast opinberlega vid þad, sem ekki einúngis gjørdi mér vel, eptir ad eg var ordinn tengdur Hon-

um, heldur ádur, medan eg varla þekkti Hann, og var umkomulítill og fátækur, og hafdi ekki vid ad styðjast til menníngar, nema það er ógleymanlegur vinur og velgjörari[1] veitti mér; þá — medan engi sást annar tilgángur enn sá ad gjöra vel, nádi þess burtdána sæla Herra gódfús hönd til mín, þótt eg væri aumur og í ödru landi, og þó Hann svolítid sem ekkert þekkti til mín; Hans hönd kom þángad til mín, ekki tóm, heldur full ríkuglegs örlætis mér til handa; — má eg ekki minnast þessa? Sé það smátt í annarra augum, stendur það þó nú mér fyrir hugskotssjónum sem ofstórt til þess, ad eg fyrirverdi mig ad minnast þess, er Hann leitadi mig upp til ad sýna á mér mikilleik síns höfdíngsskapar — það er sem eg naudugur slíti mig frá þessu efni. Eg er þess ekki umkominn ad prýda leidi Hans med neinu, þakklætistár mín áttu einúngis ad vökva þær rósir sem adrir hafa prýdt og munu prýda það med.

Eg sný þá augum mínum, ad þessari sorglegu líkkistu — því og svo hún skal brádum frá mér takast — og hún kénnir mér margann lærdóm. Hún minnir mig og á, ad Gud hefir aptur medtekid eitt af sínum ágætustu handaverkum, ad hann medtekur það ekki, eins og stundum má vibbera, spillt og skémmt, heldur helgad í lífsins skóla; Hann hefir medtekid sálu, sem hreinsunareldur reynslunnar, og það lángrar og mikillar reynslu, hafdi fríad vid tímans gjall, og

1) Kaupmadur, Riddari B. Sigurdsson í Hafnarfirdi.

sem nú er gengin hrein innfyrir Gud í þeirri mind og líkíngu sem henni var upphaflega géfin.

Þú, kista, geymir slíkann helgann dóm — lofadur sé Gud fyrir frelsi eins þess ágætasta manns, er eg hafdi þá æru og ánægju ad þekkja, ad sönnu ekki fyrr enn lífsins degi var farid ad halla, en sem þó þá var enn í sínum fulla krapti. Forsjónin hefir ekki viljad leggja á Hann, ad þurfa ad lifa vid adgjördaleysi, því tók hún Hann med ennþá óbeygdum sálarkröptum.

Hans minníng lifi vor ámedal, hafin yfir gröf og forrotnun; hún lifi í Íslands annálum, og Hans bautasteinn tali þýdíngarmiklum ordum til Íslendínganna, eptir ad allir vér, sem nú lifum, erum komnir til fedra vorra, já medan Guds almættis kraptur heldur uppi þessum hólma í meginhafinu.

Brádum nálgast þad augnablik ad þessar leifar verdi frá oss teknar. — Látum oss þá, med alvarlegum þaunkum um Födurlandsins og sjálfra vor hagi, fylgja þeim til síns sídasta hvíldarstadar — þó oss sumum finnist þad þúngt, þá hugleidum: ad svo byrjar oss allt réttlæti upp ad fylla. Amen.

Mörg heidurs- og þakklætis-kvædi vóru kvedin, af merkum mönnum, til Födur míns sál. í hans lifanda lífi. Eitt af þeim er kvædi þad sem nú kémur, og þykir mér tilhlýdilegt ad enda med því þenna hluta bókarinnar; þad er ort af merkum manni og hræsnislausum, Sýslumanni sál. Jóni Espólín; og læt eg því heldur setja þad hér, þótt þad sé ádur prentad framan vid Gaman og Alvöru, sem Espólín sál. hefir bendt til þess í bréfi til Födur míns, ad hann ætladist til ad kvædid væri jafnframt eptirmæli eptir hann látinn, lýtur þad og ad hinni kærustu sýslun Födur míns sáluga.

Ó. M. St.

---

1.

Heidur veri þeim sem þjódum
— þæga vill upplýsing fá;
sá med stórum, sá med gódum
sannarlega teljast má;
Sá vill Födurlandi lýsa,
leida vanvits burtu ský;
Þann skulum allir, allir prísa
andinn sem ad frjáls er í.

2.

Mirkur vitum móti ljósi
mun um aldir verda sett;

heimskir æ ad heimsku hrósi
høldum sjálfsagt en ei rétt;
ljóss og vísdóms sannir synir
svoddan þreytast aldrei vid,
mirkars þegnar hædi hinir
hæda þeir sinn aula sid.

3.

Hjátrú, níd og lastid logid
lof ei bilar sannleikans;
heimskan vídt þó fengi flogid
færi hærra vitskan hans;
mirkur, þó sem megnust verdi,
mirkvad sjálft ei ljósid fá,
og þó líf og lukku skérdi
ljós ei sløkkva sannleiks má.

4.

Mannvinir þó minnar þjódar
margopt komist hafi skammt,
og þá skálkar last um ljódad
lofsverdir þeir eru samt;
og því meir sem móti strídir
meiri skilinn eiga prís;
frægur er sá engu kvídir
upp þá mugur heimskra rís.

5.

Upplýsingu stórum stundar
Stephensen á vorri tíd;
haldt því fram til fremstu stundar
sá skalt lof af hyggnum lýd;
þakka skal þér, þessi vísa,
þykk sem vanvits rýfur ský,
þig skulum allir, allir prísa
andinn sem ad frjáls er í!

J. Espólín.



Hér hvílir

**Gudrún Stephensen**

Fædd Scheving

Borin í þennann heim 7da Febr. 1762

Gipt 11ta Sept. 1788

Fyrrum Lögmanni nú Justitiarius

Í Íslands konúnglega Landsyfirrétti

**Herra Magnúsi Stephensen**

Konferentsrádi og Doctor Juris

Hverjum Hún ól 1 Son og 2 Dætur.

Dáin 12ta Júlii 1832.

---

Ætt há og stand, þad er ágætt
Hreint hjarta og hyggid er hnossid ædsta.
Afbragd var kvenna sú andada.
Ei fædast konur opt þvílíkar.
— Þad vissu allir — vissi Hún ei sjálf.
Hennar gudhrædslu, greind, stillíngu,
Gédprýdi, tryggd, gódsemd, holgædi,
Mátti hverr madur maklega hrósa.
En Hún girntist ekki hrós manna.
Gód vildi hún vera og gód Hún var;
Því mun hrós Hennar þverra aldrei.

---

Erfi mannkosti Hennar afsprengi
Gefi Hennar líka Gud oss marga.

Svo setti Hennar minníngar einlægur heidrari

Arni Helgason.

---

Konferentsráds-inna

# Frú Gudrún Stephensen

leid í ljós annad

12ta Júlii 1832.

---

Ottadist Gud, en eigi skeytti
ofi heims, né manna lofi;
jöfn í lund, med stödugri stéfnu
stig lífs gékk, og skeikadi ekki.
Ráð og skynsemd rédu til dauða
ríkum merkjum dygda verka.
Eptirminníng ædri enn hennar
eingum vinnst ad dægri hinnsta.

1.

Það er fullkomnad, alsæl önd:
endadur reynslu skóli,
jardlegs líkama losnud bönd,
lífstunda brugdid hjóli;
þig hefir Drottins hægri hönd
hafið upp yfir veraldar lönd,
og sett hjá sínum stóli.

2.

„Þeim styrkva þjón', er stendur vel
stadfastur lífs til enda,
mun eg lofs, þegar lídid er hel,
lífsins kórónu' afhenda":
Þau eru Drottins dýrust ord;
drykkjar hann Þig vid himneskt bord
og sedur sætleiks anda.

3.

Kríngum Þig ljómar lífs í höll
ljós hans andlitis bjarta,
hrein sigurklædi, hvít sem mjöll,
heilagleg á Þér skarta.
Nýir árstraumar nádar hans,
nývetni dýrdar skaparans
lífga þinn hug og hjarta.

4.

Þú syngur lof á himni há
høfundi alls þess góda,
hans veldisstóli helgum hjá
med hird útvaldra þjóda.
En vér fallnir ad fótskør hans
framberum ord med túngu manns,
barnlega þøkk ad bjóda.

5.

Vér þøkkum gjøf, sem gaf hann oss,
geymandi minníng kæra;
til sín hann tók þad helga hnoss,

honum skal lofgjörd færa;
hjá honum er oss gjöfin geymd,
gráti numin og hvgrskyns eymd.
Honum sé heidur og æra!

Svb. Egilsson.

---

## Vid jardarför
sálugu Frúr Conferenceráds-innu
# Gudrúnar Vigfúsdóttur Stephensen.

---

1.

Hvört er allt í heimsins bygd
hégómi þad augum lítum?
Hvört er líka dáð og dygd
daudans undir straungum vítum?
mun hans eitur-broddur bana
búid fá, þeim stunda hana?

2.

Hvört mun daudans dimma nátt
dygdar slökkva ljósid skjæra?
Hvört mun herr hans hafa mátt
Himins Dóttur tjón ad færa?
Mundi geislum Guddóms anda
grafar dimman fyrir standa?

3.

Nei! víst dapurs dauda sigd

Drottins börnum lífid bætir,
þar, hvar manna dád og dygd
dýrdarfyllstu launum mætir.
Líf eilíft vid lækníng dauda
lýdir fá í stadinn nauda.

4.

Dygdar ljósid lýsir skjærst
ljóma-hreint í sælli bygdum,
þar hvar ordid er þad nærst
uppsprettunni ad manna dygdum
þó þad hér sé húmi hulid,
Herrans sjón ei fer þad dulid.

5.

Þángad leidir dauda dúr
Drottins vini, í ljósid bjarta,
skjær hvar rísin andláts- úr
ægi, dygdar sól mun skarta,
og ljóma um eilífd lífs í heimi,
laus frá jardar myrkra sveymi.

6.

Þar er upprunninn rödull skjærr,
sem rann til vidar hér á jördu,
þar þá réttu fegurd fær
fjær vid líkams böndin hördu,
fagurra dygda fræg vid gnóttir,
Frúin Gudrún Vigfúsdóttir.

7.

Hennar lýsti leingi og vel

ljósid dygda, í þessum heimi;
Hennar gudhrædt hjarta=þel,
hreint af øllum lasta keimi,
upplýst var af ædsta ljósi
ædra því er manna hrósi.

8.

Hvar var stilling, Hennar jøfn?
Hún var søm í lífsins kjæti
og vid lífsins sorga søfn;
søm Hún hafdi á bádum mæti;
Dygdir reynslu af bádum bída,
en bregdst ei launa vonin sídar.

9.

Hennar ord og þánka=þel
þeim var sømu skordum bundid;
hreinhjartadir vissi' Hún vel
von ad eiga' á Drottins fundi.
Ad túngan væri tállauss hjarta
túlkur Henni þókti skarta.

10.

Trúføst Hennar hvønær brást
hálig trygd vid vini kjæra?
Hvønær breyta sínum sást
sinnis stødugleik frábæra?
Hann, er um eilífd heldur tryggdir,
Henni launa þær vill dygdir.

11.

Hvørr sá Hana hafa' um hønd

hégómleikans skugga-prýdi?
fordild Hennar frjálsa önd
slúdi í verka' og orda smídi;
nakid dygda blómstrid bjarta
med blödum táls ei þarf ad skarta.

12.

Hvörr kom sá á Hennar fund,
Henni frá ei gladdur færi?
Hvörjum var ei Hennar mund
hjálparfús í þörf, sem bæri?
Gódvild himneskt géd hvar prýdir,
góts þar jardneskt undir hlýdir.

13.

Audur, metord, heidur, hrós,
Hennar þó ad fylgdi sködu,
teingd vid sídu Landsins ljóss,
leit Hún á þad med sinni glödu
sem medal, gott svo meira' Hún efndi,
en midid ei, sem á Hún stefndi.

14.

Ástkjær Maki, elskud börn
eptir Henni grátin líta,
húsfsins prýdi, húsfsins vörn
horfna' í burtu þrúngin sýta;
hjúin syrgja mista módur,
missirinn harmar sérhvörr gódur.

15.

Enganveigin allt þad gott,

sem æfði' Hún, fæ eg talið nærri,
þess má seigja sannan vott
söknuð allra nær og fjærri.
Launar berum launum meður
í leyndum sá er veit hvað skéður.

16.

Himin sitt þá heimta fer
honum best nær þykir einum;
jarðar kyns hvað eptir er,
öllum leyst af dupts ins meinum,
helgað af íbúð heilags anda,
hjúkrun felist móður-handa.

17.

En — þú sem elskar dýra dygð
og dygðum sönnum heiður veitir,
gáðu' að, hve við grafar bygð
geisli þeirra duptið skreytir;
gégnum leifar líkhams banda
leiptra merkin Drottins anda.

18.

Islands Dætur! ykkur hrósð
ef abla viljið, í kvenna-sporum,
Hennar ykkur lýsi ljós;
logi það æ í bygðum vorum!
Heill þá eblist lýðs og landa
Lands vors meðan bygðir standa.

† † †

1.
Fell þar laufblad
á leidi þitt
Hásæla Frú!
úr hendi mér
en þótt skjálfandi,
því skil eg gjør
ad þad of léttvægt er
á leidi slíkt.

2.
Þad er følt næsta
og án fegurdar,
en sannleiks litum laugad
sem Þú lédir til.
Þad vóru þeir litir
er Þú léist Þér mest
tídt um ádur
medan tafdir hér.

3.
Sá eg Þig hér lifa;
og lífs Þíns dygd
øllum augsær
af ordum lýsti;
hógværd, stadfesta
og stilling geds,
trygd trúføst
og tálleysi.

4.
Sá eg Þig líða
sjúkdóms þrautir
ei fjærri' andlátsstund
á andláts bed;
søm var þar høgfinnud
hugar-ró
eptirbid þolgód
endurlausnar.

5.
Hóf Þig hønd heiløg
hédan burtu,
og rykkti med rótum
af reit jardar;
Þú ert gródur-sett
á Guds himni
af allsherjar
urtagards-manni.

6.
Þar ber Þú blóm þau,
sem barst Þú hér,
mætra mannkosta
meigtnføgur;
vaxa þau og þróast
og vidgáng fá
undir uppskéru
eilífdarinnar.

7.
Einmána hér eptir
stendur Ástur dýrr,
vid hlid Hvørs Þú ádur

hafdir stad;
horfir uppreistur
á eptir Pér
eldar innra krapti
og ædstu von.

8.

Kvistir blómfagrir,
blødum prýddir,
og úngvidi algrænt
Hann um kríng stár.
Lída sorgar ský
yfir lund fagran
vid mista meginhjálp
og módur lát.

9.

Døgg tára drýpur
frá dýrum Aski
og af kvistum føgrum
hún fellur á jørd;
keiptrar døgg ljóma,
af lífgandi huggun,
vid eilífdar skodun
adal = birtu.

10.

Geislar hún út von
visdrar sælu
vid apturfund Pinn
þá úti er líf.
Sú er von vissa
þeim vel strída,
og bera blóm dygda,
sem barst Pú hér.

Th. Sveinbjørnsson.

---

# Vid jardarfør
## Frú Konferentsráds = innu
# Gudrúnar Stephensen.

---

1.

Pá eik í stormi hrynur háa
hamra því beltin skira frá,
en þá fíólan fellur bláa
fallid þad einginn heyra má;

en ylmur horfinn innir fyrst
urtabygdin hvørs hefir mist.

2.

Víst segja fáir haudrid hrapa
húsfreyu gódrar vidur lát;
en hvørju vendsla vinir tapa
vottinn má sjá á þeirra grát;
af døggu slíkri á grøfum grær
gódrar minníngar rósin skjær.

3.

Þessi mun rósin lengi á leidi
ljóma Gudrúnar Stephensen
og brosa móti himin-heidi,
þars' Hennar dygdin best er sjen;
því frægdin þess er fegurst þar
fordildarlaus í heimi var.

4.

Færri und sólar finnast tjaldi,
og fundist sjaldan hafa þeir,
sem skylduverk vid skatna haldi
skyldu eintóma' og hvørgi meir.
En góda þad Hún orkadi', allt
sem adra vitaskuld Hún galdt.

5.

Ad Hún hinn besti maki' og módir
og mætust hjúa forstjórn var,
þad allar vissu Ísaþjódir
og undrast slíkt ei þurftu þar:

því fyrr enn deydi fadir, grát
fødurs réd Henni vekja lát.

6.

Slíkar æ elska dætur Drottinn,
og Drottins høndu þolinmód
kyssti' Hún, þá hana þjádi sóttin,
þvíad samvitskan æ var gód;
Foreldra, ljóssins fødur hjá,
fagnadi Hún ad meiga sjá.

7.

Grátum ei tvenna setsta sólu,
sem eptir túngann æfidag
heima-skilnadar fjøllin fólu,
því fegri nú, med betra hag,
ljómar hún fyrir ædri øld,
hvar einginn lítur nokkurt kvøld.

8.

Því líkid þad, er lýdir skoda,
lidin Frú Gudrún sjálf er ei; —
eilífdar morguns rjód í roda
rødul-hrein glansar eingil-mey,
og hvarma-stjørnum helgri lyst
horfir tindrandi upp á Krist!

B. Thorarensen.

# Hljómur

úr fjarlægð við spurn af láti
Frúr Konferentsráðs-innu
## Guðrúnar Stephensen
í Viðey.

1.

Alvaldur setti öldum dag
eptir hann kémur mirklit gríma,
svo gengur lífs um sérhvers hag;
sinn hafa verks og hvíldar tíma
allar sálir sem urðu til,
þó eilífð sé þeim hugð til bóta;
gladt eptir dags og grátið bil
gánga til hvílu áður hljóta.

2.

Sunnanlands rökkvar aptni að
þar umtalsverdt má þykja lýði;
í Viðey dimmir víst er það
verður þar skyggt á stóra prýði;
þess Stórhöfðíngja þar sem býr,
þykknar um augu miklrið harma,
yndælis ljósið lita flýr
lifendra fleiri' í þeim stað hvarma.

3.

Að lífsins degi loknum hér
leið yfir nóttin Frú dýrmæta

Gudrúnn Stephensen, er sér
síst átti vída jafn-ágæta;
því er ei kyn þó skjært ei skíni,
og ský þar byrgi gledi-sól,
en hrygdin aptur hnýga píni,
sem Hana daudans blundur fól.

3.

Gód var Hún mér, en gjörkunn lítt,
gét því ei talid upp sem hæfdi
af eigin reynslu allt þad frídt
í Hennar fari mest er gnæfdi;
Gudhrædslu telja, greind, stillíngu,
gédprýdi, trygd og þolugt brjóst,
þeir Hana ljósast þekkja feingu,
þarmed gódsemd, hvad mér var ljóst.

5.

Þvílíka ei má furda Frú
þó flestir menn í nálægd þreyi,
og drjúpi þarvid nidur nú
ad numin er frá lífsins degi —
en, sá sem dagsverk setti hveim
setti þad og ad verki linni,
og laun ad kveldi líkist þeim
lífernis eptir breytni sinni.

6.

Algjör þau launa eflast not
á þeim ljómanda morgni nærsta,
sídan verdur á þeim ei þrot

Þá er unnin tignin stærsta;
sá eptir þreyr og ángur slær,
og alda Herrans fer að ráði,
á þess og von að einnig fær
öll gæði þau hans vinur náði.

7.

Ástvugar finnast aptur þá,
í því fullkomna gleði-standi;
hins sama njóta saman fá,
á sælu Drottins náðar landi. —
Svo verði nú Frú vorri því
vært, þartil Herrans koma tíðir,
algjörva sælu alla í
ástbundna fér að leiða um síðir!

J. Espólín.

---

1.

Eikur stóðu, studdu báðar
sterkar rætur, kyns ágæti,
lopt og hauður, lands-afstaða
lofaði flest, og olli mestum
styrk og blómi; blómgar límar,
bolum hæfar, náðu gnæfa;
voldugum krónum fræva fyldar
fríðar eikur prýddu hlíðar.

2.

Illviðrin sæta leiðdann láta
lángt um geim af eikum tveimur,

straumar lopta; sjón, hid sama
sanna gladi vaita rédi.
Askur þar og Embla væru,
Isa-slódar hugdu þjódir;
standa' og æxlast ætíd myndu,
allt í heimi þó er valtast.

3.

Flokkum lýdir leita nádu
lundi frídum hælis undir,
flokkum lýdir finna rédu
fridar skjól á allar hlidar,
blídar værdir þar ég þádi,'
þad má kynna kærstum minnur:
lilja, fríd sem lífid gledur
lengist þar, hún ennþá varir.

4.

Dunudu skruggur, digrir leggir
bugdu trjám; ad vidurnámi
var hvert ødru; stofnar stódu
sterkum greinum vøsdust einatt,
bifudu ad eins bjarkar laufin,
bylja vindar fjalla tinda.
Høndin gild sem hnøttum veldur
hreif frá annad kærstum Granna.

5.

Von er kvarti kløkknud hjørtu
kvída fylli sinni lýda,
von er tréd er sviptist sínum

svigni heldur maka felldum,
sú er bót, er vonin veitir,
verdur eik á nýa leika:
(verdur skadi' ad gagni gæda)
gródursett í betri lódu.

6.

Styd þú hina Lofdúng lýda!
lengi' og vel med þínu gengi,
bjód ad landi' um kóngar mundir
leidi af henni not og heidur!
þegar fellur fløt ad vøllum,
Fadir! landi bæt þann skada!
bjód Ódáins-, ødrum adri,
-akurs prýdi frjóvar hlídar.

7.

Mosa frá á høggnum húsum
til háu Libans Cedrus trjáa,
allt frá smærsta mori maura
(manna sjón sem framt er bannad)
fíla til og hafsins hvala,
háu daudans valdi náir
allt ad lúta, (er guma grætir),
Guds eru rád þó einskær nádin.

8.

Frúin góda Gudrún, prýdi
Gardarseyar, hlaut ad deya;
kallast átti, kénnd ad fullu:
Kvennval stakast, verdust maka;

gnæsðu stoðu Hennar háfu
hið fágæta litilæti,
syrndar trygð og forsjá hugðu
frómlund bæði' og þolinmæði.

9.

Sann-trúrækin, vel nam vaka,
var því góða húsins Móðir;
Stilling rèði æ fyrir øllu,
ávalt mildi røksemd fylgði.
Full var því á flestu snilli,
fagurlega var handbragð lagað.
Þú Videya! hnossir háar
hefir þèr Alfaðir gèfið.

10.

Frúin góða Guðrún, prýði
Garðarseyar, fèkk að deyaz;
sá var dauði føgur fæðing
full, til sælu-lands yndælis.
Hennar lof mun ótal yfir
aldir streyma' og valda' í heimi
þorsta-fýst í bestum brjóstum
blómguð fetað spor að gèta.

Arnór Jónsson.

# Einföld Minníng, Hávelborinnar Frúar Gudrúnar Stephensen, fæddrar Scheving, dáinnar 1832.

Þá sígur fögur sól í æginn,
sorta bregdur á hánn tind;
þegar lidid er lángt á daginn
líkt er þad og ad svalri lind,
hressíng og hvíld ad sæki sér,
sá dags af þúnga lúinn er.

---

Hvad er þad undra
eg áugum lít
Vidar-eyu úr?
Hvad mun hljód þad
hátt vid kvedur
úr köldum Klaustur-múrum.
Er sem náklukkna
nidi' í brúnum
hljómur sá hlustum rídur;
klýfur sig lopt um
sem leiptur brunt
þrumu hrædandi hvini.
Ehu frá
Essju tindar
óm þann endurkveda.
Þöglir fólks flokkar
fetum seinum
þétt, sem fylkíng, fara.
Risa hár þeim
af hvirfli berum
augum stórd á stara;
er sem heidur hárr
hrigd um blandinn
flokki þessum fylgi.
Sjer eg Íslands
ena ítrustu
þenna skara skreyta.
Sér eg öldúng,
med aldur-snjá;
þessum fremstann í flokki,
grátur er honum í auga,
gledi-bann

Hetju brjóst um brennur;
Honum børn hans
ad-baki standa
og frægúr frænda-bálkur.
Heyri' eg nú efni
adal-sorga
af Öldúngs egin munni:
„Heimur er mér horfinn"
— og til himins leit —
„mín Leidarstjarna' er burt
lidin."
Vit þú minn vinur:
enn vídfrægi
Magnús Stephensen
mælir,
— Konúngs hátignar
Konferentsráð,
laga listum krýndur. —
„Horfinn er mér heimur,
„en hans eg naut
„frá því fyrst Hana sá;
„skein sú mér und nordurs
„skauti stjarna
„skærust æ af skærum.
„Var mér log hennar,
„sem leingur brann,
„ávalt blídast blisa;
„lengi var eg sæll
„und sól hennar,
„hún mig sæl af ad sjá.
„Uns ad hvel þad
„hvadan hún skein
„á sínum ási snérist,
„horfdi' eg þá til himins
„eptir horfnu ljósi,
„uns mér vard svart fyr-
ir sjónum.
„Fann eg þá hønd,
„um hønd mína
„kreista, ísum kalda;
„hjal fylgdi hendi:
„hel er á gómum
„taktú í mund mér Maki!
„Þad var Húsfrú mín
„horfdi til grafar —
„í líki leidar-stjørnu
„Gudrún Stephensen
„fædd Scheving:"
„Rétti' eg þér hønd
„í hinnsta sinni,
„þøkk fyrir þad umlidna!
„þøkk fyri fylgd
„á førnu skeidi,
„ásta trygd þú tjádir!
„Grát þú ei Maki
„yfir gledi minni,

„þøkk fyrir styrk í stridi!
„saman vid grétum
„glødbumst saman,
„missátt hví skyldum vid
skilja!
„Þøkk sé nákvæmni
„þinni' og dygd,
„þøkk fyrir umønnun alla;
„þøkk sé Gudi
„ad frá þér til hans
„fer eg fullkomnari.
„Fer eg nú hugró
„— hønd nú slepptu —
„fødurlands átthaga í;
„tak mig nú daudi,
„dey eg ørugg!"
Svo deyr sá gudhræddi.

---

Ei þarf mannkosta
minnast Hennar,
þeir sig sjálfir segja;
fegrad verdur ei
hvad fegrast er,
ei þarf gull ad gylla.
Mundi þad ei nóg,
ad Hún maki var
fødurlands frægsta
Sonar?
Mundi þad ei nóg,
Hann matti Hana
sinn hvervetna heidur?
Mundi þad ei nóg,
Hún metin var
maka verdug mærum?
Mundi þad ei nóg,
ad madur sá
æfilángt ei sást gráta,
grætur nú sem barn
og barmar sér
hørdum harmi sollinn?
Mundi þad ei nóg,
ad módur-foldar
mætast meingi fylgir
Henni, heidrandi
ad hvíldarstad?
hinnsta heidurs merki!
Mundi þad ei nóg,
Hennar mætu børn
eru sem lík yfir liki?
liggur þeirra' í tárum
talandi vitni
um missi bestu Módur.
Hve mikill fjøldi
fósturnidja
blessar ei mætrar moldir?
andvarpa aumir,
Hún eittsinn leit,
jeg hefi Módur missa!

Fljóð munu fæðast
og að Frúvum verða,
Hennar fár líki lifa.
Þó gleymist það góða
sem gjørdi einn
meðal manna sona,
það mun þar ljóma

hvar ens liðna sál
sæld í þrábri situr.

---

Blómgi dygð Hennar
á dýrum niðjum!
Hvíli andi Hennar
yfir Islands dætrum!

---

Aldrei mun svo úr austur=hlíð
upprenna, heims í minni,
sól, guddómleg og geislum blíð,
að grøf í vestri ei finni;
hvað elskuð sem er æfi manns
er þó svo spunnið hlutfall hans:
hún ljómi', en aptur linni.

Sætt er til grafar gánga þeim
sem, gæddir silfurhárum,
unnu sønn góðverk hér í heim',
høfðu rétt varið árum
til bræðra heilla, heiðurs lands,
hlýðandi boðum skaparans
með dygð og kærleik klárum.

Ogmundur Sigurðsson.

---

†

1.

Bláa vegu
brosføgur sól
gengur glødu skini.
Sérattú søknuð

og forga fjøld
þeirra, á landi lifa?

2.

Gréa grøs
vid geisla þína
lidinna leidum á —
en þú brosir
og burtu snýr;
kvøld-gustar kula.

3.

Svo frá heimi
til himinsala
frelstar sálir fara;
sýta syrgendur
sóllausa daga
ángur-gusti í.

4.

Hvør er hinn grátni,
sem ad grafar bed
beygdu høfdi bídur?
elskad lík
undir kølbum leir
hvílir feti framar.

5.

Stydst harmþrúnginn
Høfdíngi
Stephensen ad steini —
framlidna Frú,
fødurlands prýdi,
syrgir svo mælandi:

6.

„Sáran lét Gud mig
søknud reyna!
verdi hans vísdóms
vilji á mér!
Syrtir í heimi,
sorg býr á jørdu,
ljós á himni,
lifir þar mín von“.

7.

„Hvar skal eg léttis
í heimi leita?
hvar skal eg trega
tár of fella?
Bída vil eg gladur,
uns brotnar fjøtur
líkams, og laus
líd eg eptir þér“.

* * *

8.

O þú máttur
og mikla von,
er þá øflgu stydur!
Hjørtun hefjast,
þá hetju sjá
standa eina í stríði.

Jónas Hallgrímsson.

# Talad

vid útför Frú Conferencerádsinnu,

# Gudrúnar Stephensen,

í Videy 21ta Júlí 1832,

af Stiptprófasti og Riddara af Dannebrog

Arna Helgasyni.

---

Drottinn! þú sem af gædsku þinni skópst, oss til þinnar eilífu dýrdar, kénn oss öllum þá speki ad óttast þig og gjöra þad sem rétt er fyrir þinni augsýn! Ætíd séum vér þess minnugir ad vér erum fyrir eilífdina skapadir, og ad vor hérvera er ekki annad en undirbúníngur undir þad líf sem fyrir hendi er, þegar þetta jardneska þrýtur. Amen.

---

Hærstvirdtu Tilheyrendur! útför þeirrar sælu framlidnu Frúar, sem Drottinn hefir kallad til sinnar eilífu dýrdar, géfur mér tilefni til ad minna ydur og mig á þessi helgu ord: **Drottinn gaf, Drottinn burttók þad, lofad sé nafnid Drottins!** (Job. 1, 21). Mér kémur því heldur til hugar ad minnast þessara orda vid þetta tækifæri, sem eg þykist géta fullyrdt, ad sú gudhrædsla og gédstillíng, sem ordin géfa til kynna, hafi verid svo

sem höfuð-auðkénni þeirrar Framliðnu, og sem sú uppspretta hvaðan öll sú fullkomnan flaut er prýddi allt Hennar dagfar, og var svosem sálin í Hennar æru-verða lífi.

**Drottinn gaf.** Það er hin fyrsta grein þess-ara helgu orða, — svo viðurkéndi sú Framliðna. Öll þau náttúrunnar og lukkunnar gæði, sem Drottni hafði þóknast í svo ríkuglegum mælir að láta verða hennar hlutdeild, svosem: göfugt ætterni, heiðarlegasta ráðahag, upphefð og auðsæld, atgjörfi sálar og líkama í fullkomnasta lagi; það viðurkéndi hún allt Guðs-gjöf, einsog þetta í raun réttri má svo heita. En — það eru ekki allir sem hafa hyggni þá og íhugun að þakka Guði, enn þótt frá honum, Föður ljósanna, öll góð og öll fullkomin gjöf sé niðurstígandi, og er það samt hverjum einum mesti skaði, einsog hitt er fullkomnunar vegur að þakka Guði sitt lán. Þessi guðhræðsla sýndi sína eðlilegu ávegsti hjá vorri Framliðnu. Þakk-lát við höfund alls góðs, framgékk Hún þá beinu skyldunnar leið, með auðmjúku hjarta fyrir Drottni og með góðsemi við alla sína meðbræður, því Hún vissi, að sá sem elskar Guð hann á líka að elska sinn bróð-ur. Hennar viðmót var hið sama við alla, góðlát-legt, einlægnisfullt, hispurslaust. Enginn var Henni of lítilmótlegur, enginn of göfugur. Hún var hin sama þann eina dag lífsins sem hinn annann; geðið var í sífeldri ró, hjartað hafði stöðugann frið; Hún hafði frið við Guð og frið við sjálfa sig.

Breiskleiki mannsins er margvíslegur; á allar

hlidar umkríngja hann freistingar. Þó einum takist ad lifa rádvandlega, hefir hann ei ad heldur sneidt hjá allri freistni. Sumum þeim, er rádvandlega lifa, hættir vid því ad álíta sig algjørda, þegar þeir vita sig fría fyrir þeim lýtum er þeir sjá á ødrum. Sumir ætla sig ødrum heilagri, ef þeir sjá adra afrækja þær trúarbragdanna útwortis skyldur sem þeir sjálfir rækja. Hverig þessi freistni áreitti þá Framlidnu, svo nokkur gæti ordid var vid, í ordi eda verki, og hvad verndadi Hana frá þessum breiskleika mannsins náttúru? Efalaust þessi hugsan: Gud gaf — hvad hefir þú madur! sem þú hafir ekki þegid? Því þó vér eignum oss hvad helst sidgædis fullkomnun þá, sem oss audnast ad ná, svosem vort egid, ad svo miklu leiti sem Gud gaf oss krapt til ad áforma og framkvæma, getur þó nokkur umhugsan kénnt oss, ad einnegin í því sem vidvíkur sidferdi voru er raunar allt Gudi ad þakka, sem þenna krapt til ad áforma gott, myndadi svo vort hjarta ad þad getur girnst hid verulega góda, tilhagadi svo kríngumstædum lífsins, ad vér leiddumst til ad óttast hann og adhyllast og gjøra þad sem rétt er; fengum kristilegt uppfóstur med tilliti til vana og uppfrædíngar, og yfir høfud ad tala: vorum leiddir þá lífsleid sem mest studladi til þess, ad vér yrdum sem hæfilegastir til Guds ríkis; hverjum ødrum enn Gudi getum vér þakkad allt þetta? Med mesta rétti getum vér og sagt hérum: Gud gaf þad, og ef vér segjum og hugsum þad, segjum þad svo ad hugur fylgi máli, þá

mun oss audnast ad líkjast þessari Framlidnu, í því lítilæti og audmýkt fyrir Gudi sem svo fagurlega prýddi allt Hennar dagfar, ad þad var unan til ad vita; þeim mun heldur, sem allir gátu þekkt, ad Hennar lífs kríngumstædur voru þessh†ttar, ad þær hefdu gétad í þessari grein leidt Hana afvega, þegar ættin var gøfug, standid hátt, mannordid mikid, lífid yfir høfud ad tala kostulegt. Ó! þad er mikilsverdt ad geyma þessa hugsun innst í sínu hjarta: Drottinn gaf. Þad verndar frá margri afvegaleidslu; Þad kénnir marga andlega fullkomnun. Þeir fullkomlegleikar sem náttúran, sem lukkan veitir, þeir sem sidferdid prýda, er tæla svo marga og afvegaleida, þeir verda þeim einmidt til farsældar sem gleyma aldrei þessari hugvekju: Drottinn gaf; þeir finna sig tilknúda, þess meiri líkamleg eda andleg blessan sem þeim veitist, ad undirtaka med þeim sama Gudsmanni, sem sagdi: Drottinn gaf; sé nafnid Drottins eilífslega vegsamad!

En hin ønnur málsgrein, þeirra heiløgu orda sem vér høfum valid oss fyrir texta, er þessi: Drottinn burt tók. Ef vér géfum þessum ordum nokkud frekari meiníngu, heldurenn þau eginlega hafa, einsog vér høfum géfid enum fyrr áminnslu, þá gét eg eins heimfært þessa sem hina uppá vora Framlidnu. Ef vér skiljum þessa grein svo, ad hún tali ei adeins um missir, heldur allt þad sem manninum er erfidt og mædusamt, má hún, ad svo miklu leiti, heimfærast uppá vora hásælu Frú, sem Hennar líf fór ei hlutlaust af

þeim erfidleika sem lífinu plagar ad fylgja. Vér þekkjum allir ord Mósis, þess Gudsmanns, er svo hljóda: þegar lífid hefir verid kostulegt svo var þad mæda og erfidi. Vér vitum allir ad líf vorrar Framlidnu var kostulegt, mundi þad þá ei hafa og verid mæda og erfidi? Hún var tengd hjúskaparins helgu böndum vid þann mann, hvörs gjörvalla líf hefir verid audugt af margslags framkvæmdum og störvirkjum, vard ei þaraf edlileg afleiding fyrir Hana töluverd fyrirhöfn og annríki? En þessi fyrirhöfn, umsvif og annríki kom Henni aldrei, hvörki til ad mögla né kveina. Nei, Hún gégndi sinni margbreyttu köllun med allri alúd, staklegri greind og dugnadi, og þad sem mest var verdt: med hrestu og glödu gédi og óþreytanlegu þolgjædi. Þad sama stöduglyndi, sem Hún sýndi í því ad láta ei lífsins dýrd blinda sig, þad hid sama lét sig í ljósi í lífsins örduglelka á þann hátt, ad hann gat ekki beygt, ekki yfirbugad Hennar sinni, svo ad Hún gleymdi síns stands verdugleika eda þreyttist, medan kraptar voru og heilsa tilendtist, gott ad gjöra.

En þó vér tökum áminnsta málsgrein í hinni eiginlegustu þýdingu, gétum vér og heimfært hana uppá vora sælu Framlidnu; Hún kénndi og á missir. — Drottni þóknadist ad reyna Hana med missir efnilegustu og bestu dóttur, þegar þessi einmidt hafdi nád þeim aldri, ad allir gátu sjed hvílíkt afbragd hún, med tilliti til gáfna og allra kvennkosta, mundi verda, á blómlegasta æskuskeidi. Ad Hún hafi fundid til

þessa missirs má af því ráða, að í hvört sinn sem Hún hennar minntist, og það mörgum árum síðar, svo skéði það ætíð með votum augum, en jafnframt með gleði blandaðri guðrækni; því Hún, sem kannaðist við að Guð hefði géfið sér þetta afkvæmi, kannaðist líka við að Guð hefði burttekið það, tekið til sinnar dýrðar frá þessa lífs volæði og margvíslegu hættum og freistíngum. Hún syrgði sitt afkvæmi með allri móðurr viðkvæmni, en undireins með öllum verðugleika síns standsi, og allri kristilegri þolinmæði og auðsveypni. Hún misti og fyrir rúmu ári síðan bróður, og það bróður sem Hún elskaði innilega; Hún syrgði hann, en með allri þeirri stillíngu sem Henni var svo eginleg. Hún hafði þá í nokkur ár þjáðst af þeim veikindum, sem nú fyrir skémstu gjörðu enda á Hennar heiðursverða lífi, og Hennar fyrsta hugsan við þetta tækifæri var þessi: hvað mun Guði géta gengið til að treina mitt líf, sem ekki gétur nú lengur verið nokkrum manni til uppbyggíngar, heldur til armæðu, en taka þann burtu sem mörgum gat verið og mörgum var til liðsinnis? en hans vegir eru ofháir. — Það heilsutjón sem Hana heimsókti nú fyrir rúmum 6 árum og sífeldt fór í vöxt, þángaðtil það nú loksins vann á Hennar annars velbygðu líkams tjaldbúð, það þoldi Hún með sömu guðrækni, sömu stillíngu, sama þolgæði, sem annað mótlæti. **Guð gaf, Guð tók það burt**, sú hugsan var Henni eiginleg. Hennar líf og öll breytni lýsti því, að Hún tæki við lífsins gleði svo sem Guðs gjöf, lífsins mæðu sem út-

hlutun hins sama heimsins Stjórnara, sem sendir bædi blídt og strídt, hvørttveggja í gædskuríkum tilgángi, þótt hid mótdræga, medan þad áliggur, þyki enginn føgnudur vera.

Tveimur døgum fyrir andlátid, eg leyfi mér ad minnast þess, er eg naut þeirrar æru ad tala vid þá miklu konu — og þá var einsog nærri má géta lífsins ljós þegar slokknad — fékk Hún sér medal annars þad til orda, ad nú væri lund sín ordin svo bág ad sér yrdi ekki gjørt til hæfis. En þad er hvørttveggja ad allir vita, ad enginn sá hefir þenna géds annmarka sem yfir honum kvartar, enda urdu fljótt margar raddir þeirra sem vidstaddir voru til ad vitna allt annad, og hrósa því med hvílíkri stillíngu Hún bæri sína veiki, med hvílíku hóglyndi Hún þreydi undir okinu, med hvørri vorkunsemi hún umbæri ófullkomlegleika þeirra, sem gégna skyldu Hennar naudsynjum; og svipur þeirra sem tøludu sagdi enn meir enn þeirra ord. Já þad er þeim eiginlegt, sem heimtar mikid af sjálfum sér, ad heimta lítid af ødrum, þad var og vorri Framlidnu eginlegt; því naut Hún líka fullkominnar elsku og virdíngar þeirra, sem voru svo lukkulegir ad verda Henni med einhvørju móti handgengnir. Hennar bendíng var þeim bodord; ad vinna til Hennar misþóknunar þókti ógjørlegt, því hún var engum vís nema þeim sem illa breyttu. Engar ógætnis yfirsjónir, enginn breiskleiki vakti Hennar misþóknun. Engann ávítadi Hún, þó yfirsjest hefdi, sem sýndi á sér þad snid ad hann vildi ávíta sjálfann sig; gædsk-

an og vitið var samtaka í allri Hennar húsfstjórn, einsog í øllu Hennar ráðlagi. Hennar velgjørðir høfðu það við sig, að enginn sem fyrir þeim varð gat verið óþakklátur; þær voru veittar með þeirri aðferð sem inntekur hjørtun; þær komu af einlægri hjartagæðsku, og Hennar vinstri hønd vissi ei hvað hin hægri gaf. Hún veitti ætíð meiri athygli því sem Henni þókti sig skorta, heldurenn hinu er Hún hafði, og slíkt er von og vísa þeirra sem hafa guðrækilegt sinni. Ekki hefi eg nú høndlað það, svo hugsa, svo tala þeir, eg skunda þar eptir ef eg mætti það høndla.

En eg hefi um stund vikið frá textans orðum, í því mynd ennar Framliðnu hvarflaði mér fyrir hugskots sjónir, hvørrar minning þó best á við að heiðra með þegjandi hugsun; eg hverf nú til textans aptur: **Drottinn gaf, Drottinn tók það burt, sé nafnið Drottins vegsamað!** Einsog þessi orð máttu vel heimfærast uppá þenkíngarhátt vorrar Framliðnu, svo mega þau enn beinar heimfærast uppá Hennar líf og andlát. Drottinn gaf Hana voru landi, Hún var sannarlega Drottni verðug gjøf. Drottins gjøf var Hún Yður, hávelborni Herra! sem nú, eptir 44ra ára sambúð, með ástúðlegum kærleika syrgið og tregið Yðar trúføstu Ekta-hústrú. Það hafið þér lengi þekt og viðkannast. En sá sami sem gaf Hana hefir nú tekið Hana, (ekki frá Yður, Hún heyrir Yður eilíflega til), heldur frá þessu stundlega, þessu erfiða lífi, hvørt að, þegar það hefir ver-

id kostulegt, hefir og armæðusullt verið, þegar heilsu-tjón og elli að því þreyngir. Eptir að Drottni hafði þóknast að reyna Ydur og Hana, með Hennar 6 ára veiki, hefir Drottinn nú gefið Henni hvíld, og Ydur þó midt í sorginni þá huggun að vita Hennar þjáníng á enda, vita Hennar ódauðlega anda lausann við þau líkams fjøtur sem hann áður bundu við þetta jarðneska, um hvørs fánýti fáir munu betur sannfærdir. — Drottinn gaf, það veri Ydar þakk-lát viðurkénning. Drottinn tók, það veri Ydar huggun. Drottinn getur ekki gjørt annað enn það sem gott er, og hver álítur ekki gott héðan að fara og vera með Kristi?

Pér børn og Fósturbørn ennar sælu Frúar! var Hún Ydur ekki Guðs gjøf? Hvørja mundud Pér heldur vilja kjósa fyrir Móður eda Fósturmóður, af øllum þeim konum sem Pér hafið haft tækifæri að þekkja? Efalaust hafið Pér til þess hugsað, optar enn einusinni, með þakklátum hjørtum, hvað Guð gaf Ydur, þar sem Hún var. Pað sinni gat sú Framliðna kéunt Ydur, sem í velgengninni er þakklátt og auðmjúkt fyrir Drottni. Nú er sú horfin frá Ydur sem Drottinn gaf; Hennar andi er farinn til Guðs sem gaf hann, en Ydar Móðir og Fósturmóðir verður Hún að eilífu. O! það øfundsverða lán sem einka Dóttur þeirrar Framliðnu veittist, að fá tækifæri til að gleðja með sinni nálægð þann nú sæla anda, þeirrar bestu Móður, rétt í því hann var að búa sig héðan, burt úr þeirri jarðnesku tjaldbúð, til þess hvíls-

ins sem þeim útvøldu á himninum er tilbúid, eilíft, óforgengilegt, já ad géta sýnt Henni øll sín afkvæmi, Þrjú ad tølu, og sagt: hér er eg og þau børnin sem Drottinn hefir mér gèfid; ad vera svo vottur ad þeirri stillíngu og þeim fridi, hvarmed daudinn, sá Engill Guds sem sækir þad sem Skaparans er, gjørdi hér vart vid sig, eda réttara sagt med hvílíkri stillíngu sú Framlidna beid hans átekta, er Hún sá hann þokast nær og nær. Þar gat Dóttirin sjed, med fullri vissu, einn ávøxt gudrækilegs lífs og verid sjónarvottur ad því, ad einsog Módurinnar líf hafdi lidid fridsamlega, svo vard nidurlag lífsins fridsamlegt.

Drottinn gaf, Drottinn tók burt, þad séu Ydar ummæli nú, Náúngar og Tengdamenn og Fósturbørn þeirrar sælu Frúar! Þad séu Ydar ummæli vid þad sem hér er skéd, og vid hvad eina gledilegt eda sorglegt sem Ydur mætir! Þad hugarfar, hvadan þessháttar ummæli koma, er svo gudrækilegt, manni tilhlýdilegt og verdugt, og svo líkt hugarfari þeirrar Framlidnu. Þad er svo øblug verja, gégn þeim metnadi sem margann ysirfellur þegar heimurinn lætur honum, og gégn þeim óþola og møgli, sem einatt vill heimsækja þá, er kénna á lífsins annmørkum og verda mótgáng ad reyna.

Drottinn gaf, Drottinn tók þad burt, sé nafnid Drottins vegsamad! svo undirtøkum vér allir, med þeim Gudsmanni Job, vid þetta hátídlega tækfæri. Vér vegsømum nafn Drottins fyrir

gjöf þeirrar Framlidnu, þessa gudlegu gjöf, sem svo margir og svo lengi, eptir ókatölu mannlegs lífs ad reikna, nutu góds af. Vér vegsömum nafn hins sama, fyrir þad hann leysti Hana undan sjúkdómsins og ellinnar þjáníngum, og flutti til sinnar eilífu dýrdar. Blessad verdi nafnid Dróttins eilíflega! hann gledji þá sem syrgja! hann veri þeirra, hann veri vor allra hjartans traust og hlutskipti! Amen.



# Registur

## yfir Ljóðmæla- Grafminninga- og Erfiljóða-söfnin.

### A. Ljóðmælasafnið.

### Fyrsti Flokkur.

## B. Grafminninga- og Erfiljóda-safnid.

### a. Grafm. og Erfiljód samin af M. St.

# Eptirmáli.

Nú hefi eg bundid enda á loford mitt, gódir landar! ad láta prenta Grafskriftir þær og Erfiljód er Fadir minn sál. hafdi samid, ásamt Grafminníngum yfir báda Foreldra mína, enum helstu Erfiljódum er eptir þá hafa verid kvedin og sinni Líkrædu yfir hvort þeirra; er nú þetta safn ekki meira enn svo, ad mátulegt virdist ad binda þad saman vid hid fyrra, edur Ljódmæli Födur míns, hefi eg og ordid þess áskynja ad margir munu hafa í áformi ad láta gjöra þetta, þessvegna lét eg prenta Registur yfir bædi söfnin, svo audveldt er ad finna hvad eina eptir því; verd sídara safnsins er einúngis 32 sk. svo þau kosta bædi til samans, edur öll bókin óinnb. 80 sk.

Einstakar stafa-villur hefi eg fundid, er litlu nema, eru þær helstar: ad á 86tu bls. Ljódmælanna 3ju línu ad nedan stendur frá'g fyrir frág, og á 4um stödum í látínsku grafskriftunum er œ fyrir æ. Þad er þó einkum tvennt er þarf ad leidrétta og adgæta: nefnil. 1) ad vísan á 103ju bls. Ljódmælanna: „Hvar er stúlkan rjód, rjód," o. s. frv. er ránglega eignud Födur mínum, kom þad af rángminni annarra, en eg fékk ekki vitneskju um þad fyrr enn prentunin var búin; vísan kvad standa í Háttalykli Þorláks Gudbrandssonar Vídalíns, þess er orkti fyrra hluta

Utfarar-rímna; 2) ad íslendska Grafminningàn, yfir Grit Biskup, á 45tu og 46tu bls. í sídara safninu, er ekki útlögd heldur samin af Födur m. sál. og gjördi hann hana fyrr enn hina latínsku. Ennframar kémur mér nú til hugar, ad í Ljódmæla safninu eru 3 kvædi sem almenníngur, ad líkindum, ekki veit hvörnig á stendur. Er þá fyrst ad géta þess um kvædid á bls. 31—2, ad þad mun vera saknadar-kvædi eptir Systur mína sál. Sigrídi, er þeir Foreldrar okkar mistu sárt-saknada á 16da aldurs ári 1805; er þá audvitad ad Lychnis á ad tákna Hana og Muni Födurinn. Annad kvædid er á bls. 66—8; var svo undirrót þess: ad Sá, sem þad er um kvedid, hafdi látid bera á þykkju yfir því ad hann ekki var talinn med helstu Skáldum landsins, í Eptirmælum 18du aldar. Hid þridja Stjörnu-vísur, á bls. 101, eru svar uppá gaman-edur skop-vísur Prests í nordurlandi útaf færleik, er hann átti og gékk um vetur hér í Videy, hafdi Prestur-inn skopast ad Bragavísum, (sjá bls. næst á undan), en í svarinu eru teknar upp tvær fyrstu hendíngarnar úr Klerksvísunum.

Til tveggja smá-kvæda (auk nokkurra smávísna) hefir mér verid bendt, sídan Ljódmælin voru prentud, sem eignud eru Födur m. sál. og vanta í safnid, eru þad útleggíngar dönsku kvædanna: „Druen voxer paa vor Klode" („Vínber spretta' á vorum hnetti" o. s. frv.) og „Nyd Livets korte Morgenrøde" („Njót lífs mjög stutta morgun-ljóma" o. s. frv.); hvörki veit eg skýlaust, hvört Hann hefir íslendskad hid fyrra né hvar þeirrar útleggíngar er ad leita, og hvad snertir útleggíngu ens sídara: þá hefi eg

hana ad sönnu skrifada eptir minni annars manns, enn eg ætla hana ekki rétt hermda, og þori því ekki, ad láta prenta hana ad svostöddu.

Eg hefi nú ekki ödru hér vid ad bæta, enn bidja góda menn velvirdíngar hafi yfirsjest ad leidrétta eitthvad, sem nokkud sé í varid; læt eg nú bókina frá mér fara, og vona hún verdi mörgum kærkomin endurminníng um Foreldra mína, og adra þá merkismenn, hvörra minníngu hún hefir ad geyma.

Videyar Klaustri þann 4da Aug. 1842.

O. M. Stephensen.



